# SÁLMASAFN

EPTIR

Síra ÞORVALD BÖÐVARSSON.



---

REYKJAVÍK, 1857.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

E. ÞÓRÐARSON.

Þetta sálmasafn er gefið út eptir eiginhandarriti síra Þorvaldar Böðvarssonar; þetta handrit er nú í eigu Ásgeirs bókbindara Finnbogasonar á Lambastöðum. Það hefir verið áform mitt, að gefa frumritið út með sem minnstum breytingum; en þó hefir orðið að gjöra nokkrar breytingar. Síra Þorvaldur Böðvarsson hafði ekki skipt sálmunum í flokka, og ekki raðað þeim eptir neinni fastri reglu í handriti sínu, og þótti því eigi ráðlegt, að gefa þá út í þeirri röð, sem í handriti hans er. Dómkirkjuprestur og prófastur síra Ólafur Pálsson hefir skipt sálmunum í flokka og bætt við fyrirsögnum fyrir hverjum einstökum flokki, en fyrirsagnirnar fyrir sálmunum sjálfum eru eptir síra Þorvald Böðvarsson sjálfan. Þar að auki rèðst eg í að breyta fáeinum orðum, sem eg hèlt væru misrituð í frumritinu, og bæta inn

í tveimur orðum, sem mèr fannst vanta. Eg hefi skrifað:

*fæ* fyrir *fá* í frumr. í 7. s., 7. v., 4. l.
*Æ* — *Ei* - — - 18 - 6 - 2 -
*lengi* — *lendi* - — - 26 - 10 - 2 -
*hvað við mig* f. *hvað mig* í frumr. í 26. s., 10. v., 3. l.
*guðs* fyrir *guð* í frumr. í 26. s., 19. v., 6. l.
*mig* — *mèr* - — - 57 - 3 - 3 -
*hann* — *hans* - — - „ - 7 - 5 -
*Eilífð* — *Eilíft* - — - 78 - 7 - 3 -
*Af* — *At* - — - 81 - 10 - 2 -
*sig* — *þig* - — - 89 - 2 - 4 -
*vægðarlaust* f. *vægðarlaus* - — - 93 - 6 - 3 -
*í dómi* fyrir *á dómi* - — - 95 - 3 - 1 -
*Minn* fyrir *Mitt* - — - 121 - 6 - 3 -
*Því* — *Þó* - — - 133 - 4 - 1 -
*sýna'* — *sýnt* - — - 133 - 5 - 3 -
*mig hug hert* f. *mig hert* - — - 135 - 2 - 4 -
*skrauti* fyrir *skauti* - — - 142 - 7 - 1 -

Því verður ekki neitað, að það eru ó-

vanaleg eða óljós orð eða orðatiltœki á fáeinum stöðum í þessu sálmasafni; en eg þóttist ekki hafa rètt til að breyta neinu þess konar, þar sem eg ímyndaði mèr að höfundurinn sjálfur hefði ætlazt til að það væri einmitt eins og það er í handriti hans.

Reykjavík, 9. d. janúarm. 1857.

*Jón Þorkelsson.*

I.

## Opinberun guðs, vera hans og eiginlegleikar.

---

### Nr. 1.

Guðs tilvera.

Lagið: Sœti Jesú! sjá oss hèr.

Vafalaust ef vissi' eg ei: „Víst er guð til; hann mig skapti:“ Sem stýrislaust á stórsjó fley Steypast mætti' eg firrtur krapti; Hverja verju' eg hafa kynni Mót hugraun, þrá og gremju minni?

2. Þá hver gleði þornuð lind Þryti mèr; öfunda' eg mætti Mèr skör lægri marga kind, Er minna böli' og kvíða sætti; Eden hver mèr yrði' á jörðu Eyðimörk í kífi hörðu.

3. Hversu væri' eg vesall mjög, Volæði, böli, glötun kjörinn! Æ! hvað betra', að aldrei eg Í heim þenna væri borinn, En í myrkrum, ógn sem bjóða, Ekkert vita' um guð minn góða!

4. Menn þá hefðu sansa' og sál, Svo þá rólaust kvalið fái Ótal kvíða'- og efamál; Endalaus að gæði þrái, Er þó öðlazt aldrei geti, Örvæntingar vafðir neti.

5. Moldarryk sem þurrt vèr þá Þyrlast hlytum geim um víðan; Aptur, visin eins og strá, Ofan í jörðu berjast síðan; Fátt og dauft til lasta latta Lèti oss þá, en dyggð á hvatta.

6. Æ! hver stoð þá yrði mèr, þó æfði' eg mig að stunda' hið góða? Von lífs betra þegar þver, Þver, hvað vert er ást að bjóða; Synd þá byði sælu marga, Sælu', er dyggðin mundi farga.

7. Banvænu, mèr flýið fjær, Flýið, þankar, burt til heljar! Sál mína þèr saurgið, nær Þá sömu gjörið fæla' og kvelja; Flýið, eg því æðstu þekki Upprás lífs míns; sál ei flekkið!

8. Gjörla' eg veit, að guð er til, Gjörla' eg veit, á hvern eg trúi; Önd mína' hans eg anda skil, En af mold kroppinn til búið Hefir með snilld; mèr heldur viður Hvern dag, verndar, blessar, styður.

9. Gjörla' eg þekki grundvöll þann,

Er gæfu mína á eg byggi, Hvern eg tigna', og treysta kann Tállaust, þó að mest við liggi, Í hans vil eg ást hvert sinni Mig iðka', að honum þóknast kynni.

## Nr. 2.

### Þekking guðs tilveru af hans verkum.

Lagið: Standið upp, Kristí börnin blíð!

Af þínum verkum eg það skil, Ó minn drottinn! að þú sèrt til; Spor þíns almættis ótal má Í öllum skepnum finna' og sjá.

2. Forvirki heimsins fagurgjörð, Sem fögnuður minn og þín eru dýrð, Í ótal söngkórum hrópa hátt: „Hèr er guð! hann þú tigna átt".

3. Hver er sá, hvers því olli orð, Að himininn varð til og jörð? Hver er sá, orð hvers um svo bjó, Að vatna safnið lenti' í sjó?

4. Hver lèt í uppheims hæða hyl Herskara stjarna verða til? Hver skruggu öskri skipa rèð Skelfing veröld að fylla með?

5. Að spyr hvert dýr, sem auga sèr;

Uppfræðing mun það veita þèr: Guð, sá heim annast gjörvallan, Guð er dýranna líka hann.

6. Guðs lofkvæði hvert gras og strá, Guðs prís skógviðir róma' og tjá, Yrmlingur eins í moldar mó Og marglit padda', á laufi' er bjó.

7. Æ! hvað þig þekkja' er önd manns treg Undur þín við svo dásamleg! Upplýsi, guð! þinn andi mig Í öllu læra að þekkja þig.

8. Lát sèrhvern, þig er þekkja rèð Og þitt nafn nefnir lotning með, Og traust þig setur öruggt á, Andlit þitt náðugt fá að sjá!

## Nr. 3.

### Yfirburðir guðlegrar opinberunar.

Lagið: Blessaða þrenning blessuð sè.

Sæll, ó guð! lýður þinn er, þig Þeim birtir hèr í heimi; Forsjá og stjórn þín föðurlig Á ferli' er rèttum geymir; Vèr erum lýður sæli sá, Sem um þinn vilja' og gæði Eilíf upp fræðir, Og af lind sjálfri ausa má, Anda hvað svölun gæðir.

2. Vei þeim, er ljóss þíns velja' í stað, Vor guð! sèr myrkrið svarta! Vonarlaust þeirra' og villt fyrir það Vafra má drambsamt hjarta. Sjálfur kallar þú æ þá enn, Að erfa þinn himin megi, En dauða' ei deyi; En girnda blindra ginning menn Glötunar stig á teygir

3. Þitt, ó guð! mannvit þekkir boð, Þig í stœrð verka þinna; En vit þó skortir vissa stoð, Til verka góðra að finna; Vèr syndgum! mannvit víst ei nær Við oss þig aptur sætta; Þó gljúpa' og grætta Þú sjáir oss, það angur fær Afmáða' ei synd nè bœtta.

4. Straffskvíða haldin hlytum þý Hèr alla særast æfi, Bót nema' af hæð mót böli því Bezta þitt orð oss gæfi; Uppgjöf syndarinn allra kann Í Jesú Kristó sinna Synda' og frið finna; Makt og vèlgirnda megnar hann Með trúnni' að yfirvinna.

5. Orðs þíns, ó guð! það gafstu, hnoss Gef ástgjöf stœrstu metum; Það leiði' oss hèr og lýsi oss, Líf eilíft erft svo getum. Æ! kenn syndurum, er það smá,

Undir Jesú ok ganga Láti sig langa, Að hroka' og blindni horfnum frá Hlotnist hans ríki' að fanga.

## Nr. 4.

### Vor guð er einungis einn.

Lagið: Jesús Kristur að Jórðan kom.

Einasti guð! hver er þèr jafn? Hver orkar verk þín vinna? Hvern göfgar himna hersins safn? Hvern kraptarins guð inna? Þú varst það, hvers alveldishróp Veraldir bauð að yrðu; Játi það þjóðir, þær hann skóp, Það um himna nè jörðu Hans líka hvergi spurðu.

2. Nær alheim þenna að eg spyr, Eptir guðs kynning þyrstur: Hvers Makt í árdag heimti fyr Hann fram af engu' í fyrstu'! Þú fyrsti'! hann nefnir þig enn þá, Þig, allrar veru vera! Þig guð, hvers eins eg hvern hlut sá Hátt nafn læsilegt gera, Það enginn má annar bera.

3. Loptið, ó drottinn! láð og haf, Og lífs hvað í þeim bærist, Stjarnasveit töld þèr einum af, Sem um þinn hástól fœrist, Göfgar, andanna andi! þig Æ með

samhljóðan sinni; Það hrópar allt, og hvað fyrir sig: „Höfund að sköpuninni Einn sannan guð eg inni“.

4. Tilbiðjið, krjúpið, tignið hann! Tjáið: „vor guð er æðstur! Einn er hann; honum enginn kann Að vera jafn nè næstur;“ „Guð“, segir drottinn, „eg em einn, Eg er, eg var, mun vera, Sá eg em; enginn annar neinn Alheima veldis herra Mitt kann nafn, minn prís bera“.

5. Og þú skalt verða' um eilífð einn, Einn guð, þeim eg fulltreysti; Um eilífð skal ei annar neinn, Um velferð biðja' er freisti. Helguð sè öll mín æfi þèr, Athvarf mitt lífs á vegi! Víst trúi' eg, loks að veitir mèr, Vegsemd þína' að sjá megi, Ó guð ósýnilegi!

## Nr. 5.

### Sæla guðs þekkingar.

Lagið: Kom, skapari heilagi andi.

Ó! hvað sæll em eg, andi minn Upp til míns guðs þá lyptir sèr, Glaðvær skapara göfgar sinn, Gleði englanna smakkar hèr!

2. Hver líkist honum? hver sem hann Hátignar ljóma' er skrýddur fremd! Hann alfegurstur! fylla kann Fegurð hans sál af unaðsemd!

3. Af hans þekkingu fossar fram Fagnaðar strauma björtust lind; Fullsæll því sjálfur fylla nam Fögnuði hverja skapta kind.

4. Alleina fullsæll eilífð frá Ótal veralda byggðum hann, Er allar kýs hann sælar sjá, Sælu og vegar með sèr ann.

5. Hann mælir eitt orð; hersveit strax Höfund um kringir fullsælan, Dýrð hans víðfrægja teit til taks; Talið fær þá ei nema hann.

6. Eg skyldi og, því skóp guð mig Með skynsemd, verða lukkusæll; Mín sál! í guði' að gleðjir þig, Guðs þíns er boð. Ó hvílík heill!

7. Rökkur er hèr, óbjart mitt blys. Betur allt skynjað englar fá. Frá augliti til auglitis Á síðan mun eg drottin sjá.

## Nr. 6.
### Guðs fullkomlegleikar.

Lagið: Rís upp, mín sál! og bregð nú blundi.

Drottinn er guð og enginn annar, Í honum börn hans gleðji sig! Svo vegsamligan sig hver sannar, Svo fullkominn, ó guð! sem þig! Mikill ertu, þitt mikið nafn! Hver má þèr, drottinn! finnast jafn!

2. Ógrípanleg er öll þín vera, Út grundast ei nè talast kann; Forgefins vogar við að bera Vitið dauðlegra' að höndla þann, Sem án upphafs um eilífðir Er, og mun vera, sem hann er.

3. Guð! hver kann lengd þíns lífs að mæla? Líf vort mannanna' er frá í gær; Óendanlegi! en þín sæla Eilífðir fjærstar gegnum nær; Fyr en himin og hauður var, Hátign þín var frá eilífð þar.

4. Guðs hástól ljós umhverfis streymir, Hans dýrð til fulls oss bannar sjá; Hann geimur allra himna' ei rýmir, Hátignin alla fyllir þá; Hulinn guð, en þó opinber Í undrum sinna verka' hann er.

5. Hans máttur skapt ef hefði' oss ekki,

Hvað værum vèr dauðlegir menn? Gjörvallt, hvað skóp hann, skýrt hann þekkir, Skepna gjörvallra festi' í senn. Hans hönd um spannar himin og jörð, Hans er ráð, speki, makt og dýrð.

6. Hann þekkir oss, já! vora vegu Veit hann; hann er eins nær og fjær; Hugsanir jafnvel heimulegu Hann sèr, jafnskjótt og getast þær; Hver nótt, hver dökkust dimma kann Drottins fyr' augum fela mann!

7. Hver varnar heims forvirki' að falla, Faðir! almætti nema þitt? Væng þinn breiðir þú út yfir alla; Öllu hvervetna gjörir fritt Þitt líkn uppfyllt og langlund með Ljúft og mildiríkt föðurgeð.

8. Fullsæl, góð, heilög, flekklaus vera, Framar en sólin hrein og skær! Vel þeim, þinn stundar vilja' að gera! Víst sá farsæld að umbun fær; Því ódauðleikann einn þú átt, Eilífa heill því veita mátt.

9. Þèr einum, guð! ber þökk og æra; Þèr prís og lofgjörð einum ber; Krjúp-

ið fram, lof í kvæðum fœra! Komið allar guðs hersveitir! Mikill er guð, hans mikið nafn! Má honum enginn finnast jafn.

## Nr. 7.

### Guðs vera og eiginlegleikar.

Lagið: Upp, upp statt í nafni Jesú.

Ó sèði þú! hvers hástóll hár Heima fyrir upphaf stóð eilífð frá, Og, allt þó farist, stöðugt stár, Straumum seðst yndis af minn andi þá, Er nafns þíns dýrð voldugs vegsama fer, Prís, þakkargjörð, lofsöng og bœn fram ber.

2. Hvað ypparlegs er hlutar unnt Hverjum, þig nálgast má sem barn með bœn! Þú, sem varst, ert, og vera munt! Vegsemd þíns nafns er há, vegleg og væn! Hver til þín má hefja sig, herra hár! Þitt andlit sjá, án þess að verða nár!

3. Þèr, drottinn! mynd lík engin er Alveldis sköpunar um geysi-geim; Þú ert andi; því anda' á þèr Einna tilfinningar helzt náð fá heim; Þær stama,

þig þó nefna veikt með þor. Óendanlig, algjörst vera! guð vor.

4. Óbreytanlegi! enginn þèr Um ótal eilífðir deyð ögra kann; Þèr, lífs alls lind! því engin er Eldri vera, sem fyr líf veita vann; Þitt sjálfsdáð af er líf: lífsstraumur sá, Er þrotlaust haf lífsheilla fossar frá.

5. Þú lífsins andi! æ líf nýtt Út breiðir eilífð frá til eilífðar Um kring þig; guðdóms andlit þitt Himinljóss birtan há æ um geislar; Skynsemd algjör, allt sem þekkir og sèr, Ljós hverri' og ber hver leyndardómur er.

6. Í senn þitt tillit alskyggnt sá Frá eilífð allt, hvað var, aptur og fram; Þinn máttur aldrei þreytast má; Þitt vit ei vèla par nè villa nam; Þèr talnasafn ekkert ofvaxið finnst, Hvert ei á nafn mannviti nefna vinnst.

7. Þú vilt, og hvað þinn vilji bauð, Vottast rèttvísi' og tryggð; þín vísdómsráð Um eilífð standa, æðsti guð! Á vali hins bezta byggð; nær glöggt fæ gáð

Álengdar að vísdómi vega þín, Auðmýkt við það önd þig tilbiður mín!

8. Í þrautum guðlegt trúartraust Tendrast, er fyllir geð með gleði mitt; Helgar þakklæti hræsnislaust Þèr hug og málið með, nafn mikli' að þitt. Ó andi þú anda! þín leiðsla mín Leiðtogi' oss trú til skaparans, til þín!

9. Andar vèr einnig erum; þú Oss skópst mynd þinni í og kallar oss Alla til þín; þèr þökkum nú, Að líf, vit, vilja frí, ein œðstu hnoss, Gafst oss, ó guð! gœzku þá prísum vèr! Þèr göfgan glöð, guð vor! án enda ber.

## Nr. 8.

### Guðs eilífleiki.

Lagið: Hver sem að reisir hœga byggð.

Óendanlegi'! er engin kann Afmarkan tíma girða! Þankinn týnir sèr, þína' eg vann Þá eilífð fyrir mèr virða; Eg grunda fullur furðu má, Fæ þó ei vit nè skilning á, Að ert og æ munt verða.

2. Sól enn þá engin sitt út ljós Um sína heima breiddi; Þitt enn víðfrægðu'

ei himnar hrós, Hverja þín makt til reiddi; En þú varst til frá eilífð þó, Áður fold varð, og vatna'af sjó Straumur um fjallsrót freyddi.

3. Œðst vizka heim sá eilífð frá, Þann upphaf skyldi hljóta; Tíð honum mældi' og takmörk; sá, Nær týnast skyldi' og þrjóta; Ofan frá englum ormum að Út vóg kjör hœf, og nafn á kvað, Er sèrhvað næði' að njóta.

4. Þinn heimur stár enn ár og öld, Einn þú honum við heldur; Ótt hann þó nálgast efsta kvöld, Ótt hann fyrning er seldur; Því ár hans fjölga; þú á kvaðst tíð, Er hann ná skal, þín gœzka blíð Og eilíf því vizka veldur.

5. Þú ert eilífur, aldrei deyr, Eilíft bjarg sálar minnar; Athvarf, sem kýs mín önd og þreyr Óhult, nær hel skal finna; Því náð og tryggð þín, ó guð! er Eilíf, sameilíf sjálfum þèr; Von sú bezt hel kann vinna.

6. Mitt hold dauðlegt, ei önd mín er, Eg fyrir þèr henni trúi; Þitt andlit sjá, hèt orð þitt mèr, Að hafir mèr til búið:

Stutta þó blundi hold mitt hríð, Hlýtur eilífa' uppskerutíð, Í nýtt líf af þèr snúið.

7. Umhverfis týnast mig allt má, Með því skal eg ei farast; En eilífðar fyr' stóli stá, Stól þeim jafnlengi vara; Útvöldum veitist þar af. þèr Í þinni sælu deild, og mèr, Með þeirra mèr og skara.

8. Himnar þá falla' og hauður senn Heims alls við efstu dóma, Þá þakka' eg þèr, að eg em enn Og bý í þínum ljóma; Eilífur þá í eilífum frið Eilífa náð mun gleðjast við Og beztrar sælu blóma.

9. Ódauðleik sælan minn kenn mèr, Mèr sem af náð vilt gefa, Lífs meðan stutt dvöl lènt er mèr, Lifandi' í minni hafa; Hnoss sè hann æðst og huggan, sú Hug og dug efli mèr, í trú Lastvörum fyrir þèr lifa.

## Nr. 9.

Guðs óumbreytanlegleiki, sannleiki, trúfesti.

Lagið: Á þèr, herra! hefi' eg nú von.

O guð! þú varst hinn sami, sá Sem þú

ert, áður hástól frá Til veru vildir kveðja Þá skepna fjöld, er þín alvöld Makt skyldi' og gœzka gleðja.

2. Þegar forgengin foldin er, Farsæl eilífð, þá stríddu hèr, Hnoss hefir látið hljóta, Hinn sami, og nú, samt verður þú; Sízt ár þín mega þrjóta.

3. Þín óendanleg eilífð frá Til eilífðar sízt verða má Sèr ólík sjálfri vera; Hvarf jarða' ei má nè himna á Henni umbreyting gera.

4. Sannleiks orð, ó guð! eins með þèr Óbreytanlegt mun halda sèr, Sem fat þó fyrnist heimar, Er skaptir þú; þess eilíf trú Óbrigðla mun sig geyma.

5. Þó fjöllin sökkvi' í foldar grunn, Fyllist dalir við þeirra hrun, Grund öll þó gnötra megi, Kærleiks sáttmál þitt mína við sál Mun eilíft bregðast eigi.

6. Því æðrast þá önd mín í mèr? Því mögla' eg kvíðinn, þótt ei hèr Óraskaðs yndis njóti? Og þó mèr lèð endingu með Æfi hèr burtu fljóti.

7. Hvað mögla eg, sem hefi' orð þín Og huggun þá, að afbrot mín Mig fái'

í dóm ei dregið? En varðveitt mèr arfleifð hjá þèr Eilíf ei fyrnast megi?

8. Hvað mögla' eg, fyrst þín föðurlig Faðmar enn gœzka jafnan mig Og eilíf sál annast mína? Í hönd þèr skráð mitt heiti' af náð Hefir, því munt ei týna.

9. Já, eg em guðs míns, guð er minn; Minn guð! um eilífð verð eg þinn, Af þèr mig ekkert slítur; Heimur burt flýr og fýsn hans rýr; Farsæld þíns barns ei þrýtur.

## Nr. 10.

### Guðs almætti.

Lagið: Kristi! vèr allir þökkum þèr.

Tilbiðjið guð vorn! tignið hann! Tign hans lof, þökk, prís kveðið! Skapara' alls hermi hver, sem kann, Helgan lofsöng með gleði! Hve fögur er hans makt og merk, Mikil og dýrðleg öll hans verk, Er vegleg vildi' að skeði.

2. Her sínum öllum himnar með, Hvað makt hans sœmir, fríðir! Honum til dýrðar hve stór lèð Hæðum er birti' og prýði! Augað sig mett kann aldrei

sjá, Aptur þó sèr, það fyrri sá, Er undur ný æ fram býður.

3. Þó undur ei fyr' augað eitt, Undur fyr' sálir manna! Að fegurð skorti' á enga neitt, Er efli þeim gleði sanna, Með hverri snilld er hèr til breytt! Hinu synjað, sem öðru' er veitt; Veglegt þó eitt sem annað!

4. Hvar er það laufblað, hvert það strá, Hvert það duptkorn á láði, Er lýsa' ei fyr' þèr, maður! má Makt guðs og vísdómsráði? Ó hvað vald hans er undraríkt! En hvað er þinni deyfð þá líkt, Er sjá og gæta' ei gáði?

5. Makt sú, fegurð og fjör í nyt Fyrst skóp, gaf hún þèr anda, Marga tilfinning, fjölhæf vit Forgefins þèr til handa? Í hvers hag sköp hans, utan þinn, elur og prýðir mátturinn Enn verur allra handa?

6. Þinn guð þarf engis; höndin hans, Er heim sinn fegurð skreytti, Þèr gaf tilfinning, sál og sans, Sælukjör þèr að veitti; Viltu þá, maður! ei verða sæll,

Viltu ei fagna þeirri heill, Er náð hans vildi' að neyttir?

7. Heims í fánýtu glysi' og gjá Gæfu því vilt þèr leita? Sköpun drottins renn auga á, Unun mun hún þèr veita; Neyt hennar; faðir þinn fús er þess; Fagnaða drottins njóttu hress; Iðrun þess munt sízt mœta.

8. Hann sjálfur ununar œrna þrá Í brjósti þèr rèð glœða; þær lindir, sízt er þrotið fá, þèr lèt æ gleði flœða; Gjör þú dásemda gæta hans; Góðgjarn er máttur skaparans! Sízt bregzt þá gleði' hans gœða.

9. Þèr veita gott er verka' hans mið, Og vekja', að þakkir tjáir; Æ! mætti' eg nóg hans vikna við Verk, gœzku' að smakkað fái! Ef forsalur hans svo fagur er hèr, Fögnuður hver mun geymdur mèr, Að stól hans, hann sjálfan sjái?

## Nr. 11.

### Guðs alvizka.

Lagið: Nú bið eg, guð! þú náðir mig.

Hver er sá vitri', er hermi mèr, Hversu

vor guð alvitur er? Hvar hefst hans skilning? hvert hún nær? Hver, þá um grennslast, skýrt mèr fær? Ljóss faðir býr í ljósi því, Er lítur hann enginn manna í; Ó hver fær skilið heiti hans? Hans andlit þekkt hver sona manns?

2. Þó fengi' eg talið himins her, Hafsins sand, jarðar duptkorn hver, Eins þanka fyrstu upprás frá Alla rakið sál hverri hjá; Þekking víst hefði' eg meiri' en menn, Og meiri kann ske þeirri enn, Er ljóss við brunn er englum veitt, En móts við guð þó vissi' ei neitt.

3. Móts við hann ekkert! afgrunn er Öll og sig sjálfan gegnum sèr, Hverja veröld, er hann til bjó, Hvern punkt í allri eilífð þó! Ó þú, sem þekkir alls við nafn, þess er og var og verður, safn! Furðanleg er, þeim þenkir þig, Þín stœrð, nafnlaus, óendanlig!

4. Að þèr dást, fulltraust festa' á þèr Fyrst minnar sálar skylda er; Með lotning bak þèr líta' eg má, Þó lítt fœr sè þig skilja' og sjá; Með helgri fýsn minn hugur frí Hnýsist um ljós, það býr þú

í; Þú sèr og launar þorsta þann Þekkingu með, er til eg fann.

5. Hrœsni og synd sú vizka ver, Og vèlræði', er sjálfum bý eg mèr; Hversu leynt sem mig hylja vann, Hugsa' eg æ: „guð mig finna kann". Hafsdjúp mig fela' ei honum má, Heimr- nè -dular blekktan fá; Ógn hans almættis eltir mig, Út úr heimi þó fyndi' eg stig.

6. Fylgsn hver kann hjarta síns að sjá? Sjálfum sèr hver því treysta má? Alvísi! þau þèr eru kunn; Æ! virzt minn prófa hjartans grunn! Ef sèr þú á vondum vegi mig, Vík mèr aptur þinn rètta' á stig; Lát heitin auðnast loksins mèr Laun guðrœknis af sjálfum þèr.

## Nr. 12.

### Guðs gœzka.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Flest oss lætur góður gleðja Guð, sem vill oss líði vel; Sýnist lífið sorga keðja, Sama' er þó hans föðurþel. Ef svo miklar ástir tèr Oss, meðan vèr þreyjum hèr,

Hvað þá, nær hans höndin blíða Hjúkrar oss um eilífð síðar?

2. Ef hèr mæðu eptir skúrir Opt hann ljær oss gleðiskin, Ef sá, lengi einn sem stúrir, Opt hèr hitti góðan vin: Hvað mun þá, nær horfið er Hvað eina, sem mæddi hèr? Einn hvar fagnar öðrum glaður Andi sæll og forkláraður?

3. Ef daglega oss, sem brjótum, Opt guð þannig gleður hèr, Hvaða sælu síðar njótum, Synd þá burtu fáguð er! Hugsi þangað hugurinn! Hèr er reynsluskólinn minn. Í grát eg vil og gleði læra, Að guð oss jafnan hafi kæra.

## Nr. 13.

### Guð er kærleikurinn.

Lagið: Á einn guð vil eg trúa.

Þèr, drottinn! lof vèr ljóðum; Lofsöng vorn, ó guð, þigg í náð! Þèr hjartans þakkir bjóðum, Þitt oss bænheyri líknarráð! Hvar er guð, hver svo gæða, Svo hjúkra' og blessa má? Sá, lof hvers ljóð vor glæða, Líkn hvers vèr fáum sjá; Guð er ást: aldir alda, Áður en tíminn

var, Hann var ást; hans mun haldast Hæst ást til eilífðar.

2. Þú lífi inn rèðst anda, Að til þín lyptir, vor í brjóst; Heims gæðum, oss til handa Hvervetna sáðum, til þín dróst; Burt líf úr brjósti' oss leiðir, Býr himins gæfu hnoss; Líf oss af gœzku greiðir, Ó guð! og sendir oss Hel, að oss blessun bjóði; Breytni þín ást er skær! Skapar allt gott, algóði! Oss grand hvert vilt sè fjær.

3. Þá synda hegning hrjáðir Huggunarlausir lágum vær, Hels myrkra þoku þjáðir, Þíns sannleiks stig mjög villtumst fjær, Upp rann, drottinn! óbeðin Oss þín líknandi náð, Og lífs til aptur rèði Elskurík heimta dáð; Syndum og synda nætur Sorta' oss þá vaktir frá, Og líf nýtt boðast lætur, Ljós guðs að mættum sjá.

4. Honum skal lofgjörð ljóða! Á láð hans sonur niður stè, Varð maður, döprum dauða Dó syndaranna; Kristi' í tè Dikt nýjan dýrstum látið, Þeim dauðann sigra vann! Kærleiks guð prísið kátir! Kvittun hans son oss fann. Vors

guðs til himins hljómi Hreimur frá láði hèr, Að stól' hans efsta' á dómi Unz krjúpum frelstir vèr.

## Nr. 14.

### Sama innihalds.

Lagið: Jesús Kristur er vor frelsari.

Jesú Krists faðir! fólk sem blessa Fús ert, og trúr að líkna' og hressa, Allt, sem mig skortir, er hjá þèr, Önd mín því til þín flýtir sèr.

2. Vansa hvers manns og veiki alla Veiztu; fyr en eg til þín kalla, Allt sèr þú, faðir! er að mèr gekk, Af þèr hugsvölun geð mitt fèkk.

3. Tal við þig átt með trúnað hreinum, Tal þitt kann hjartans lètta meinum; Ef lít eg, faðir! að eins til þín, Öndin betrast og friðast mín.

4. Til þín, guð! lífs míns líf, eg leita, Ljúfur allt vilt og kannt mèr veita, Aleðli lífgar allt þín dáð, Umfaðmar allt þín föðurnáð.

5. Þú verndar, blessar, vægir, gefur, Vald allt engla sem manna hefur, Hver.

sem þú jafnauðugur, á Endalaus gœði', og veita má?

6. Þú faðir ert allra fagra dyggða, Faðir kærleiks og hollra tryggða; Móðurásta' er það megn frá þèr, Sem mœðra' í brjósti hreifir sèr.

7. Gœzku' og ljúflyndis góða parta Gafstu, faðir! í hvers manns hjarta; Við föðurtillit þitt fossar lind Fagnaðar hverri skaptri kind.

8. Mitt hjarta líka, faðir! finnur, Að fögnuð, sá þèr kynnist, vinnur; Vitur, stór, þig hver þekkja vann; Þig sæll hver föður nefna kann.

9. Himna hæðir og hvylftir dala Hrós þinnar föðurmildi tala! Lopt, funi, storð og lögur bert Lýsir allt, að þú faðir sèrt.

10. Guð er faðir, líf, elska'; hans yndi, Að blessa'; að gefa fúst hans lyndi; Unaðsemd vera' hans œðsta má, Oss að gleðja og blessun tjá.

---

# II.

## Sköpun allra hluta, viðhald þeirra og forsjón guðs.

---

### Nr. 15.

Skaparans prís af verkum náttúrunnar (S. Davíðs 148).

Lagið: Nú kom heiðinna hjálparráð.

Herskara guði heiður sè! Himnar lof drottni láti' í tè! Heiður sè guði' á hæðum vís! Hver skyldi' ei fús hans mikla prís?

2. Yður, guðs englar! yður ber, Hins eilífa lof að rómið þèr; Allir hans skarar! hrósið hátt Hinum óendanlega þrátt.

3. Göfgið þann, allir heimar hans! Sem hóf yður í veralda krans; Þau, yður kringja, uppheims höf Hans almættis víðfrægi lof!

4. Máttur hans yður mynda nam; Hans mælti boð, þèr komuð fram; Ó! heiðrið guð, sem aldrei kann Þess iðrast neins, er skapti hann!

5. Af drottni sköpuð skepnan öll Skap-

arans gœzku fagni snjöll! Því áformi guð aldrei brá, Óbrigðult ráð hans standast má.

6. Hvað, á landi sig hrœra kann, Herskara göfgi drottnarann! Hans, lífs hvað fer um lagarhöll, Lofi hátign, og djúpin öll!

7. Vegsama' hann, funi! fjallið hátt Víðfrægi, œðsti guð! þinn mátt! Frá því út dreifður dampi' og snjór, Drottinn! votti, hvað þú ert stór!

8. Storma guð prísi stríður foss, Er stoðar bæði og skelfir oss! Bjarga og hamra bergmál prís Boði guðs, sem er stór og vís!

9. Guð eikur skóga göfgi' og öll Guðs aldintrè af blessun full! Mergð dýra, sem um merkur fer, Mikli drottinn! lof syngi þèr!

10. Guð fugla radda fagurt kvak Víðfrægi! storma' og bylgna skvak, Allt, hvað jörð gistir, hæð og haf, Herrans upp fyllist lofgjörð af!

11. Þèr lúti herra' og þegna val! Þèr, sá hlýða og stjórna skal! Aumra

málefnis aðstoð fróm, Eins og hinn, sem skal fella dóm!

12. Meyja og sveina mætur her, Mikli guð! lofgjörð vandi þèr! Fulltíða' og aldri orpnir menn Allir dýrð þína rómi' í senn!

13. Herskaranna guð! hár og vís Hann er, svo allt hans breiði' út prís! Af honum fullt er og hans dýrð Allt, hvað til er á himni' og jörð.

## Nr. 16.

### Guð er skaparinn.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Guðrækin þökk skal goldin þèr, Guð, náttúrunnar faðir! Lof þitt á væru láði hèr Lofsöngvar mikli glaðir!

2. Þèr eg lífs yndi þakka hvert, Þèr þakka' eg hverja mæði, Hitt þó enn meir, að hefir mitt gert Hjarta viðkvæmt við bæði.

3. Allt, hvað er, þínum út gekk frá Almáttkum skapara' höndum; Sem viðhald alls ert öllu hjá, Allt blessar, forðar gröndum.

4. Í döggva' eg fæ þig dropum sèð, Og dunum heyri' í storma; Um þig mèr vottar blómstra beð, Bygging hvala sem orma.

5. Þig buldrar lækjar bunan mèr, Í bjarga' er fellur skorum; Eins hafsins lýsir alda hver Alheims skapara' og vorum.

6. Vorblærinn svala þægum þinn, Þá heitt í loptið andar, Og blómstra sætur ilmur inn Í kul hans hýrt sèr blandar.

7. Laufgaðra skógar lunda þyt Lof þitt eg heyri ræða. Öll mín skilningarskoða -vit Skaparann allra gæða.

## Nr. 17.

### Sköpunarverkið.

Lagið: Á einn guð vil eg trúa.

Tilbiðjið, göfgið, greiðið Guði, skapara, lof og prís! Út veru æðstrar breiðið Æru, sem sterk er, mikil, vís! Tilbiðjið, kátt lof kveðið, Kátt ljóðið: „drottinn skóp!“ Allt skapt með æðstri gleði það endurtaki hróp! Þann heim, er þú við heldur, Þú skópst. Vèr erum af þèr.

Aleðli glatt því geldur, Guð! lofgjörð; einnig vèr.

2. Að sælu' hans nægtum yrði Oss býtt, að faðir vor sè hann, Sleit alda' hans kraptur kyrrðir, Kosnum heimum tilveru fann. Hann bauð alvaldur: „verði"! Þá varð himin og jörð. Hátt lofsöng engla hirðin, Hverja sèr kaus frumburð, Hans prís; hann aleinn eigi Er nú; en heim hans ljós Þó brestur. „Birti"! segir Boð hans; þá verður ljós.

3. Festing á himna hæðum Hann hvölfda lætur vötnum af; Undir hans festing flæðum Eins fossa vötn, — hangandi haf! Vatn foldar hæð enn hylur; Hann þrumar: burt það snýr. Að boði' hans veður bylur, Bif, jörð sem huldi, flýr. Strauma vatns stöðvar þannin; Storð rís, að guðs sè eign; Loks erfð guðs sonar, að sanni Sýndrar hans elsku megn.

4. Hann bauð, við boð fullt máttar Breiddust út merkur, dalir, fjöll, Grundir, hæðir alls háttar, Hlaðin blóma og

frjóleik öll. Stór ljós í fjarlægð stórri, Stjórn dagsins sunna fèkk; [1]Óbirtu' er ætluð rórri [2]Ártala-stjórnin þekk. Hann býður: hafsins fyllir Her þúsundfaldur geim; Lof guðs loptbúa snilli Leikur með sætum hreim.

5. Frèttið, menn! fènað, merkur, Frèttið, hver varga leysti hapt? Vitið, hver valdi', að sterku, Varganna ótta, ljóni', er skapt, Að eiga' um auðnir ríki? Ó guð! mikill að dáð! Ó guð! hver er þinn líki? Alvoldugt þitt er ráð. Naut, sauður, fákurinn frái, Frá, drottinn! allt er þèr! „Enginn guð annar", tjáir Allt, „nema þú, til ér"!

6. Lútið enn dýpra, ljóðið Lofgjörð enn hærri guði' og prís! Göfgið, prís beztan bjóðið! Bezt vönduð þökk sè drottni vís! „Vèr," kvað guð, „viljum mann gjöra Vorri' að mynd, oss líkan". Adam varð, og sig vera Undrandi syngja vann: „Guð drottin, guð alls, sannan Guð, veit eg skapara minn; Hann guð, alls engan annan Á himni' og jörð eg finn".

[1]) óbirta, nótt. [2]) ártali, tungl.

7. Eilíft lof skulum inna Eðstum skapara, styrk og prís! Þökk æðstri veru vinna, Alvoldug sem er góð og vís. Alls smiður oss skóp líka, Oss ódauðlega' hann skóp; Mátt og náð mikli slíka Manns þökk og gleðihróp! Þann heim, er þú við heldur, Þú skópst; vèr erum af þèr! Aleðli glatt þèr geldur, Guð! Hallelúja! og vèr.

## Nr. 18.

### Skaparans lofgjörð.

Lagið: Guð miskuni nú öllum oss.

Ó skapari! nær almátt þinn Og þinna speki vega, Og elsku', er vaka yfir eg finn Öllu svo mildilega, Íhuga, tilbið auðmýkt með; Anda minn furða hrærir; Hve göfgað fái', eg get ei sèð, Guð minn! þig, sem mèr bæri, Herra, faðir hjartkæri!

2. Mitt auga sèr í allri átt Undur dásemda þinna, Kraptarins guð! þèr göfgun hátt Gjörir himininn inna Voldugri prýddur vegsemd með; Hver vann sól á hann hefja? Hátign hver skrýða

hana rèð? Hver stjarnaskara krefja Fram nam og fegurð vefja?

3. Hver mældi vindum markað stryk? Mjúkt hver bauð skýjum drjúpa? Hver fold bauð yrði fríð og kvik, Nær fèkk þann vökva' að súpa? Hver storðar opnast barmi bauð, Að blessun að oss hlœði? Ó þú dýrðar og alvalds guð! Eins vítt nú, guð! þín gœði, Sem ský, sèr sveifla' um svæði.

4. Guð! þèr sè vegsemd skipar skýrð Skær sólarljómi' og stormur; Fœrið skapara, fœrið dýrð! Fram minnsti' eins hvetur ormur; Sandurinn, skorða settur mar, Samt skart, er eikur stœrir, Aldin smá róma sama svar Sitt: „guð oss skóp og nœrir“. Dýrð vorum föður fœrið!

5. Manneskjan hold, er hönd til býr Allhög þín dásamlega, Manneskjan andi', er mannvit knýr, Og marga leiðir vega, Þig skapara að skynja sinn, Sköpunar hrós og blómi, Manneskjan sjálfri sèr um þinn Sönn er gœzku' og vísdóminn Röksemd að dags hvers rómi.

6. Um eilífð tigna' hann, önd mín kær!

Æ göfgun nafns hans tamin! Víðfrægist guð, vor faðir skær! Flytji öll veröld: amen! Og drottinn veröld óttist öll Og fúsa hlýðni tjái, Og honum treysti' og hrósi snjöll Hans dýrð, hans boða' að gái, Heill sína' og hefð hver sjái!

## Nr. 19.

### Guðs dýrð af náttúrunni.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Eilífs guðs heiðri himnar lýsa, Hljómur þeirra' hans víðfrægir nafn; Hann hnöttur jarðar höfugur prísar, Hafsins lagar hann göfgar safn; Ljá, maður! eyra lofstír þeim, Er lætur hátt um allan heim.

2. Hver heldur uppi himins ljóma Hnöttum ótal? hver leiðir fram Af sínu tjaldi sú með blóma Sól kom, ljómaði, brosa nam Til vor úr fjarska', og skamtað skeið Skundar, sem hetja', um mælda leið.

3. Heyr og sjá furðufjöld stórmerkja, Er fram náttúran setur þèr. Boðar ei almátt afarsterkan, Elsku og speki sèr-

hvað þèr? Boðar ei eitt og allt, hvað sèr, Alheims drottin, þinn drottin þèr?

4. Æ! kanntu' af verum ótal sveitir, Ögn jafnvel minnstu, daufur sjá Án tilfinningar? ei svo leitir, Allt þetta hverjum komið er frá? „Gef þú mèr dýrð", svo hrópar hátt Herrann, sem þú fulltreysta mátt.

5. „Af mínum verkum mig skalt þekkja, Minn er himin og jörð, er sèr; Mitt er almætti', er ei má hnekkja, Æ mun eg vera sá eg er; Þinn guð og faðir eilífð í; Frá upphafi jafnt sem þrotum frí.

6. Grunnlaus eg speki' og gæzka' er æðsta, Guð fagrar orðu, skapari þinn; Lífs þíns og sálar hjálpráð hæsta; Hugleið það, stunda vilja minn, Mig elska' af hjartans allri dáð, Og þigg hlutskipti' í minni náð".

## Nr. 20.

Guð við heldur og stjórnar heiminum.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Þökk og lofgjörð þèr eg færi, Þèr, guð!

heimi' er stjórnar þín; Þeim föður prís mèr bjóða bæri, bezt sem leiðir fótspor mín; Þeim, hvers auga' ei þreytast kann Þeirra' að gæta', er elska hann; Föður, er líf, ró, fögnuð gefur, Föður, er allt gott veitt mèr hefur.

2. Allt þú elskar; alls er fjörið Ástgjöf þín, þèr verðug bezt, Annast allt, en gefa gjörir, Guðhrædd sál hvað þráir mest; Þín til mannsins maðki frá Mildust gætir alls forsjá; Mildan föður má allt finna, Því minnsta' ei náðar synjar þinnar.

3. Lífs míns tæpa telur daga Og trúföst annast forsjón þín; Veizt með rèttri vigt að laga Og vega gjörvöll lífskjör mín; Út eys blessun á minn stig, Örvri hendi seður mig; Fót minn óhult fram þú greiðir, Föðurlands til míns að leiðir.

4. Önd mín kann þig engu leyna, Ætíð þú ert henni nær; Hvað eg út vel, hugsa, meina, Heyrir og sèr þú nær og fjær; Athugar, hvort eg elska þig, Er ódauðleika sæmir mig. Og hvort dyggð

og elska góða, Er mèr lög þín heilög bjóða.

5. Eg hvað sæll, ef ást af þinni Ástunda mitt fullt sè geð! Allri' eg þá á æfi minni Umsjá þína við mig gleð. Dag hvern mèr þá birtir bert, Hvað blíður þú og góður ert; Óforþènta', er aldrei dvínar, Eg þá gœzku prísa þína.

## Nr. 21.

Komið! allt er til reiðu (guðs forsjón).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Allt er til reiðu, komið! kallar Kærleikans guð til sona manns; Hent hverjum lífskjör, heillir allar, Hjálparmeðul til bata hans. En þrautir, skyldur, ómak, kapp, Svo ætlað sèr hlotið fái happ.

2. Allt var til reiðu, eilíf mildi, Áður en heimsins ljós eg sá, Sem gleðja mig og græta skyldi, Sem gæta bar og við að sjá, Hjúkrun, umönnun öll og lið, Mitt unga líf sem þurfti við.

3. Allt var til reiðu, er árin bœttust, Umhirðing, tilsögn holl og ráð, Að vèl og forðast fengi hættust. Fyrir heims solli

rètt mín gáð; Mitt auðmjúkt, námfúst, auðsveipt geð Átti vera til reiðu með.

4. Allt var til reiðu', er inn í standið Aldurs fulltíða ganga bar; Með sveita brauð, með sæmdum vandi, Með sætu beiskt í lífs bikar; En skynsamt, hlýðið, þolgott þel Og þakklátt, allt er noti vel.

5. En vilt mèr láta allt til reiðu, Þó ellin hruma færist nær; Liðsinni, hjálp, og huggun greiða, Heims þó gæða not þokist fjær, Eins sem faðir á ungdóms stig, Eins gamlan ber og frelsar mig.

6. Helzt mun til reiðu', er heim skal kveðja, Hjálp mèr og aðstoð, faðir! þín; Hjartað þíns anda huggun gleðja, Þeim hrellir, svala, útför mín; Eins og mèr, þegar mest á lá, Mun þeim til reiðu hjálp þín þá.

7. Allt mèr til reiðu eilífð geymir, Endurnæringu, ljós og dáð, Ef trúr mèr boðna hèr í heimi Hjálp nýtti, tækifæri og náð. Þá skal eg, guð minn! þakka þèr Það allt, til reiðu lèztu mèr.

---

# III.

# Sköpun mannsins og ákvörðun. Syndin.

---

## Nr. 22.

### Sköpun mannsins.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Þú skópst mig, guð minn! þinn að sè, Þína mig eign að tjái, Æfi til lofs þèr alla' í tè Og þjónustu svo ljái.

2. Anda skynsaman inn gafst mèr, Undrandi' að megi' eg læra, Hrós það, er skepna hver fram ber, Með henni þèr að fœra.

3. Allt, hvað um kring mig augum lít, Allt þína dýrð mèr boðar; Umskipti árs, hvert yndi', er hlýt, Allt lokkar hana' að skoða.

4. Hvort tilfinningar ætti' eg án Um þinn prís, drottinn! þegja, Mín þar œðst skylda' og mest er lán, Að mikla' hann og fram segja?

5. Veit þessa skyldu' eg trúr í tè, Svo trúr láti sem hœfir; Mitt hjarta,

munnur, hegðan sè Heiðrandi þig um æfi.

6. Hver þig heiðrar, þín heldur boð, Hann það ei kvelur nè þjáir; Krapt og lyst mèr því gef, minn guð! Grandvar þèr hlýðni' að tjái.

7. Hvað oss þú býður, allt gott er, Eitt kýs þú vort hjálpræði; Hver sæll er því, sá hlýðir þèr, Huggun ert þess og gæði.

8. Þeim, guðhræðslu fram gengur braut, Af guði', er hèlt sèr viður, Veitist eins lífs í þyngstu þraut Þrek gnógt og andar friður.

9. Loksins, þá reynslu' er lokið tíð, Lendir í himna vistum; Að hnoss það sæki eg' ár og síð, Unn mèr, ó guð! fyrir Kristum.

## Nr. 23.

### Ákvörðun manneskjunnar.

.. Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Önd mín! þú drottins andardráttur! Upp! upp vakna, svo lofir guð; Guð, hvers verk hann í öllum áttum Öll prísa, þú

vegsama glöð; þann mig skóp, hans að mynd sè ný, Megi hann þekkja, og fagna' af því.

2. Fagur er himin sólum settur, Er sèr til hástóls drottinn kaus; En himin þessi sólum settur Samt er án lífs og þankalaus; En mèr, leirkeri' í hendi hans, Hann gaf meðvitund, greind og sans.

3. Inndæl, vegleg, svo undrum sætir, Er veröld þessi', af drottni gjör; Hver telur skraut og hennar mæti? Hvað eg sèð fæ, býr yndiskjör, Þó, hve full undra' er, hve frábær, Hve fögur, sjálf ei skynjað fær.

4. Öndum að eins, einungis sálum, Í anda tign er drottinn hóf, Heimar svo fagrir helgum málum Herma síns œðsta skapara lof; Önd mín gleðst! þig með anda hóp Almáttugt drottins „verði" skóp.

5. Minn guð! af því að eg varð andi, Eg hugsað get, og því mín fær Önd hugrenningar óteljandi Af tilfinning, er sansinn ljær; Margbrotinn þanka' og

mikill her Magnast daglega' og fjölgar sèr.

6. Eg fæ þeim safnað, saman bundið, Og sundrað, bezt sem geðjast mèr; Til heims og sjálfs míns fæ eg fundið, Frá greindur langt sem heimurinn er. Hver gaf til ótal iðna krapt, Allt nema guð sá hefir skapt?

7. Önd mína hversu ákaft þyrstir Eptir sannleika, gæfu' og ró! Það mig vèlar, þó velja' opt lysti, Það vömm, þá notið hafði, bjó, Þá veld eg, faðir! því meini mèr; Mildi einskær, hvað skópstu, er.

8. Ó drottinn! hversu dásamlega Dáð vilja mínum fèkkstu veitt! Æ! mætti' eg jafnan yfirvega, Hvað elskar mig þín gœzka heitt! Æ! að vit bæði' og vilji minn Væri og allur kraptur þinn!

9. Þig, guð! þekkja mitt œðst sè yndi, Allrar lind fullkomnunar þig! Að strax hèr sælu stœrsta fyndi Stunda gott barn þitt sýna mig! Þig herra' og föður ef heita má, Hvað þarf eg meir? hvað brestur þá?

## Nr. 24.
### Allt gjörði hann vel.

Lagið: Á þig alleina, Jesú Krist.

Allt gjörði minn guð við mig vel, Vottar það liðin æfi! Hvað ótal um hans ástarþel Augljós hún merki gæfi, Ef nennti' eg hygginn glöggt þess gá; Hans gœzka lèt mig fjöri ná, Hjúkrun, skjól, heilsu fœði fá, Fyrir mèr sá, Verndaði mörgu fári frá.

2. Allt gjörir minn guð við mig vel, Vottar það nálæg stundin; Á hverri spor hans ástar tel; Enn er hans sama lundin; Já, allt eins, þó mig hirti hann, Í hirting mèr, sem faðir, ann; Með böli vinna bót mèr kann, Burt lètta vann, Þá mèr og heimi hentast fann.

3. Allt mun guð gjöra við mig vel, Vott þess mun eilífð bera; Ást hans mèr gjörði' að happi hel, Himnesk svo yrði' eg vera; Hvar synd og böli frelstur frá Fagna vísdóms og dyggðar má Eilífri framför honum hjá, Hans þekkja' og sjá Algœzku' og speki undur há.

4. Þú gjörðir allt og gjörir vel, Guð!

við mig hèr og síðar; Því skal míns hjarta þakklátt þel Þig elska, fúst þèr hlýða; Fús vil eg bræðra gleðja geð Gáfum mèr lèntum, faðir! með; Gott efla, hvar sem getur skeð, Guð krapt fær tèð Og framkvæmd veikum vilja lèð.

Nr. 25.

Syndahagur manneskjunnar.

Lagið: Dagur í austri öllum.

Enn eg hèr standa aumur Und oki synda má! Mót þeim berst máttarnaumur, En megna' ei sigur fá; Þú sèr, guð, þeim eg það klaga, Það hversu' er óljúft mèr! Hryggileg harmasaga: Eg hata ok, samt þó ber.

2. Meir en öll heimsins mæða Mig hrellir, drottinn! það, Að jafnan hlýt eg hræðast, Af holdi' og blóði að Tældur ótrúr þèr finnist, Tryggð gleymi', er vann eg þèr, Að stöðugum vera' ei vinnist, Nè vaxa' í góðu, mèr.

3. Þó við það hvíli' eg huga, Að hjörtun þekkir þú; Hvað dupt, það líf gafst, dugar, Drottinn! bezt einn veiztú; Áfellis eigi dómi, Ó guð! mætum af þèr, Þó

englahrein á oss ljómi Ei dyggð á jörðu hèr.

4. Vèr ófullkomnir fetum Fram þessa lífs á stig; Vorri dyggð verðlaun metur Þó vægð þín ástúðlig; Ef hjartað illsku grómi Er ljótu hreinsað frá, Manns breyzkleik mildur í dómi Munt ei hart straffa þá.

5. Við sjálfan mig send mèr stríða Og sigra', ó drottinn! lið; Dag hvern lífs bætur bíða, Bresti' æ meir skiljast við; Afbrot þá elsku þinni Ei munu skilja frá Önd mína' í eilífðinni, Ei síðan blekkt mig fá.

## Nr. 26.

### Syndaspilling manneskjunnar.

Lagið: Nú bið eg, guð! þú náðir mig.

Hver er eg, sál mín! hver eg er, Minn hjartans grunn þá prófa fer? Ó! hversu marga andstyggð má Eg í míns hjarta fylgsnum sjá? Það er spillt, og þess afgrunn sèr Af því leynir þrátt fyrir mèr, Og vandaða, sem vera á, Vill ei rannsókn sèr þola hjá.

2. Fávizku' að þekkja, finnum vèr, Fyrsta til vizku sporið er; Þetta spor mèr að stíga stillt Stórum opt tálmar hjartað villt; Sjálfselsku fullt og metnað með, Minnst það straffsvert sig þekkja rèð; Iðrun hjá sneiða' og angri vill, En eigi brotin forðast ill.

3. Satt er það, eg finn í mèr þrátt Enn þá samvizku', er talar hátt; Vitið, sem eg í brjósti ber, Boðar enn skylduþekking mèr; Lukt til fulls augað aldrei fæ Við ágæti dyggðar sí og æ; Opt geisla fyrir blíðum brá Í brjósti mèr hennar ljóma frá.

4. En hvað sú birtan of dauf er, Sem inndæli dyggðar sýnir mèr! Hve sjaldan henni frá skilning vinnst Að skína' og þrengja í hjartað innst! Í hjartanu fann ekkert rúm Of birtulítið þetta húm, Það sitt lögmál fyr' sig hefir þrátt, Sem það hlýðir helzt of þrálátt.

5. Dómarinn innra í mèr þó, Opt hjartans raskar værri ró; Hann sakir á mig harðar ber; Hræddur eg staðar nema fer; Það illa, sem eg að hefst, má Eg ekki

lengur sœma þá; Full líka á því finn eg skil, Að frem eg ei það góða', er vil.

6. Hrœsni, sem óbeit hefi' eg á Og hata náunganum hjá, Hennar fæ eg ei varast vèl, Vinning mèr það og sóma tel, Ef aðrir mig allt annan sjá, En sjálfur raunar finn mèr hjá; Öðrum því sýnast að mig ber Annar, en reynist sjálfum mèr.

7. Eg veit heims gœða eign sízt má Önd minni sanna gæfu ljá; Þó beiði' eg þeirra' og brýzt um fast, Að byrði hègómans fái' öðlazt; Eg veit, hvað gott og göfugt er, Greind með og viti' að haga sèr, Títt læt þó sansa tómri sætt Tilfinning meir, en vitsins gætt.

8. Við falskt eg löngum gabbast glys, Greitt skunda', að þess ei fari' á mis; Jafnótt girnd frek og villan vann Veðhlaupsmark reisa', er að eg rann; Nálæg gœði að nýta mèr Næsta tómlátur löngum er; því, sem mín leitar, flý eg frá, Því, flýr mig, stunda' eg ákaft ná.

9. Oflátur títt við auðnu plag, Ístöðulaus við þrauta hag; Rósemi leita ró-

laust æ, Rósemi fundið þó ei fæ; Rèttur skyldu margrar af mèr Með rètti náunganum ber; En eg vanhelga opt þann rètt, Öðruvís breyti', en mèr er sett.

10. Sinnar mèr skyldu' ef synja vann, Sízt tef eg lengi' að dœma hann; Og allt, hvað við mig af hann braut, Órèttur þegar nefnast hlaut; Ást til guðs fýst ei fær mig á, Falslaust náunga góðvild tjá; En af sjálfselsku' og eigin hag, Opt lágum, knýst mitt hjartalag.

11. Hèðan fram spretta hrœsni' og flærð, Hjá hverri, ef var í brjósti nœrð, Hatur, dramb, öfund, forsvar fann Og frek harðúð við náungann. Mín kallan, guð að göfga, er; Gjör ef þá köllun skoða fer, Hversu mikinn á minni þá Má eg skyldu brest finna' og sjá.

12. Í náttúrunni' eg ótal finn Undur, sem vildi skaparinn Um hann frœðarar yrðu' oss hèr; Opin liggja þau fyrir mèr; En eg þeim eyra ekki ljæ; Af þeirra sjón hvað ráðið fæ Um makt guðs, speki' og gœzku geð, Gríp eg skilningnum einum með.

13. Hjartað þar kemst við ekkert af, Ekkert samvizkan, dauf er svaf; Mèr eins ókunnan eptir eg finn Einn guð, drottin og föður minn. Hann gefur svo mikla gæfu mèr; Gœzku hans þeirri hvort eg ver Til heilla mèr, og alúð á Æ legg, að henni mætti' eg ná?

14. Nei! en misbrúkun margri með Mitt tíðum aptur lukti' eg geð Því meir fyr' ást og þökk við hann. Þrátt mèr skilningur segja vann, Að œðsta góða, œðst lífs traust Alföðurs náð sè vafalaust, Og samvizku hlaði' eg sektum á, Ef sœki meir manna', en hans ást ná.

15. Og þessa andar auðnu þó, Œðsta sem heill og tign mèr bjó, Ó guð! burt gefa á mèr varð Opt fyrir barnalegan arð, Gum fyrir heimsins gjör-fánýtt, Girnd fyrir, sem mig kvaldi títt, Fyrir hègóma fánýtt glys, Fyrir alls ekkert, minna' en fis.

16. Guð drottinn heimsins œðstur er, Æ honum treysta skylt er mèr; En hve nær skyldu hyllti' eg þá, Hjálp hans öruggt svo treysti á? Ýmist mitt skalf af

ótta brjóst, Ýmist það mótgangs skyldi þjóst' Fulltraust hrinda, og fannst mèr hjá, Fulltraust var eitt mèr sjálfum á.

17. Þessi er hjarta mannlegs mynd; Hver mun þess spjöllum valda' og synd? Það kom, ó guð! frá þinni hönd Þessi sízt vóleg flækt við grönd. Af eigin völdum verðleik sinn Vanvirtan hefir maðurinn; Hans vit, eins og hans hjarta hèr, Hvorttveggja fallið reynum vèr.

18. En svo sem spilling er vor ljót, Of veikt megn til að vinna' oss bót, Þá hindrar guð þó hættlegt böl, Hjálpar vill meðöl oss sè föl, Oss lætur boðast orð sitt blítt, Er oss fær kröptum nýjum býtt; Birtu skynsemi bezta ljær, Banvæn saurindi' af hjarta þvær.

19. Og þú vilt krapti þessum mót Þig, maður! setja ill með hót; Hann sig dag hvern fram býður bezt Blítt þèr, en þú verst honum mest; Œðstu lukku óverðan vill Virða þig sjálfan þverúð ill. Þekk guðs náð; komin þenk að er Þín heill enn undir sjálfum þèr.

---

# IV.
# Endurlausnin.

---

## Nr. 27.
### Kristí holdtekja.

Lagið: Mildi Jesú! som manndóm tókst.

Þakklát með lotning lypti sèr Lystugt vor sál í hæðir! Kærleikans guð! þig göfgum vèr; Guðs son er vort lofkvæði! Þökk sè föður, sem þig oss gaf! Þèr sè prís, er komst himnum af, Að vort yrðir hjálpræði.

2. Hvað heit guðs föður-ástin er! Að mannkyn tapað græði; Hans son eingetinn hold vort ber; Hans líf vor vegna' út blæðir; Þèr kristnir! sem hans eruð eign, Upphefjið, syngið nafn hans tign; Dýrð guðs hefjist í hæðir!

3. Lastvör hegðan hann lofa kann Lofsöngum yðar betur; Þann heiður kýs hann; þetta hann Þakklæti kærast metur; Hver, eins og Jesús, ástsemd með Annast nauðstadda bræður rèð, Verða þökk goldið getur.

4. Er sá kristinn, sem ástgjöf þá Ei elska' og meta hirðir? Þigg hans hjálpræði, hlýðni tjá Honum, svo líkur yrðir; Guð þekkir sína; hver sem hèr Honum líkt geðfar temur sèr, Guðs barn er, gjöf hans virðir.

5. Athvarf og huggun hans er nafn, Þeim hlýðni stunda' og tryggðir; Hans endurleystra lofi' hann safn! Líkn hans af nemur hryggðir. Um eilífð dýrð sè, drottinn! þèr! Drottinn! víðfrægjum kristnir vèr Þinnar guðdóms gœzku dyggðir.

## Nr. 28.

### Sama innihalds.

Lagið: Nú kom heiðinna hjálparráð.

Guð efndi heit sitt, göfgið hann! Guðsson eingetinn heimi' upp rann, Ástvin blessaður Adams kyns, Ímynd og ljómi föðursins.

2. Maður hann varð, auðvirti sig, Veröld syndara! fyrir þig; Svo þig frelsti frá synda neyð, Son guðs varð hlýðinn allt í deyð.

3. Ráð hins eilífa rœttist hèr; Hvað

rík af mætti náð hans er! Tigni hver manna tunga' og önd, Tilbiðji, undrist, prísi' öll lönd!

4. Gegnum miðnættið blinda brýzt Bjart ljós og heimi' í lífgjöf snýst; Jörð dimmri', er þoldi blindleiks bann, Birting þá fyrst, svo dagur rann.

5. Guðs ljóss frá *Zíon* skærast skin Skín og upp birtir allt mannkyn; Frá sólarrisi seturs til Söngva hjálpræðis hljóma spil.

6. Stallar skurðgoða steypast nú; Stöðuga guði' og Jesú trú Ættir heims sverja yzt við höf, Í ótal tungum mikla' hans lof.

7. Frá himni kemur herrann senn, Hús sitt upp fylla sjálfur enn Með dýrð síns hróss og heiðurs fer; Hann nálgast. Búnir sèuð þèr.

## Nr. 29.

### Endurlausn mannanna fyrir Jesúm.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Svo elskaði guð sekan heim, Að sinn, hjálpræði' að færa, Son frjálsri' af mildi

sendi þeim! Sjá, hversu' hann hafði' oss kæra!

2. Allt, hvað líknarfullt eilífð frá Á-lyktað ráð til heilla Oss hafði, speki hans rèð há Á hentum tíma fylla.

3. Mitt hjálpráð! eg gleð mig í þèr; Mitt hold rèðst á þig taka; Hvað brestur mig? guð með er mèr, Mig hver þá kann ásaka?

4. Þèr, son hins hæsta', er heimi náð Og hjálpráð afrekaðir, Eins mèr friðgjafi' ert orðinn, ráð, Œðst hetja, kraptur, faðir!

5. Þú ávannst, drottinn! allt það mèr, er mín sálarheill krefur; Ljós mèr, friðþæging, líf af sèr Lausn mín og huggun gefur.

6. Auðlegð rík skortur er mèr þinn, Angur mitt kvöl þín græðir; Dýrðar- við þjónsmynd þína' eg finn Þrotlaus, minn Jesú! -gœði.

7. Lof guði', hans syni lofgjörð sè! Er líkn oss fœrði slíka! Heiður lát, engla hirð! í tè! Hann göfga, sál mín! líka.

## Nr. 30.

### Huggun af vorri friðþægingu.

Lagið: Hver sem að reisir hæga bygð.

Guðs sonur, hann mín helgan er; Hvað vill sál skelfda græta? Hörðu þó lögmál hóti mèr, Hann leið, fyr' mig að bæta. Hèr er guðs sonur; hræða kann Hróp fordæmingar aldrei þann, Hvers sekt guðs son vill mæta.

2. Ef mergðin glæpa safnar sèr, Saurgaða önd að hrella: Guð elskar mig, uppgefur mèr; Gegn mèr hver dóm má fella? Brot hóta glötun, heimta deyð: Hèr er guðsson, sem fyr' mig leið, Lèt saklaus lífi' út hella.

3. Mín vegna, vegna mín hann dó; Eg vann til drottins reiði; En satt er það um eilífð þó, Að sætti mig hans dauði! Eg trúi' á hann og uppgjöf finn; Ekki fyrir mig, þrælinn sinn, Forgefins drottinn deyði.

4. Ó guð! styrk mig, þess eins eg bið, Að hata, það þú hatar, Og minn drottin og ástvin við Aldrei tryggðum að glata!

Sakir hans elsku sál mín nú Sverji í helgun honum trú; Óhult sú ein er gata.

5. Þitt fullting á míns frelsara stig Fram leiði göngu mína; Grandvaran, faðir! gjör svo mig, Að gjörist viss um náð þína; Syndagirndina sigra' í mèr, Svo skal um eilífð lofgjörð' þèr Sál helguð færa sína.

6. Bœnheyr mig! sjálfur bauðstu mèr, Með bœn til þín að leita, Af synd þá angruð sál mín er; Sjá, með bœn eg þín leita, Og beiði' um styrk, mitt bjarg! frá þèr; Byrg ei þitt andlit fyrir mèr; Enn kanntu mèr aðstoð veita.

7. Að hata, það þú hatar, þèr Hef' eg, minn guð! eiðsvarið; Á dyggða vegi' ef þrótt minn þver, Þú glœð rjúkanda skarið! Skeiki eg, æ! þá annast mig, Og viðhald mèr á þínum stig; Annars eg orka' ei parið.

8. Ó guð! eg mun þitt andlit sjá Eptir stund reynslu minnar, Fullkomnari víðfrægi' eg þá Forprís miskunar þinnar; Eg þreyi' ókvíðinn: þú mèr hèzt: Á

þinn son hver trú hefir fest, Eilífan frið skal finna.

## Nr. 31.

### Heilsusamleg yfirvegan Jesú pínu.

Lagið: Kær Jesú Kriste!

Æ! líttu' hann líða, Laga' í blóði sín, Biturt hel bíða; Bjóð honum, sál mín! Þökk af hreinum huga; Hann, guðs eingetinn, Hvað öflug yfirbugar Ást við manna kyn! Hver það veita vinur kann, Er veita' hans heitust ást upp fann? Hann deyr, sveitist, syndarann Svo guðs gjöri' að vin.

2. Hvað döpur dundi, Dýrsti ástvin! þig Yfir eymda stundin! Ó! hvað geysilig Brjóst þitt byrði þjáir! Af benjum streymir foss; Hver dropi', er drjúpa náir, Drýpur huggun oss. Hver einn vottinn hátt fram ber, Hvað heit sè drottins ást á mèr, Og sá að sprottinn ást af er, Er þú líður, kross.

3. Svo varð að vera, Þú vildir píslum þjást, Að mèr opinbera Œðsta föður ást Þinn dýrstur dauði mætti; Dauði þinn mèr er Gleðilind, grið og sættir Við guð

innsiglar mèr; Svo víst sem gaf minn guð út þig Gœzku af í fórn fyrir mig, Svo traust án vafa vottar sig Hann vilji mèr heill með sèr.

4. Eign þín og arfi Eg orðinn, guð! er nú; Að því athvarfi Mín örugg hnígur trú; Þó þraut hèr kannað, Þó gist fái' eg hel, Ómögulegt er annað, En mèr líði vel. Í hjarta' innst föður fæ eg sèð, Þó farist röðull hauðri með, Um eilífð stöðugt ástargeð Eg mèr drottins tel.

5. Sú, þig kramdi, kvölin Og krossins dauði mèr Bót er við böli, Býr dýrð œðsta þèr; Þitt orð, sem á eg byggi Athvarf mitt í neyð, Þar af styrking þiggur, Að þú leiðst bitran deyð. Þú leiðst saklaus; saklaus vann Sœmd meðtaka; baráttan Sízt þó makleg særi hann, Sá ei heli kveið.

6. Dýrst dœmis œði, Drottinn! kenn mèr þíns; Tært sè tignarklæði Tryggð grandvör lífs míns! Áfúst eyra þinni, Ástvin! raust eg býð; Hvað þitt orð mèr innir, Œfi fús og líð; Hver hefir unnið meir til mín, Mildibrunnur! en elskan

þín; Þökk frá grunni þessum hrín Þekkust hlýðni blíð.

7. Eg af þèr læri Að ala' ei heiptarglóð, Herrann hógværi! gegn hatursmanna þjóð; Stjórn guðs mögla' ei móti Á mínum kjörum hèr, Þó slóð þröngva hljóti Þreyta', er opt við ber; Þá slóð kanna þyrna fèkkst, Þá til ranna dýrðar gekkst; Þèr eptir anna því mèr tekst, Að þinn lærisveinn er.

8. Andláts eg ei kvíði Ógn við heljar döf; Blítt þú, ástvin blíði! Blundaðir líka í gröf; Fold, þá fer eg hèðan, Fela ösku má Mína, hels á meðan Mig nótt fellur á; Guðs, er endurgaf líf þèr, Góðu hendi mjög hægt er, Steini benda', er bezt hent sèr, Burt gröf minni frá.

9. Þökk písl mót þinni Þigg, lausnari! af mèr, Er ást með sinni Auðmjúku fram ber! Í kór engla skæra Þá önd þig göfgar mín, Lof skal fegra færa Frelsuð nafni þín! Feginn sóma færir þèr Þá fögrum rómi bræðra hver; Þeim samhljómar himna her Heiðdur, er aldrei dvín.

Nr. 32.

Kristí orð á krossinum.

Lagið: Jesú! þínar opnu undir.

Ond mín stund nær á þá minnist, Er þú, Jesú! fyrir mig dóst, Og mèr deyð og und með þinni Eilíft líf og hjálpráð bjóst, Og hvað þitt ástríkt hjarta kvað, Helið fyr en sprengdi það: Auðmjúkt bið eg: „æ mig laga, Að sem þú mèr gæti' eg hagað“.

2. Fjandmönnum þú friðar biður, Nær feikna kvöl og spott þig hrjá; Óvin lát mig allt eins viður, Og þú, sáttfúst hjarta tjá! Tjá þeim gott, sem móðga mig, Málin leggja undir þig; Sómann mesta' og sælu virði, Sem líkastur þèr að yrði!

3. Míns til andláts efstu svifa Umbót fresta lát mig sízt! Þig að elska lát mig lifa, Líkn þín man þá til mín víst; Mín til hugsa munt við hel, Mèr náð gefa' að deyja vel, Og huggun gleðja þeirri', eg þreyi, Þèr eilífa að vist með eigi.

4. Heims ginninga hættur glossi Hept skal mína sál ei fá; Inndæl þínum undir

krossi Og auðveld skyldan verða má; Hrellda' að gleðja, leggja lið Lítt stöddum, þinn kross eg við Vil dýrsta' af þínu dœmi læra, Og dáð með hrelldum stoð að fœra.

5. Æ! kvöl þína þekkt hver hefir? Þú kallar: „minn guð! minn guð! Æ! því mig þú yfirgefur?" Æ! mig huggar þó þín nauð. Önd þá stynur efstu' í neyð: „Yfirgef mig ei, minn guð!" Kvak mitt efsta hans mun heyra Hjálparfúst og náðugt eyra.

6. Þú vanmættis þorsta sárum Þjáist; ó, hvað beiskri pín! En þèr fjandmenn edik báru Að svölun í píslum þín; Líkn mun til mín líta þín, Því leiðstu þorstann vegna mín; Þá hinzti kvíði' og þorsti þjakar, Þú munt svala' og að þèr taka.

7. En þá dauðans dúr að sígur, Dýrst þèr fullting veitist það; Loks að hjarta' er höfuð hnígur, Þú hrópar: „það er fullkomnað! Faðir! mína fel eg önd Föðurlega í þína hönd!" Vær og glaðvær var

þinn dauði; Til vistar heim þú fórst hjá guði.

8. Loks af guði líka senda Lausnarstund mun nálgast mín; Þá hrópa' eg: „nú er öll á enda Eymd", og fel þèr sálu mín. Og þú heyrir efst mitt kvein: Að eilífu mín grœðir mein; Leiðir mig frá lífsins mœðum Í ljóss fögnuð með þèr á hæðum.

## Nr. 33.

Jesús deyr á krossi fyrir syndarana.

Lagið: Jesús Kristur er vor frelsari.

Úrþjáður vorðinn að ná fölum Af písla þunga' og dauðans kvölum, Látinn á krossi lausnarinn þó Loksins í gröf nam finna ró.

2. Æ! heilög brjóst mitt hryggð gagntekur; Hvað skal eg segja? eg stórsekur! Á mitt einungis brjóst eg ber Með blygðun, drottinn! fyrir þèr.

3. Þú elskar mig; æ! því hin kalda Þig yfir písla geysar alda! Líf fyrir mig út leggja' ert fús, Lausnari' einasti minn, Jesús!

4. Ó kóngur œðsti endurleystra! Öruggt í dauða' eg vil þèr treysta; Í trú auðmjúkt eg tilbið þig; Tryggð þín vann þetta' og allt fyrir mig.

5. Þín grunnlaus guðdóms gœzka að hafi Gefið út líf, svo hverfi vafi: Miskunari! þín mildi kvað Með valdi: „það er fullkomnað!"

6. Verk háleitt, heilagt hins alvísa! Hans vil eg ráð með auðmýkt prísa; Hann, sá sem upp mitt hjálpráð fann, Hann mèr það síðar skýra kann.

7. Sá, sem hèr lèzt, nam liðnum vísa Til lífs alvaldur; þeir upp rísa; Höfðingja lífs því auðvelt er Eins leysa dauðans bönd af sèr.

8. Eg vil því dauðans dal án kvíða Dimman í gegnum fara' á síðan; Eg á, minn Jesú! að þakka þèr, Það hann til lífsins braut er mèr.

9. Eg vegsama þig, virzt mig reyna, Virzt rannsaka, hve eg það meina; Já, alskyggni! þú þá sèr þökk, Þèr fœrir í hljóði önd mín klökk.

10. Innrœtt sè, faðir! öndu minni,

Að aldrei gleymi' hún miskun þinni! Æ! svo lengi sem eg er til, Ást þína' eg, guð minn! prísa vil.

## Nr. 34.

### Jesús upprisinn frá dauðum.

Lagið: Mitt hjarta! því svo hryggist þú.

Vor guð, vor hæsta heilsugjöf, Herrann Jesús upp reis af gröf! Lof guði! lífs er hann! Sízt herfang grafar verða vann, Með veg sigrara' af dupti fram rann!

2. Trúlega' hann efndi, hvað hann hèt, Hann fyr en lífið fyr' oss lèt: „Fyr daga' en fyllið þrjá, Lífs mig skuluð litið fá"; Lausnarinn batt enda þar á.

3. „Eg lifi", kvað hann, „líka þèr Lifa, trúaðir! skuluð með mèr; Eg kem; mín kallar raust: „Þèr dauðu! segið við legstað laust; Til lífs mèr fylgið, sem er þrotlaust!"

4. Öll mun Jesús sín efna heit, Upp reis sjálfur frá dauðra reit; Lazaro líf nýtt gaf, Er í dauðans dupti svaf. Drottinn heitum sízt bregður af.

5. Hann hefir dauðans afli eytt, Eilíft

hjálpræði ljós í leitt; Oss því afreka vann Óforgengileik farsælan, Farsæld lífs, er þrjóta ei kann.

6. Lof sè guði! sem lausnari minn Líka' eg blund stuttan að eins finn, Lík kvöldstund lítur mig; Að morgni' upprisa yndislig Aptur vekur. Guð prísa' eg þig!

7. Mig drottins umsjá, dauðans nótt Dimm meðan vefur, geymir rótt; Hann foldar faðmi í Öll mín bein ver amafrí, Unz hann sjálfur birtist á ný.

8. Hans til mín leiðir máttug mund Mèr eins hjartkæra hels í blund; Vèr ásamt vaktir þá Í hans ríki inn munum gá; Ó guð! hve sæll dagur er sá!

9. Ei skal því dauðans óttast stríð, En fagna' heldur burtfarartíð; Biðleika í trú, sem ber, Unz raust, þess sköp mig, skipar mèr: „Skeið er runnið; blunda nú hèr“.

10. Veittu mèr að eins trausta trú, Til góðs kapp stöðugt verki sú; Þá engu' eg kvíða kann; Ekki til dóms upprisan, Eg þá við skil, hræða mig vann.

11. Heimt, drottinn! þèr nær þykir mál, Þessum frá heimi mína sál; Mig leið þá mildur inn Þèr við hönd í himininn, Heyr kveinstaf og bænheyr þú minn.

## Nr. 35.

### Páska-sálmur.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Að frívilja út það gef eg, Enginn líf mèr tekur frá; Út það leggja einn vald hef eg, Aptur mèr það gefa má; Af því faðirinn elskar mig, Að óneyddur geng dauðans stig, Legg út líf og læt mig pína, Legg það út fyrir fjandmenn mína.

2. Í minni djúpu læging lýttur Láði blindu hneyxli' eg var, Hýddur, smáður, hrákum spýttur, Hnepptur á kross, þann út eg bar; Þungt nær útkljáð þetta' er skeið, Þá mun mannsins syni', er leið, Œðstum guðs ei ætlað Kristi, Að hans holdið rotnun gisti.

3. Sig fyrst lægði' hann sjálfur niður, Sjálfur guð mun hefja hann. Ljúft eg dey og líð fyrir yður, Líka upp rísa mun

síðan. Á dag þriðja eg fram gá, Alla krossins smán af má Mun, önd taka aptur mína, Eins og guðsson mig auðsýna.

4. Eg vil sjá yður aptur, kætizt! Aptur með sigurheillum sjá, Míns að föður ríki' innrœtist Og ráð hans yður skiljist há, Frœða yður og anda minn Yður senda fyr' heitinn; Mig frá dauðum vakinn vera Vitni skuluð þèr mèr bera.

5. Gangið, heiminn heilan frœðið, Að heitið eg sè kvinnu sáð: Heitið Abraham háleitt sæði, Hetjan, fyr sem um var spáð. Hver á guð trúir, trúir á mig; Teikn gjörið, sem háleitlig Votti, mèr allt vald veitt hafi faðir; Vígið mèr fólk með skírnarbaði.

6. Berjizt mína fyrir frœði, Fagnið, nær yður píslir hrjá; Englar hvorki skulu nè skœðir Skilja' heims drottnar yður mèr frá; Af mönnum hatur, meingjörð, smán Munuð þola' og lífsins rán; Þó skal völd og hrekki hinna Háleit yðar frœði vinna.

7. Heill vor, drottinn! hún hefir unnið, Heims um lönd öll sigrar enn; Sannar, að orð þitt svíkja' ei kunni, Sannar

að þú sèrt upprisinn; Kross, sem á varst hafinn hèr, Í hátign nú umbreytir sèr; Þú með dýrð af gröf fram gengur, Grafar er því misstur fengur.

8. Hataður læging harðri' í þinni Háði fyrir varðst og spè; Vottaðir þó í sama sinni, Sönn guðs hátign í þèr sè; Viðbjóður leizt veröld sá Vera kross, er leiðstu á; En þá dyggð má æðsta segja, Óvina fyr' velferð deyja.

9. Þitt var af heimi' ei þessum ríki, Þinn ei lofstír manna hrós; Í hreinni ást varst hetjulíki, Í helgri kenning guðlegt ljós. Í auðmýkt mikill, af synd hreinn, Allt til krossins hlýðinn einn; Bræðra' umlíða brot og veiki Blíðs var Jesú mikilleiki.

10. Þú hneigst á krossi; hvort var kraptur Hár ei guðs þèr veittur þó? Hver leiddi dauða lífs til aptur? Lúta bauð hver vindi' og sjó? Hver lèt verða' úr vatni vín, Veitti' heyrn daufum, blindum sýn? Hverjum laut skari illra anda? Oss frá guði þú komst til handa.

11. Kross þíns eigi kalls nè spottið

Kann nè smán nú villa mig; Þú ert minn guð, þú ert minn drottinn, Upprisinn því veit eg þig. Hjálpráð eg þig og athvarf á, Öruggt vígi' er drottinn sá, Máttugt orð hvers mèr án efa Mun líf eilíft síðan gefa.

12. Oss við guð í ætt þú færir; Arfi himins verð eg nú; Þá von hjá sèr þjón þinn nærir; Í þessari vil eg deyja trú. Eins og þú ert upprisinn, Eins eg, drottinn Jesú minn! Á efsta degi upp mun rísa, Og eilíflega nafn þitt prísa.

## Nr. 36.

### Páskakvæði.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Um dauða fjallsins dimmar álfur Dýrðlegri' en engla ljóma brá; Því herrann Jesús hèr var sjálfur; Honum skein lífsins króna á; Himneska brjótast hetjan rèð Heljar frá byggðum sigri með.

2. Her sínum breyzka', er hræðslan felldi, Hann dreifðum endursafnað fær; Sókn hans endast með sigurs veldi; Sigurstöng hans um eilífð grær; Og synd

og hel með ópi stá Og titra, gröf því brauzt hann frá.

3. Hver kraptur drottins helgum hnekkir? Hver arm hans öflgan fjötra má? Óvina spjár hann heipt og hrekki; Hold hans skal aldrei rotnun sjá; Hver vin flutti' öðrum fögnuð þann: „Vèr fengum sèð hann; lífs er hann".

4. Þú lifir, drottinn! og tókst aptur Oss til góðs lífið þitt á ný; Annað „verði!" bauð alvalds kraptur; Eilíft hrós fær þitt nafn af því. Eilíf náð fèkk þig ofan sent, Aflþrot dauðans þú hefir kennt.

5. Þú lifir, drottinn! vèr þar viður — Vèr, sem dýrð þína' ei fengum sjá, — Glaðir finnum: oss frelsi' og friður Fenginn er; braut, sem ganga á, Sýnd; brautin, er þú sjálfur rannst, Sem guði trúr til dauða fannst.

6. Þú lifir, drottinn! oss þinn andi Aðstoði, lífgi dáð og megn! Þú lifir, drottinn! þín hönd standi Þróttug óvina flærðum gegn, Og sigri' í brjósti lasta lyst, Lyst himins svo það upp fyllist!

7. Þú lifir, drottinn! lát oss læra Lifa

sem orð þín kenna skær, Samhljóðan líf þá er og æra, Yndis- þá dauðinn -blundur vær; Við sálarfrið og von á þèr Vèr þá himininn smökkum hèr.

8. Herrann lifir, fold hrósa sigri Himins blítt náðargeislum stráð! Guðs við líf hans skín gœzka fegri, Gnœgsta finnst í hans orði náð! Farsæl mannkind! stig fram gakk þann, Frelsarinn þèr sem greiða vann.

9. Um dauða fjallsins dimmar álfur Dýrðlegri' en engla ljóma brá; því herrann Jesús hèr var sjálfur; Honum skein lífsins króna á; Himneska brjótast hetjan rèð Heljar frá byggðum sigri með.

## Nr. 37.

### Kristí himnaför.

Lagið: Í dag þá hátíð höldum vèr.

Söng guði frelstir syngið hátt! Sitt verk hann leiddi' á enda; Heimskringlan því við kveður kátt, Krýndur dýrð son guðs venda Af frelstri jörð til föður vann, Fagnandi' inn tekur himin þann, Er guð

frá gjörði' hann senda, Að seka frá synd leysti' og þrá.

2. Á jörð þá hafði' hann ljós í leitt Líf og eilíft hjálpræði, Braut oss til föður birt og greitt, Og búið sálum næði, Fyrir oss saklaus líf út lagt, Lausnari vor síns föður makt Á hægra veg fer í hæðir, Eignast dýrð þá, ei skýra má.

3. Hans er allt vald á himni og jörð, Heill nam hann oss ávinna; Hver trú og hlýðni' hans tèr við orð, Tjón andar skal ei finna; Hann við guð sætti sekan heim, Sigrar spillingu manna' í þeim Meir en mannvit kann inna, Hans ást þar á ei þreytast má.

4. Sem nú afrekar yndiskjör Óforgengileg mönnum, Vegsemd og dýrð ávinnur sèr Við það með rètti sönnum; Drottni, rèttlátir! hrósið hátt, Hans nafn víðfrægið, göfgið þrátt! Þökk hjartans þýða honum Æ skyldugt er að færum vèr.

5. Í honum sælir erum vèr; Orð hans er já og amen; Og drottinn guð vort athvarf er; Af yður drottni samin Sè

prís, þèr frelstu! frómir menn Fagurt hann allir göfgi senn! Lofgjörð sè fögur framin Hetju, sem hèr til himins fer.

6. Eins og á skýi upp hann fór, Aptur svo nam hann koma Í dýrð, sem herra alheims stór, Alla veröld að dœma. Hver sem frelsara firrtist sinn, Firrast mun hann þá dómarinn, En hinum heiður róma, Er heiðra hann í heimi vann.

7. Huggun trúaðra' er hann að sjá, Hans elsku fagna' á síðan; Skylda' er trúaðra' að treysta' hann á, Trúlyndir honum hlýða. Honum með dyggð að helga sig; Herra! hvers stjórn er eilíflig, Náð á náð ofan blíða Gef og líf vèr þiggjum af þèr.

8. Mèr villtum sauð á villustig Vísar þú braut á rètta. Ljúft ástarráð þitt leiðir mig; Líkn þín mín brot útslètta Virðist; mig heims af þessa þræl Þjón þinn gjörðir, hvern eilífð sæl Sjón guðs skal síðar metta Í dýrð þèr hjá eymd leystan frá.

9. Hvað eru metorð heimsins smá? Helzt rýr þau kristnir finna, Nær heiður

og vegsemd vefur þá; Völd heims hvað snauð má inna, Fyrst kennimann og konung þú Kannt fyrir guði, minn Jesú! Hvern gjöra þegna þinna? Þann með þeim veg eins öðlast eg.

10. Heimsins lausnari! þökk sè þèr, Þitt leiddir verk á enda! Fólk hans, kristnir menn! fögnum vèr! Frelsarinn hæð í venda Dýrðlegur jörð rèð frelstri frá; Föður hœgri hönd situr hjá, Líknarfús lifir án enda Og ríkir þar til eilífðar.

## Nr. 38.

### Lausnarans dýrð að loknu endurlausnarverkinu.

Lagið: Sælir eru þeir allir nú.

Ó heims frelsari! hjálpráð mitt! Hèr er þrekvirki' albúið þitt! Burt synda bölvun snúið; Oss hlotnast blessun öll þín má! Upphef þig! hef þig dupti frá Við þrekverk þitt albúið! Himneski sigurherra! nú Hlýðni þín umbun fèkk og trú; Eptir tár og písl þína Í augsýn himna allra rèð Œðstri dýrð himins ljóma með Þig guð, þinn guð, að krýna.

2. Öll himna portin opna sig; Engla herskarar móts við þig Eins og regn ofan streyma, Fagnaðar söngva' að fœri þèr; Fúsir þig konung hylla sèr; Fagur-söngs hefja hreima; Öll Seraphíma háleit hirð Með hörpuslætti þína dýrð Víðfrægja fögrum hljómi; Ný ljóð samstillir himna her, Heyrð aldrei fyr, til æru þèr Allir með einum rómi.

3. Hátignarljóma lauguð í Líða' um kring sigur-vagn þínn ský Ofan, þá áfram brunar; Þinna ástmenna', er þetta sjá, Þèr framkrjúpandi lotning tjá, Ást þú blessun umbunar; Hugsvölun veitist hrelldum nú, Hjörtun tilbeiðslu fyllir þú; Sorg verður sigurkæti; Sá guð, af hverjum sendur ert, Sjálfur þèr móti tekur bert Í sigurhróss œðstu mæti.

4. Árnaðarmaður! upp til þín Eg lít; í hljóði tárin mín Þig, víst því veit, tilbiðja, Að þèr sá breyzki þóknast kann, Þig hèr í dupti' er biðja vann. Þótt engla helg sè iðja Þèr lúta' og prís að ljóða þinn, Lofsöngvar þeirra hærri' ei minn Veikan lofkveyk fá kafið; Þökk í

mèr glœdda þú munt sjá; Þeim höndum ásján snúa' ei frá, Er hef eg til þín hafið.

5. Líf og dáð minni lèna trú, Að lypti' á öflgum vængjum sú Hátt yfir heim, jörð, tíma, Drottinn! sèr upp í dýrð til þín! Er dauða þínum með og pín' Frá hels mig leystir líma! Þú, hvern tilbiðja himin og jörð, Hvers verk sú mikla' er friðargjörð, Að sekum sáttir bjóðast; Þú anda stýrir eilífur! þú allra heima konungur! Minn ástvin, minn ert bróðir.

6. Í dýrð munt koma aptur um síð; Ó kom Messías! frels þinn lýð, Í reynslu standi' er stynur; Trú þeirra' opt eptir þráir þèr, Að þú af himnum birtist sèr Œðstri' í vegsemd sem vinur. Ótal englanna þúsund þá Þig fagurskýja vagni á Yfir himna hæðir fœra; Þá allra, þig sem þreyðu, tár Þerrast til fulls um eilíf ár; Snýst gleði' í hryggðar snœra.

7. Já! mín sálarheill! þú ert það, Þinn sem engil, nær fullkomnað Mitt er verk, mèr vilt senda, Og hlutdeild gefa'

í himni þín, þá heim við skil; frá dupti mín þá flýg eg upp þar að lenda; Mín trú þig, drottinn minn guð! þá Mun í fullbjörtu ljósi sjá; Eymd öll, tár öll þá dvína; Í allra himna augsýn mig Eilífri dýrð mun föðurlig Mildin þín meður krýna.

## Nr. 39.
### Vernd kristninnar.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

Hjörð sinni Jesús hlífð vill ljá, Helvíti má því æða! Sá guðs hægra veg situr á, Sigrar þess orku skæða. Oss hann með hjálp er hjá; Hvað hann bauð, standa má; Hann trúr sinn heiður ver, Á höndum kristna ber, Hann kann víti ei hræða.

2. Guð á hástólum heimsins sèr Höfðingja mót sèr rísa; Þann smurða, son hans, því sem ber Þeir ekki vilja prísa; Smána vort hjálparhorn, Heilsugjafara vorn, Hans krossorð háðs með sveim, En hlær drottinn að þeim. Sú uppreist smán á vísa.

3. Sannleik, þó níði syndarinn, Svipt frá oss þó ei getur; Ódæll ef mót rís ókristinn, Í trú stöndum þess betur! Jesú! dýrð, þökk sè þèr! Þinn lærisveinn hver er, Þitt orð af hjarta' er hèlt, Heims makt fær engin fellt, nè frá andarheill fletur.

4. Upp kristnir! treystið æ hann á, Ógn yður nein ei hræði! Sá guð, er hæðum sèr allt frá, Sig mun tjá vort hjálpræði; Alls herjar herra' og guð Hlífir þeim rækja' hans boð; Þolgæði' oss gefur í neyð, Gnógt megn og hug í deyð. Ógn svipti' oss engin næði!

## Nr. 40.

Drottinn er minn hirðir (S. Davíðs 23; sbr. Jóh. 10.).

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Jesús er minn hollur hirðir, Hann mèr fyrri móti rann, Þá villa' og synd, er sálir myrðir, Sauð mig hremmdu glataðan; Raust míns hirðis heimti mig Heim af skæðum villustig; Brot mèr sýndi, bót mèr færði, Betra hugarfar við nærði.

2. Jesús er minn hollur hirðir, Hann fyr' mig sitt líf út gaf; Huggunarlaus eg annars yrði Örvæntingar sökkva' í kaf; Mína sekt hann saklaus bar, Særður fyrir brot mín var; Í hlýðni' og trú ef hann eg viður Held mèr, sál þá veitist friður.

3. Jesús er minn hollur hirðir, Hag minn allan þekkir grannt, Fyr' voða' og freistni vel um girðir, Um velferð mína' er honum annt; Hann veit, hvað mèr hollast er, Hrösun mína' og breyzkleik sèr; Eins viðleitni veit hann mína, Að vera trúr og hlýðni sýna.

4. Jesús er minn hollur hirðir, Hann með breyzkum vorkun ber, Einlægan fyrir verk hann virðir Vilja, sem hann fann hjá mèr; Mèr til meira' ei ætlast af, En til krapta' og færi gaf; Þó veikan syndin við mig loði, Viljann sèr, að hlýða' hans boði.

5. Jesús er minn hollur hirðir, Hann veit, hvað mín orka' er smá; þyngri aldrei bjó mèr byrði, En bera með hans styrk eg má; Hann vóg krapta minna

megn Mæðu' og reynslum öllum gegn; Hann með föður-líkn allt lagar Lán og böl, sem bezt veit haga.

6. Jesús er minn hollur hirðir, Hans almætti tryggur múr. Hver mèr óvin ögra þyrði, Eða slíta' hans verndun úr! Öll óvina vèl og völd Víkja, þá eg hann á skjöld, Sem þá alla sigrað hefur, Og sigurs þess mèr notin gefur.

7. Jesús er minn hollur hirðir, Hjálp örugg í rauna þrá; Þó fót minn þyrnar stundum stirðir Stingi, græðir hann mig þá; Um þó ráfi dauðans dal, Dirfa mig sú huggun skal, Að hann vill mig, þá heim skal kveðja, Í himna sæld eilífri gleðja.

8. Jesús er minn hollur hirðir, Hann mèr fulla nægð og líf, Ánægju veitt og andar kyrrðir Einn fær, Lausum margt við kíf; Margt gott iðja' eg, margs góðs nýt, Þá mjúklega' undir ok hans lýt; Vingun guðs og gleði hlýt eg, Góðra' og sjálfs míns þokka nýt eg.

9. Jesús er minn hollur hirðir, Hvergi neitt mig bresta má. Lítt um glys eg

heimsins hirði, Hans skingœða sakna má; Minn Jesús mèr allt er einn, Hans orð og dœmi leiðarsteinn, Hans helför svían hrelldu geði, Hans upphafning eilíf gleði.

---

## V.

## Guðs andi og orð.

---

### Nr. 41.

### Helgan með guðs orði og anda.

Lagið: Kom skapari heilagi andi.

Ei bið eg heims um hverfult glys, Heldur, að, guð! mèr veitir þann Anda, hverjum til hjálpræðis Heita mèr orð þitt dýrsta vann.

2. Þeim vísdómi mig, faðir! frœð, Sem frá þèr að ofan kominn er; Mitt þeim vísdómi meður glœð, Minn guð! hjarta til elsku' á þèr.

3. Sæla þig, guð! að elska' er œðst, Að stunda fús, hvað líkar þèr, Heimsins

fram yfir höppin stœrst, Hugró tignari veitir mèr.

4. Fulltreysta' eg má þá, faðir! þèr; Fœrir glaðværa vissu þinn Andi fagnaðar innra mèr, Að sèrt náðugur faðir minn.

5. Hann dug efli til dyggða minn, Dýrstan á sannleiks leiði stig; Hugraun þegar og hörmung finn, Huggara beztan tjái sig.

6. Hann í mèr skapi hjarta hreint, Hann mèr innsigli þína náð, Hertygi, þá fæ hörmung reynt, Hug minn þolgœði með og dáð.

## Nr. 42.

### Uppörvan til að lesa ritninguna.

Lagið: Nú bið eg, guð! þú náðir mig.

Ef hugskot þitt og hjarta spillt Helgist og betrist kjósa vilt, Afrœk þá, kristin, aldrei, sál, Að iðka' og lesa drottins mál; Hugleið, að orð það heimsins ber Hjálpráð og lífgjöf alla' í sèr, Um vort hjálprœði, allt guðs ráð, Andans gjafir og dýrstu náð.

2. Gaumgæf því, eins og guð til þín,

Guð þinn, raust lèti hljóma sín; Gaumgæf, sem hann þig samtal á Sjálfur kallaði himnum frá; Svo les, með lotning les æ þú, Með lyst og hjartans fastri trú, Og guðrækinni alúð með Til ótta guðs þitt mennta geð.

3. Guðrækinn mæl svo: „guð minn, þú, Guð, hvern eg klökkur tilbið nú, Æ! gef, að eg fyr' orð frá þèr Æ haldi boðorð gefin mèr; Lát mig tilfinning-fullan ráð Fá skilið þitt og miklu náð, Og krossins í orði undur há Eins og í lögmáls boðum sjá.

4. Þinn guð, faðir alls sannleiks sá, Sízt þig villt fara láta má; Les bók hans helgu; lestu þrátt, Ljóst mun þèr, kristinn maður! brátt Allt, hvað þín krefja velferð vann; Vísdómi guð einn býta kann Hverjum með einlægt hjartaþel Hans leitar dyggur, elskar vel.

5. Les girndastormi frekum frá Frí, og heims anna laus við stjá; En að lát fylgjast allan hug, Allt þinnar sálar megn og dug; Dags hvers þèr nota mætast mund, Morgunsins glaða heilla-

stund; Eins drottins helga daginn þèr Dýrstra ritninga iðkun ber.

6. Hjartnæm ef grein þitt hrærir geð, Hana um daginn alúð með Til heilla þèr í hjartað átt Heimta endur í kyrrðum þrátt; Hennar þèr kraptur hjarta til Hreinn gangi! styrk þig með hans yl, Til að gjöra, hvað gott þèr ber. Göfuglyndi það sanna er.

7. Oss til að iðka' í dyggð og dáð, Drottinn oss setti hèr á láð; Hvað ritning býður, ræk og ger, Af reynslunni mun þá nemast þèr, Að sú, þèr boðast, sjálfum frá Sè fræði guði himnum á; Orð hans, hverju þú hlýðinn ert, Hlotnast mun þèr þá skilja bert.

8. Ef leynd þèr ræðir efni' og há Orð guðs, það sízt þig fæla má; Endanlegt til fulls aldrei kann Út grunda mannvit skaparann. Guðs hæð án enda' og hátign er; Hann þegar sig vill skýra þèr, Þá trú því greitt, sem talar hann, Trú ei, því upp þín hyggja fann.

9. Lofs vert er, þegar mannvit manns Meiri við þekking skaparans Þarf sín

ei skammast; skylt er þó Skepnu, mannvit er tæpt við bjó, Láta vit fangið lúta' á svig, Ljóst þegar drottinn birtir sig; Auðmýkt viturleg, trú að tjá, því talar drottinn, nefnast má.

10. Engin því lát þig efamál Of mjög hrella, guðrœkna sál! Hèr ertu barn, en birtu lèr Bjartari síðar meir guð þèr; Þín æ þar birta' um eilífð skær Ásamt fullsælu vaxið fær; Trúarinnar er tími hèr, Tími skoðunar eptir fer.

11. Haf æ ritning í heiðri því; Henni' ef sumt óljóst finnur í, Þá lát þinn vin þig leiða nú, Er löngum meira sèr en þú; Mannvit, er leggur alúð á Orð drottins grunda' og skilið fá, Hjartans af freistni þjakað þel Þrátt margri dimmu hrindir vel.

12. Hald þèr fast guðs við heilagt orð, Heill er það mesta þín á jörð; Og mun, svo sannur sem guð er, Sælu á himnum afla þèr; Forsmá guðs orðs óvinar háð Með einurð kristins manns

og dáð; Sá lærdómur, sem hann að hló, hlýtur guðsorð að reynast þó.

## Nr. 43.

### Guðs orðs kraptur til helgunar mannanna.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Lífs orð, dýrð sè þèr, drottinn minn! Dýrst minnar veit eg, trúi' og finn Grunn sáluhjálpar sannan; Við ljóss þess birtu' eg fundið fæ Fótstiginn þröngva', og rata má Hlið mjótt til himna ranna.

2. Meinspillt og blint var mannvit vort; Menn höfðu þeirra vitru skort, Er braut lífs eilífs vísa; Þitt sannleiks orð, vort háleitt hnoss, Himneska fræði', er brestur oss, Einungis kann auglýsa.

3. Í sínum syni' að hafi há Hugsað guðs mildi líkn mèr tjá, Tíð áður og veröld væri; Að skapt hafi' og við haldi heim Hans alvöld gæzka', og líka' í þeim Mig gjört, að mynd hans bæri;

4. Að Jesús, guðs son eingetinn, Orð-inn maður, sè frelsari minn, Fyr' brot mín látið lífið; Að mèr sè fyr' hans

úthellt blóð Afrekuð náð og kvittan góð, Frá synda frelstum kífi;

5. Að guð muni láta öndu þá, Er líki dauðinn slítur frá, Ódauðlega vera' og vara; Að mitt muni vekja hirðir hold, Heljar þó makt því snúi' í mold, Sál nýrra til samfara;

6. Að hverfi' á síðan heimurinn, Að honum muni drottinn minn Loksins í eldi eyða; Að drótt alheims fyrir dómstólinn Dóm muni hver að fái sinn Að helgum lögum leiða;

7. Að unz hann birtist, ástvin minn Öllum trúlyndum geymdan sinn Sigurkrans sínum hafi: Allt hefir þetta' hans elsku ráð Orð hans blessað mèr birt af náð; Án þess allt vefði vafi.

8. Þitt orð í hörmum huga minn Hressir, Svo minna til eg finn Angurs, er þungt mèr þjakar; Hjartanu lèttir, hverfur þrá, Huggunarorð þín nær mèr hjá Í eymd og angist vaka.

9. Guðs barn orð hans mjög iðkar því; Að leitar, finnur veg þar í Velferðar vissan sinnar; Þar guð hvað kennir,

því er kært, Þúsund hnetti með gullið skært Meir en þó mætti vinna.

10. Guð míns hjálpræðis! hjálp mèr, þig, Heiminn svo læri' og sjálfan mig Af orði' að þekkja þínu; Bjart þess skyn kveyki bezt hjá mèr Þá birti', að falslaus elska' á þèr Æ brenni' í brjósti mínu.

11. Hugstyrk gef öðlist hjartans þel Helgri' af ritningu, flærð og vèl Heims þá mèr voða hóta; Og nær vegferðar endar skeið, Orð þitt blessað mèr sykri deyð, Hnoss að loks megi' eg hljóta.

## Nr. 44.
### Guðs orð.

Lagið: Öldungar Júða annars dags.

Guð er mitt athvarf! orð hans á Önd mín fulltreysta skal og má; Í trúnni' eg fram geng fyrir þèr, Minn faðir! hèr, Ekki' í skoðun, sem eptir fer.

2. Þitt orð er satt; lát sannað þá Sál mína jafnan krapt þess fá! Herra, minn guð! lát heimsins þrá, Nè háð ei fá Trú minni ginnt nè fælt mig frá!

3. Hvar hefði' eg ljós mèr heimskum hent, Hefði' ei þitt orð mèr sannleik kennt? Án hans mín fengi engan veg, Hve ætti eg Heiðra þig, skynjað hyggjan treg.

4. Orð þín mèr verð fá andar dýrt, Ódauðleik og líf betra skýrt; Lífstóm mèr er því unnt af þèr, Að eg, sem ber, Til eilífðar bezt mig búi hèr.

5. Ei fengi' eg þekkt þitt eilíft ráð, Að þú syndara takir í náð, Ef orðs þíns blessað birtu hnoss Það birti' ei oss, Sætt fengna fyr' þíns sonar kross.

6. Í angri synda' og sárri þrá Sízt þarf örvænting brjóst mitt slá; Þú brot upp gefur; önd mín nú Að þig í trú Föður má nefna, fræðir þú.

7. Mitt sáluhjálpar æðst verk er, Æ að betrast og helgast þèr; Af eigin mætti' eg orka' ei neitt, Þitt orðið eitt Mèr þar til vilja' og megn fær veitt.

8. Athvarf mitt, drottinn! orðs þíns hnoss Æ geym, er sjálfur veittir oss! Lát mig það hlutfall heppnast ske! Heill mèr það sè! Krapt lífs til eilífs láti í tè.

## Nr. 45.

### Kristniboð postulanna.

Lagið: Í Babýlon við vötnin ströng.

Þèr, faðir! hjartans þökk eg kveð, Þú út gafst soninn kæra! Þann son, ódauðlegt er líf rèð Og heill syndurum færa; Eg þakka þèr, að anda þann, Undrum með son þinn tigna' er vann, Veslum oss virtist senda; Himnum kom sannleiks andi af Og þjónum þínum styrkleik gaf, Ástverk þitt vel að enda.

2. Þeir guðdóms megni gæddir því Ganga út, heim að fræði; Heimi' að snúa þeim hjálpar, ný Hjörtu sá andi' er fæðir; Hjálpráðs vors boðskap heimskringlan Heyra gjörvöll fagnandi vann; Sannleiki' og vit nú vinna, Ódyggð og blindni' á flótta fer; Hvar fingur guðs svo auðsær er, Mega fjandmenn sèr minna.

3. Fjandmanna ofsa feiknin þver Forgefins ofsókn vekur; Orð Jesú krapt og blessun ber; Bezt hans nafn dýrð meðtekur. Votta' hans písl skelfa' og meða' ei má; máttarins andi styrkti þá

Í heli' og högum nauða; þeir kongi sínum tryggðir tjá, Ótrauðir nafn hans meðkennt fá, Og lof hans ljóða' í dauða.

4. Kraptarins andi ertu enn, Enn þá fræðari manna; Fær Jesú nýrra sveina senn, Sundrar veldi myrkranna; Iðrun syndara' og umbót þú Eflir, guðs börnum von og trú, Gegn heimi styrk að stríða; Guðhræddum sálum gefur ró, Er glaðværð þeim í raunum bjó, Og hels burt hrindir kvíða.

5. Föður og sonar andi einn! Alls ljóss og kærleiks lindin! Þeim, sem guð biðja, heitinn hreinn! Æ! hreinsa þú mitt lyndi! Iðrun sanna' í mèr efl og trú! Í mèr nýtt hjarta skapa þú! Kenn mèr, sem barni', að biðja! Í hörmungum ver huggun mín! Hjástoð mig líknsöm virðist þín Í dauðans stríði styðja!

---

## VI.

## Rannsókn sjálfs sín, iðran, trú og fyrirgefning syndanna.

---

### Nr. 46.

Uppörvan til sjálfs-rannsóknar.

Lagið: Bœn mína heyr, guð, herra kær.

Hví kvíði' eg prófa hjarta mitt, Og, hver eg sè, að skoða grannt? Hví fylgsni þess, er fyrir hitt Fæ, gjöri mèr að dylja annt? Samvizkan leynt aðvara vann: „Varast sjálfan að tæla þig"; En eg dylst fús þess illa', eg fann, Í vind sló, því hún kvað við mig.

2. Hègómleiks ugglaus hættan stig Og hirðuleysis rann eg fram; Misbrúkuð þrátt guðs mildi mig Meir í uggleysi styrkja nam; Glatt þó mörg drýgi' eg glœpa völd, Gleðjast þó læzt við Jesúm Krist; Fyrst hann bar synda fyr' mig gjöld, Finna guð sættan hygg mèr víst.

3. Of frekt enn taum eg girndum gaf, Guðlegt ljós enn þá hyggju brast; Hjart-

að guðs elsku örsnautt af Ei sínar skyldur við kannast; Ávaxtarlaus trú er mín dauð, Án betrunar framferði mitt; Dirfist þó vænta' í dómi, ó guð! Dómsatkvæði mig náði þitt.

4. Æ! hversu lengi' eg afsinna', œr Ætla mig sjálfan blekkja svo? Óförum mínum er eg nær! Æ! hve nær mun eg sjá þá vo? Af svefni, drottinn! upp mig vek, Að stœrð þekkt mætti' eg sekta fá! Brot mín að straffa' ei flýt þèr frek! Faðir! þolgœði' enn virzt mèr tjá!

5. Sjálfum eg dylji mèr þótt mig, Má eg þó aldrei dyljast þèr; Því fylgsn' míns anda leynilig Ljós einskært þínum sjónum er. Úr mínu þríf mig myrkri út! Mitt opna hugskot sjónum mín! Viknuð samvizka veki sút, Er verki' apturhvarf, guð! til þín!

6. Þú prófar hjörtun; þú mèr snú! Þú, guð alvísi! snú þú mèr! Slètta braut, rètta rás mèr bú, Rètt kenn síðan að treysta þèr! Heilt sè mitt líf þèr helgað æ! Hjarta sem dagfar vandað þèr!

þann voða' þá eg forðast fæ, Flekaður verða' af sjálfum mèr.

## Nr. 47.

### Nauðsyn og nytsemi sjálfs-þekkingar.

Lagið: Rís upp, mín sál! og bregð nú blundi.

Hver em eg? mèr þar mest á liggur, Minn guð! kenn rètt að skilja mèr! Gef eg mèr sannleik segi' og tryggur Sjái mig rètt eins og eg er; Hver þekkja' ei lærir sjálfan sig, Sannra hygginda' er langt frá stig.

2. Ó guð! verk þinna em eg handa, Til æru þinnar skópstu mig; Lifnað minn þèr til lofs að vanda, Lífsregla þín er föðurlig; Æ! lifi' eg þá sem eign þín hèr Og þèr til lofs, sem skylt var mèr?

3. Að orði' eg kristinn er og heiti; En er eg það fyr' raun og sann? Opna minn skilning, glöggt svo gæti, Hvort götu lífs, þá Jesús rann Undan, og vísa vann mèr á, Við leitast trúr og hlýðinn gá.

4. Þú fylgsni hjartna þekkir manna, Þau sjálfir grunda' ei megnum vèr, Opt

lát mig því með alúð kanna, Hve em eg lyndur, guð! fyrir þèr; Ætlun svikulli frels mig frá, Er fleka' hyggnastan jafnvel má!

5. Þó vissi' eg allt, en við mig dyldist, Og væri' ókenndur sjálfum mèr: Til bótar þá hvað þrýsta skyldi, Og þess leita', er andargagn mitt er? Sig vel að þekkja, vit er mest, Veit, mig því sjálfan þekki' eg bezt!

6. Hvað til míns sanna bata' enn brestur, Birti mèr ljós þitt, faðir kær! Ef sannleiks valdi braut eg beztu, Banna, mèr týnist leið sú skær! Ljós þitt mig leiði lífsstig á, Lygar og svik mig falsa' ei þá.

7. Ef fjærri' eg rèttum enn er vegi, Til eilífs lífs er leiða má, Þín náð villustig hættum hneigi Hjarta mitt þá og glötun frá! Veit mèr til bótar vilja' og dáð; Verkað hvorttveggja fær þín náð.

8. Eg hlýt þó reyna einhvern tíma, Hvað að hafðist eg hèr og var; Æ! lát apturhvarf ei mig geyma, Unz iðran mèr ei gagnar par! Gjör mig í tíma

hygginn hèr! Hættri sjálfsblekking forða mèr.

## Nr. 48.

### Árvekni ómissandi.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Lífs míns spor, guð! nær leidd af þèr Leiðast þinn veg í heimi, Ætíð þinn stjórnar andi mèr, Eg boð þín trúr svo geymi; Mitt hjarta vitni mèr það ber, Meir önd mín stundi' að geðjast þèr, En heims öll gæði' að hljóta; Lát uggleysi, dramb, oftraust þá Óverðan mig þess gjört ei fá, Náðar þinnar að njóta.

2. Hve hægt ósigur ugglaust geð Af girndum fellt kann líða, Er fèkk með værð það fárið sèð, Fyrir sem átti' að kvíða! Þykist fullkominn þegar brátt! Þeinkir synd hina' í varið smátt! Sú skylda' í smáu gildi! Hann er nú falli harðla nær, Hætt fellur! en þó ætlað fær Sett gá sig skeið, sem skyldi.

3. Hve breyzk mannskepnan, hversu' auðtæld Hún er til glæpi' að vinna! Opt svæfð samvizkan! of fljótt kæld Alúðin

góðu að sinna. Hætt er vo, oftraust ef hann ber Og breyzkleik sínum gleyma fer, Styrk einan hjá sèr eygir; Hann ef ei flýja hygginn rèð, Heims lyst og villu sigrast með Baráttu' á voða vegi.

4. Hver sèr með drambsamt hrokar geð, Hjá þèr ei staðizt getur; Þann eymd fèkk sín', sitt ekkert sèð, Upphefðar, guð! þú metur; Mitt dramb misþóknast, drottinn! þèr, Dirfist eg aðra' að smá hjá mèr, Þó mjög þykist mætur vera; Já, andstyggð er þèr eins mín trú Án auðmýktar; af brotum sú Mig hreinan má ei gera.

5. Æ! lær mig varúð líta með Lífsstigu' á, drottinn! mína, Aldregi svo mitt ugglaust geð Oftreysti dyggð á sína. Áföll freistinga' ef óttast má, Álengdar gef mèr þau að sjá, Í tíma' að út mig búi. Heim þenna, tímann, hag minn á Og holdsins girnda völdin flá Athygli' og ætíð snúi.

6. Gef vanmátt til góðs, veikleik minn Vel þekkja' og tregleik megi, Misstig kenni', er eg mörg þrátt finn, Mèr gætni

lífs á vegi. Sè braut, ó guð! sú rètt, eg rann, Ráð mèr og fræð, sem bezt eg kann Vakta mín spor og vaka. Varðveit minn fót, að falskt ei traust, Frek ofdirfð, dramb nè gæfulaust, Megi fall mèr orsaka.

7. Mín trú, guðrækni', og gott, er finn, Ó guð! í fari mínu, Dyggð mín, ráðvendni, drottinn minn! Dýrstu' allt eru gáfur þínar; Dupt er eg að eins, er skópst þú, Að þèr í náð tókst, kallar nú, Þíns ríkis þegn að lifi; Með auðmýkt gáfur að þiggi þær, Þú veit, sjálfs þótta skœðum fjær, Og dýrð þèr einum gefi.

8. Lífs míns spor, guð! þá leidd af þèr Leiðast þinn veg í heimi; Ætíð þinn stjórnar andi mèr, Að trúr þín boð eg geymi; Uggleysi, dramb og oftraust þá Aldregi nær mig villa frá Beinni slóð boða þinna; Sæl öll guðs börn og sæll eg er; Sæl þökk og prís vèr munum þèr Við takmark náð trúar inna.

## Nr. 49.
### Árvekni.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Ei það eg höndlað hafi þegar; Hèr beztu dyggð má veika sjá! En eg sæki því ákaflegar Um hnoss: sál minni borgið fá; Árvekni dyggð nema' iðki þrátt, Andvara missir, fellur brátt.

2. Svo lengi' eg ráfa hèr í heimi, Hrösull, sem barn eg vafra', opt dett; Svo eigi falli, sín vel geymi Sá, nær bróðir fèll, enn stóð rètt! Illa girnd, þá þú yfirvannst, Aldrei fulldauða' í brjósti fannst.

3. Sízt má dyggð betran sèrhver heita , Sem tíminn þrátt einungis vann; Gjálífrar æsku galsa breyta Gæflynda' í siðsemd aldur kann; Dramb vort þrátt fyrir dyggð það mat, Drýgt sem náttúra' og tími gat.

4. Umbreyting sálar opt er þinnar Eðlis hvað fýsn til skipta brá; Sjálfhól og dramb þig sigra finnur; Sigrar þau; skipti hefir nú á; Lund þín metnaði

læknuð af Losta' eða fjárplóg tauminn gaf.

5. Lastvör dyggð öðrum lízt hvað vera, Lymsku bragð títt og sjálfsást er; Lastgirni' og öfund illt þèr gera, Óvin svo margan vekja þèr; Þú lætur var hjá lasti sneitt, Lastgirni' ei flýr, en skinið eitt.

6. Þú hugsar, fyrst vann á þig eigi, Annara dyggð hvað vann á slys, Að ginna þig tál ekkert megi; En sèrhvert hjarta' á sitt tálglys! Tillit eitt, orð eitt tælir þann Títt, hvern metorð og gull ei vann.

7. Opt kann girndin þèr blunda' í brjósti; Við bræði' og heipt þú þóttist frí; Áausturs sekkja átt nú þjóstinn; Ólgar, svellur þitt hjarta' á ný; illyrðir hart og ástlaust nú, Eins og skammyrtur fyr varst þú.

8. Opt eg, þá gefst að náða' eg njóti', Næri í kyrrðum stöðugt geð; Varla brosir mèr veröld móti, Vond fyr en girnd sèr hreifa rèð; Í solli' og glaumi breyzkur brýt, Blygðast straffsverður síðan hlýt.

9. Þú drottni', í hegðun grandvar, gefur Girndir, sem hœgra' að sigra var; En offrar þú, ef þess ást hans krefur, Eins þeim kærustu, sem þèr bar? Þetta hönd, fótur, auga er, Af sem rèttkristnum sníða ber.

10. Heimsglaum, til náða fallinn fremur, Firrist þú, einrúm elskar vært; En er þèr, guðs vild ef til kemur, Eins því að hafna ljúft og kært? Fjárplóg, kíf, öfund flýr þitt geð, Flýr það þá leti' og ólund með?

11. Þú elskar hóf, hvort eins þolgœði? Ert rèttvís, hvort þá stilltur með? Fús ert þeim bjarga, böl sem mœðir; Brot þá upp gefa' eins fúst þitt geð? Löstum hreinn átt vera' öllum frá, Alla dyggð fús að stunda á.

12. Stríð þú og vak, þig stœra varast! Stoltur ei þenk: „nóg þegar eg vann". Óvinur þinnar auðnu snarast Áræðst, veikastan þig hvar fann; Ugg-leysi hrösun hótar þèr; Hvervetna' æ því árvakur ver.

## Nr. 50.

Syndin mannanna töpun. Tilfinningar apturhorfins syndara.

Lagið: Nú bið eg, guð! þú náðir mig.

Samvizkan lengi svæfð mèr hjá Svikaró loksins vaknar frá; Runnins lífs tállaust rekja' eg hèr Rás, iðrun seinni píndur, fer; Afbrot, fásinnu, æði' ófrýnt, Annað ei neitt hún fær mèr sýnt; Ögrandi hrópar: „hegnari' er Herrann; syndari! vei sè þèr“.

2. Af syndum, margt ár í sem lá, Æ! hver eg not nú hafa má? Æ! ógn og voða einsamlan, Angur, kvöl, sálarfriðar bann! Ó glœpir! minna eymda lind! Er taumlaust hyggjan rækti blind, Með hjartans angist, óró þèr Umbunið nú og sneypu mèr.

3. Svikul hvar kæti sú nú er, Er synd fyrir hèt með vissu mèr? Hve skjótt mèr blekktum brást hún frá? Bjó hroll og viðbjóð eptir á? Brigðull heims glaumur! burt eg fann Blíð hjartans ró að með þèr rann; Nýjar, sem œða' úr ýmsum stað, Önd minni plágur safnast að.

4. Opt eg vesall fór alls á mis, Eigna, góðs mannorðs, heilbrigðis! Dárinn að mèr með háði hló; Hinn vitri mig ei aumkar þó; Að lifa' og deyja allt eins er Ógnarlegt, leitt hvorttveggja mèr! Glötun, sem út úr enginn sèr, Ó synd! hve nálæg hún er þèr!

5. Eg finn eilífð sè ætluð mèr, Með ógn mín sál þar dóminn sèr! Guð! hvað eg til vann, gefa mun Grönd h è r, angist þ a r, kvöl og stun! Eg hans hef forsmáð elsku' og náð, Í augsýn hans með þrjózku' hann smáð; Ef skyldi' eg komast hegning hjá, Hann væri' ei dómari rèttvís þá.

6. Æ! dirfist eg fyr' augsjón þín Enn koma', er býr syndurum pín! Má eg enn bljúgur biðja þig Með blíðri von, guð! að heyrir mig? Þú ert rèttlátur, öndin mín Af heilagleika skelfist þín! En þú ert einskær ást; þèr á það eykur hugdaufum fulltraust hjá.

7. Af hjarta' ef synd eg hafna enn, Hata sem dauða' og forðast senn; Enn nú þín heiðra af alúð lög, Að spyr rètt-

inda þinna veg; Ef í þíns sonar eg þig trú Ákalla: sekum, guð! væg þú! Virzt fyrir hans deyð vægð mèr tjá, Víst upp gefur þú sekt mèr þá.

8. Heyr jörð! heyr himin! vitni ver! Vottorð millum guðs og mín ber! Upp gef mèr sekt, eilífi guð! Eg sver þèr, fyrir Jesú deyð; Miskuna mèr, og mèr vægð tjá, Minna leys synda eymd mig frá! Sem gott barn óttast æ eg vil Og elska þig trúr, svo lengi' er til.

## Nr. 51.

### Iðrandi og betrunarfúst hugarfar syndarans.

Lagið: Sæti Jesú! sjá oss hèr.

Lengi' æ! allt of lengi þræll Lifði' eg illra girnda minna! Óró mátti' eg opt vesæll, Opt samvizku brigzli finna! Hvað mörgum dögum eyddi' eg æfi Andvaralaus um sanna gæfu!

2. Sorg og trega særist nú Sál mín glœpa vegna minna; Æ! mitt hjarta! hvort munt þú Svo hrjáð ró og frið

aptur finna? Muntu guð! sekt gefa' upp mína, Gœzku og náð enn tjá mèr þína?

3. Já, þú munt, því mein vilt sízt Manns syndugs; þú kýs hann lifi; Ef af hjarta' hann umvendist, Öll ert fús að brot upp gefir; Sekt hans leggur minnst í minni, Miskun hann ei sviptir þinni.

4. Fullur blygðun finn eg nú, Að fyr' þèr straffsverð mín er breytni; Eins að breyta' og bauðst mèr þú, Brast mig lyst, kapp og viðleitni, Brjóta þín opt blessuð gjörði Boð með þanka, verki, orði.

5. Synd hèr eptir yfir mèr Ei skal drottna; löstu' að deyða Skylda mín og áform er; Auðmjúkur um lið þig beiða Eykur nýtt fjör öndu minni, Að trúr skyldu þeirri finnist.

6. Eg vil dyggð, sem elskar þú, Allan mig og líf mitt gefa; Þèr svo mætti' eg þóknast nú, Þenkja hèr eptir og lifa, Hreinsa bæði hold og anda, Hjarta' og athöfn fyr' þèr vanda.

## Nr. 52.

Endurvitkuð iðrandi manneskja

Lagið: Jesú! þínar opnu undir.

Glys þitt, hættur heims hègómi! Af hjarta við eg skilið læt; Dögum yfir og dýru tómi, Drepnu með þèr, sárt eg græt; Mín sè eg afbrot mörg og frek, Mèr sem tíðum að eg lèk; Upp því dirfist ei að líta, Angraður blygðast má og sýta.

2. Það, sem eitur eins og skæðast, Átti' eg hata og forðast mest; Það mèr gjöra helzt bar hræðast, Hjarta mínu' opt skemmti bezt; Myrkrið birta var mèr víst; Það vinna bar mèr gjörði' eg sízt, Hef' því flekkað hjarta' og sinni Heimsklegri með breytni minni.

3. Heims var glaumur allt mitt yndi; Aðvörun guðs míns, typtan, ráð, Sem barn fávíst seldi' eg vindi; Svo var hjartað þrjózku háð! Þung nú afbrot þekki' eg mín, Þau mèr valda kvíða' og pín; Hrelling finn eg hjartað særast Af hingað til því mat eg kærast.

4. Veröld flá! þín vèlin skæðu Í

voðalegt mig felldu net; Nú þú spottar mína mæðu Og mig, sem af þèr blindast lèt, Að skapara, sannleik, skyldu, dyggð, Skæðri blekktur þinni lygð, Sem þræll eg synda þrátt forsmáði, Og þig einungis stunda gáði.

5. Æ! hvað sáran geð mitt grætir, Frá guði' að rænti', en háði þèr Ára blómans bezta mæti, Blekktur glysi þínu hèr; Þú ástsæld hèzt og auðnu þrátt. Úr afbrotunum gjörðir smátt; Við þínar æskan leikin lygðir Löstu' og smán rèð nefna dyggðir.

6. Kvöl eg finn og kvíðann skæða, Er kæti syndug olli þín; Hjálpar þú nú hjartað græða, Er hratzt þú sýktu' í neyð og pín? Nei! svo mikils máttu sízt! Mæta hlýt eg dómi víst, Og fyrir glæpa gjörð og vanda Glöggvan drottni reikning standa.

7. Hvað mun ráða hèr að finna? Heimtir má ske guð mig til Brátt í skyndi brota minna Og breytni illrar gjöra skil. Æ! tíð dýrri' er illa spillt! Af illum girndum hjartað tryllt! Svik

mig blygða sjónhverfinga, Er sárlega hjartað náðu þyngja.

8. Metnaður, holds lyst, heimsins glaumur! Holds og augna glys og tál; þig, heims lysta' og lasta draumur! Laust nú segir við mín sál; Kom, mèr líkna, minn Jesú! Mitt hrœr hjarta' og grœð mig nú; Önd mín svo þig upp frá þessu Sem œðstu velji heill og blessun.

9. Lát mig hatur girndum gjalda, Er glapin heimsbörn villa hèr, En við krossinn einn mèr halda, Er þig, Jesú, heill mín! ber, Hvar blóð þitt dýra' og bitur pín Bœtir fullu sektir mín; Þín af alúð lát mig leita, En lastavana' og girnd afneita.

10. Þèr skal, minnar ástvin andar! Æfistund mín hèðan í frá Einum gefin öll til handa, Ekkert lát því raskað fá! Þigg í náð fórn þessa' af mèr! Þá mitt veðhlaup endast fer, Ástar faðmi um vef þínum Önd að fullu leysta' af pínum.

## Nr. 53.
### Móti iðrunar undandrætti.

Lagið: Af djúpri hryggð ákalla' eg þig.

Æ! viltu skjóta enn á frest Iðran, sem guð til hvetur? Hans orð þú smáir með því mest; Minnst sjálfs þíns heillir metur; Er iðranin ei þín andar heill? Augnablik hver forsóma vill Heill þá, er hlotið getur?

2. En hversu torvelt metast má Mót eigin hjarta' að stríða! Ginning kefja, mót girndum stá? Get eg, það víst má svíða. Já, syndari! en að sannri ró Sú leið er einust þinni þó; Og henni vilt hafna' og kvíða?

3. Fyrst skipuð af guði' er skylda þín, Skyldir þú henni týna? Mælt hefir hana' hans mildi fín Mjög grannt við krapta þína; Er guð týranni', er af þèr krefst Um fram það, sem þèr veita gefst? Hvað tregðast hlýðni' að sýna?

4. Seg mèr: „hvort guði̅ arður er, Að honum þjónkun tjáir, Og í trú að sem bezt þig ber, Barn hans gott heita fáir?“ Dyggð, er guð bauð þèr, drott-

inn þinn, Þá drýgir þú: hvers er ábatinn? Mun ei heill þín sjálfs, hvað sáir?

5. Þú tregur enn þá undan skerst Ódyggða vegi' að glata; En af því brot eru böl, þèr verst, Bauð þèr guð þau að hata; Þú tregðast dyggða' að elska auð; Einungis guð þó dyggðina bauð, Því hún farsæld þína batar.

6. Guð krapt fram býður góður sinn Þèr, gott svo iðja fáir; Á hann að brúka almáttinn, Að honum hlýðni tjáir? Hann gaf þèr vit, þú hafnar því; Hann sendir þèr sitt orð á ný; En þú það allt forsmáir.

7. Seg ei: „þrátt guði því eg hèt — Hann þekkir bezt mitt sinni — Mig síðar meir, já, sem fyrst get, Slíta frá löstum kynni; Of torvelt verk það er mèr nú“. Eykst ei torveldni daglega sú, Er ögrar í dag önd þinni?

8. Því optar sem þú að hefst, hvað Illt hold og blóð til ginna, Fær þess öflugri fýsn æ stað, Framinn glœp aptur vinna; Ef óvinur guðs ekki nú Í dag

að vera blygðast þú, Þú skeytir því á morgun minna.

9. Er iðran verk, augnablik fá Er lúka megi til hlítar? Kann ei bráð helstund hèðan frá Heimi þig burt að slíta? Mun betrunarósk, þrátt bœnakall, Bölskvíði', er jafnvel skálkum svall, Helgan sönn, er náð fær nýta?

10. Ef sig að hugga andvaralaust Er nóg til sálubóta, Og hels þá gellur grimmdar raust, Gæfu' endurleistra' að njóta; Ef játning snauð: „mig angrar synd", Er nóg, trú með þó fylgi blind: Hœgt er þá sælu' að hljóta.

11. En ef guð krefur hjarta hreint, Helg trú og elska' er prýði; Sè það án þeirra saurugt greint, Sè skylda þín að hlýðir Guði, sem elska þykist þú: Þig máttu sjálfan hræðast nú, Er með deyfð þig og drætti níðir.

12. Trú helgar þig; er hún þitt verk Hvað fjærri, vesall maður! Og þú forsmár guðs anda styrk? Orð hans við skelfst angraður: Guð ofurselur synd-

arann Sinni fráhverfu, er áfram rann Hlaup lasta harðsvíraður.

13. Oss mun hvort Kristur endurleyst, Að óhultir syndga kynnum; Andvaralausir offri' hans treyst, Enn verri glœpum sinnum? Krists væri' á guði' ei kenning byggð, Nema kenndi skyldu, rètt og dyggð; Sèr mótsegja sízt guð finnum.

14. Strax í dag, meðan líf er lènt, Lát sjá, þig strax til reiðir; Náðarraust meðan heyrist hent, Af hjarta frá illu sneiðir; Bjóð guði faðm, svo brigzlis pín, Að boðna smáð hafir gæfu þín, Sárkvalinn ei eilífð eyðir.

15. Sjálfum þèr vinna sigur á Set þèr nú fast í lyndi; Þó torsóttur sè sigur sá, Samt fœrir guðlegt yndi; Tregt þó fyrst veiti, tapa' ei hug! Trúr er guð nær, hans orð ljær dug; Herkinn ver! hugleysi hrindir!

16. Kalla hann geð með auðmjúkt á; Hann upp gefur breytni ranga; Og láti' hann fyrst þig lemja' og slá Síns lögmáls bölvan stranga: Gegn honum ei

brjózt, því guðleg hryggð Gott fær apturhvarf verkað og dyggð, Er þig síðan mun aldrei angra.

17. Hversu sem lösturinn inndæll er, Aldrei frið kann þó fœra; dyggðinni einni drottinn lèr Það dýrsta hnoss þèr fœra; Sá hyllist guð, kaus hlutfall bezt. Hinn, sem guð yfirgefur, verst Sína velferð sjálfs mun særa.

18. Iðran þig leiðir eigi inn Í veröld fulla kvala; Hún fót til gleði greiðir þinn; Guð kýs þèr auðnu fala; Iðran hrein skilning eykur, hug, Til allrar skyldu lèr vit og dug; Önd hreinsar, öruggt hugsvalar.

19. Seg mèr, hvort gæfa engin er, Að frið' samvizku meður Heims nýtur gœða' og lífs það lèr Lán guð, með hófi þig gleður? Og guðs að boði vel því ver, Í von og trú strax nýtur hèr Sælu', er þig eilíf seður?

## Nr. 54.

### Vöknuð samvizka.

Lagið: Jesú! þínar opnu undir.

Samvizkan þess krefst með kvíða: „Kjör þitt loksins stöðugt ger;" Ó hvað lèt eg ár mörg líða Ónotuð til heilla mèr? Ef hnossinu' eg enn vil ná, Ei má eg lengur dorska þá; Eitt forsómað augnablikið Af mèr situr, hamlar mikið.

2. Þig, minn guð! hve þekkja' eg kynni, Og þó mig ætlan blekkja sú, Að til hjálpar öndu minni Umbótarlaus nægi trú! Vissi' eg ei, að hans vilja þann Veit, en gá hans þó ei vann, Fyrir sinn á dómsins degi Drottinn Jesús þekkir eigi?

3. Samt við girnda svika blundinn Sinnulaus með værð eg lá; Lífs dýrmæta', en stutta stundin Strauk mèr, sem í draumi, frá! Særð ef ógnum sínum með Samvizkan mig vekja rèð, Kvað eg: „Jesú kross mèr dauði Kvittun vann og sátt af guði."

4. Ó mig svikinn! eg má finna, Sem örskot flogið burt frá mèr Til engis

bezt tóm æfi minnar! Enn hinn sami og fyr eg er! Enn mín girnd mörg ótamin! Yl guðs elsku' enn lítt eg finn Hjartað verma! ó hversu fjærri Eg heill enn stend, en voða nærri.

5. Flýt þèr, sál mín! frelsi' að vinna; Finn til voðans, lengur við Þín brot dylst ei! Þèr líkn inna Og þolinmæði drottinn bið! Krjúp honum bljúgur iðran í; Aptur ei framar syndga' á ný! Iðrunar kostgæf ávöxt færa, Umbót, helgun guði kæra!

6. Grátbeiðni rödd, guð! heyr minnar, Gakk þú eigi' í dóm við mig! Í ógn ei burt hrind bræði þinnar; Með blíðri sýn mèr ásján þig! Áform hef það einsett eg, Með alúð keppa dyggða veg; Sannleiks merki mín skal bera, Meir en yfirskin trú vera.

## Nr. 55.

Iðrandi mannsbænarsálmur (sbr. s. Davíðs 51.).

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

O guð biðlundar og þolgæðis! Eptir líkn þinni náð mèr tjá! Bljúgt hugga

geð, er brot sín hræðist, Blíðri af miskun sekt af má; Sál mína þvo, af syndum kvitt Svo verði', er hjarta flekka mitt!

2. Sjá, þú alskyggni! syndum mínum Sízt vil eg leyna fyrir þèr! Þúngbær sekt hug minn þjáir pínum, Þín rèttvís hegning blöskrar mèr; Öndverð hugsjónum afbrot stá Of mörg og grátleg skyldu frá!

3. Æ! þèr syndgaði' eg einum móti, Illa breytti, minn guð! fyr' þèr; Bölvun þó lög þín brotum hóti, Og blöskri forþènt hegning mèr, Veit eg, nær hönd þín hegning vann, Hvergi þinn dómur lastast kann.

4. Ótti mig beygir allt til jarðar, Angra sárt glœpa skœðust völd! Önd mína hress, guð! angurmarða, Er brota makleg skelfa gjöld! Byrg þitt andlit frá brotum mín, Blíði faðir! í dómi þín!

5. Skapa þú í mèr hreinan huga, Hjarta stöðugt mèr rótfest hjá! Að trúr þá dyggðar velji eg vega, Er villtist tældur burtu frá! Og þó eg hrasi', úr

augsýn þèr Útskúfa þó ei, drottinn! mèr!

6. Hve hægt af braut er boðnu reikað! Hve brátt eg frá þèr villast má! Þinn anda náðar og sannleika Andann tak, drottinn! mèr ei frá! Hann veiti aðstoð veikum mèr Og verki', að trúr sè, guð minn! þèr!

7. Orku í trúar auk mèr stríði! Endurnær mig í neyð og þraut! Mig efli máttar andinn blíði, Að glaðvær feti setta braut, Og mikli' um eilífð miskun þá, Mèr sem brotlegum sýndir á.

## Nr. 56.

### Hryggilegt ofríki dátt elskaðra synda og vondra vana.

Lagið: Rís upp, mín sál! og bregð nú blundi.

Æ! aptur eg svo djúpt er dottinn! Eg dári, ráði' og vilja með! Með vilja fallinn! væg mèr drottinn! Vart kann ske hinzta sinn nú skeð! Syndari vesall eg sem er, Í afgrunn hvert brátt steypi mèr!

2. Höfuðsynd, er eg of dátt unni,

Ill venja, hennar fýsn mjög háð! Innra manns finn eg œða' í grunni Illfýsi þína' og völdin bráð, Ofríki þitt yfir aumum mèr Ógurlegt hversu' og taumlaust er!

3. Lengi samvizkan við nam vara: „Vakta þig! guði' ei móti rís! Fölsuðum þèr, ef fjötrar snara Fylgsna þig illra', er glötun vís! Heims gæfu bæði og himins má Í hasti ræna synd þèr frá“.

4. Áform eg það hve opt nam fanga: „Eg mína synd vil forðast nú! Flekklaus, hreinn, algjör fram að ganga, Falslaus viðleitni skal mín sú!“ Hvað þrátt, ó guð! mín bœn þig bað, Að býttir mèr styrk að efna það!

5. Á ný synd brátt mèr árás veitir; Ó hvað mótvörn strax veika' hún fann! Hún geðjast fór mèr; höppum heitir, Hertók mig þegar og yfirvann; Yndið hvarf, í því eg þess naut, Andstyggð og leiði fylgja hlaut.

6. Ósigur beið eg enn eitt sinni, Áður vart svo djúpt varð mitt fall! Enn var mèr áform mitt í minni; Mitt hjarta sló,

samvizkan gall; Guð, dómari! eg þenkti' á þig, Og þó grátlega forsá mig!

7. „Guð mun það straffa“, svo við sjálfan Sagði' eg mig; glœpinn vann eg þó; Yfir mèr sjálfum eg nam skjálfa; Efsta dóms blöskur geð mitt sló; „Finnst nokkur jafnstór, sem mín synd!“ Sagði' eg; allt kraptlaust hvarf í vind.

8. Ó taumlaus, hóflaus elskan synda! Eg hve nær mun þèr losast frá, Og ofríki þínu af mèr hrinda, Í mèr girnd þína sigrað fá? Guð miskunari'! heyr minn grát á! Mót henni betur kenn mèr stá!

9. Fengi' eg þig elskað, eins og skyldi, Öll flýði synda lyst mèr frá; Fýsn hennar mín þó freista vildi, Fengi mèr ekkert grandað þá: En eldur sannrar elsku' á þèr Út rýmdi' og dræpi hana' í mèr.

10. Inn rœt þá sanna' í öndu mína Elsku til þín og gleði' af þèr; Hvað hugsa' eg, út vel, að hefst, sýna Allt láttu vott, að kær sèrt mèr! Mín iðn, mín heill, mitt hrós sè það, Hyllast þig æ, sem eign þín, að.

11. Eg mun þá loksins yfirvinna. yfir girndum mín drottnað fá, Og uppgjöf brota allra sinna, Enn þótt mörg sèu' og stór, þèr hjá. Hegðan mín hèr, lof himnum á, Hæsta þèr, faðir! þökk skal tjá.

## Nr. 57.

### Barátta gegn syndinni.

Lagið: Sæll dagur sá.

Eg tilbið þig í dupti' óendanlegi! Drottinn! við mig í dóm, orminn, gakk eigi! Herra rèttvís og heilagur þú ert! En hvað er eg ætt minni breyzkri meður! Sekur straffs mjög, sem allir vorir feður; Boð brutum þvert.

2. Helgun ef sèr hjarta mitt stunda kjöri, Tregt hold hve mèr torvelda betrun gjörir; Hègómans í hneppa vill þrældóm inn Moldin með sèr minn anda', er hærra stundar, Æ lyst í mèr yfirgnæfa til syndar Því freka' eg finn.

3. Í stríði' eg hèr stend við girnd mína illa; En svikult ber í brjósti hjarta', er villa Opt rèð mig, í ugg-

leysi dyllar mèr; Fljótt varð í því, sem firrast vildi, sekur, Of seint mèr í ótta samvizkan vekur Og brigzl fram ber.

4. „Guð", hugsa' eg þá, „glöggt sá það, rètt hann dœmir; Illvirkjum á illverk að straffist, sœmir; Þú fær ei þann flúið dóm; öll mín bein Titra þíns við tærandi straffelds kvíða! Nú synda' eg sið sárt hata', er af má bíða Megn straffsins mein.

5. Æ! ef eg synd elsku' af þakklátri hata Næði, þá mynd nær væri' eg heilags bata, Sigur mèr yfir synd vissari þá! Þó ill girnd sèr í mínu hreifði brjósti, Hrein elska' á þèr henni með verðum þjósti Frá vísað fá.

6. Kærleikans guð! kenn mèr þig elska' af hjarta! Allt að sèr geð ást þín mitt dragi bjarta! Guð, faðir minn! faðir Krists Jesú míns! Synd hata kenn af kvíða, þinni' að týna Ást, njóti' að enn, ástundun mesta sýna, Æ þokka þíns.

7. Ei ótti', en ást er illra girnda dauði; Þræll geð með þrást þenkir hinn

kærleikssnauði Til þíns boðorðs, titrar, samt fremur brot; Hann hirting fær, hann syndgar ei að síður; Synd flýr mèr fjær, ef fæ eg, guð minn blíður! Gjörzt barn þitt gott.

8. Verð engis þá veröld með girndum sínum Verður mèr hjá; vendist að þèr og þínum Himni girnd öll míns hjarta; unan mín Mest verður þig og þinn aðhyllast vilja; Tál ekkert mig tæla kann, nè við skilja Þig og ást þín'.

9. Kvíðalaust þá með kæti' eg renni huga Þig, minn guð! á; þína mèr líkn volduga Eg vísa veit; veit, öll að mín er sekt Hulin af þèr himneskri föðurblíðu; En leystum mèr líf hjá þèr geymt á síðan Œðst, eilíflegt.

## Nr. 58.

### Trú á evangelíum.

Lagið: Nú kom heiðinna hjálparráð.

Guð, vor guð! hversu vegsamlig Verður þín dýrð, þeim nefna þig Fyrir Jesúm Krist föður kann, Og frelsara' af hjarta þekkir hann!

2. Lífsskeið sitt fetar lastvar sá, Lotning í anda veit þèr tjá; Það eina trúir og iðjar hann, Er satt og gott og rèttvíst fann.

3. Lát þínu' allt mannkyn láði á Lotningu nafni' og kenning tjá! Hvert hjarta', í brjósti' er hrœrir sig, Heiðri' í anda' og sannleika þig.

4. Ráð þitt, sem verður, varst og ert, Verði heims þjóðum öllum bert! Að sè Jesús, hvern sendir heim, Sannleikur, líf og vegur þeim.

5. Boð hans halda, sem bezt æ kann, Byrjar hverjum, þeim trúir á hann; Veðhlaupi sá ei villist á, Verður fyrir trú hólpinn þá.

6. Kenn oss þá, þitt sem þekkjum ráð, Þinna' æ hlýðnum fá boða gáð! Unn oss ljós og krapt orðs þíns við Eflast í trúnni' og dyggða sið.

7. Braut allra' upp ljómi birta gæf! Blinda villu með sannleik kæf! Úr brjóstum lasta elsku eyð, Illa girnd hverja tem og deyð.

8. Þín kristni helgað þitt fær blíð

þann veg nafn hèr á reynslu tíð; Hún er þá og verður eign þín kær, Af hennar verkum dýrð þú fær.

9. Síðar stól þínum sett hún hjá Sœmist launum, þeim orð ei tjá; Af henni nafn þitt helgast má, Sem hèr í tíma', um eilífð þá.

## Nr. 59.

Stöðuglyndi í trúnni á Jesúm.

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Ó guðs son! gœzku þinnar Gnægð eg, sem reyndi' á mèr, Ætti' eg enn synd að sinna? Svikull frá víkja þèr? Heims lyst mig aptur ata, er eg þó lærði' að smá? En þinnar elsku glata Inndælum smekk mèr frá?

2. Eg nam þó hjá þèr einum, Ó Jesú! finna ró; Bót öllum mínum meinum Miskun þín trúföst bjó; Ætti' eg aptur þíns dauða Enn missa notin sæl? Helg boð þín hata'? hins snauða Heims aptur líkjast þræl?

3. Nei! kristinn vera' og verða, Við þitt orð halda' eg kýs; Trú minni fári

forða, Flærð gegn og makt þá rís Mèr, tryggðir trúr að geymi Tæla' ei skal veröld frá, Enn þó tryggð aðrir gleymi Og óvild mig leggi á.

4. Kann mæddum megn hún veita? Mèr hjálpráð vísa á? Sátt við guð syndurum heita, Sem þú? ró, huggun fá Harmþrungnum? fulltraust færa, Fölt þó lík hel hafi gist, Að hans megi' og heimvon næra Himins um dýrðarvist?

5. Má hún, þá drottinn dæmir Dróttir heims, veita frið? Er dyggð hann umbun sæmir, En ódyggð rjúfast grið; Of seint af svefni' er vaknar Syndarans prettvís ró, Svölunar af þeim saknar Sannleik, er fyr að hló.

6. Æ! hvert óvit, ef ginna Enn þá heim lèti mig! Er nam guðs náðar finna Not, Jesú! fyrir þig! Eg, sem veit, á hvers byggi Orði von mína' og trú, Að líkn og líf víst þiggi Loks af þèr, minn Jesú!

7. Ei skal líf, eigi dauði, Ei sorg nè kæti fá Mig skilið mínum guði, Mínum lausnara frá! Synd, heim, hègómlegt

sinni, Holds girnda völdin flá, Allt, drottinn! ást með þinni Eg meir en sigra má.

## Nr. 60.

### Djörfung trúarinnar.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Þegið vafar þrungnir kvíða! Þegið! trúr er lausnari minn! Orð hans helg mèr votta víða, Hann virði mig sem bróður sinn; Vítis bál ei blöskrar mèr; Brjóst mitt fordœma' ef mig fer, Vottorð hans má stöðugt standa, Stríð örvænting mèr ei granda.

2. Hann, sem hjartans huld sèr leyni, Hann mig þekkir, einn veit bezt, Hvað harða sál mín hrelling reynir, Í hvert það sinn mèr yfir sèst; Hvað hjarta brennur þetta' af þrá, Að þann einn mætti aðhyllzt fá, Mína trú sem mun á líta, En míns ei vafa rugl fánýta.

3. Þann guð sjálfur sèr út valdi, Sök hver á nú fella kann? Sonur guðs hvern með sínum taldi, Sekja hver nú dirfist þann? Hèr er guð; um við heljar ranns

Eg hælist völd í skjóli hans! Þræll þó eg sè syndum sekur, Samt mèr guð af náð við tekur.

4. Sinn mèr vann hann son að gefa, Sem fyrir trúna nú er minn; Eg veit fyr' hann eg mun lifa; Andar eg heill á síðan finn; Guð mig stól frá sínum sá, Í sonarins frelsi hlut lèt fá, Fyr en hans alvoldugt verði Veröld og mig skapa gerði.

5. Dýru guð minn vann mig verði; Vel sè mèr! Jesús er hèr! Líka fyr' mig lífi' hann tærði, Líka' upprisinn fyr' mig er; Á hœgra veg guði hann um sèr Hag minn og mig öflugur ver; Fyr' mèr biður, burt ei fleygir, Við böl allt frjáls svo honum deyi.

6. Óveður þó dimm á drífi, Dökk þó nótt um kringi hèr, Mèr samt drottinn minn guð hlífir! Mína heill trúfastur ver; Ást hans megnar myrkur svört Mig í gegnum leiða' í björt Býli ljóss, þó lengi' eg líði lífsins þrautir; engu' eg kvíði.

7. Veit eg, að geð þess gulli hamp-

ar Ginnist hægt til ágirndar; Með sín' blinda metorð glampa; Munaður tálagn sætt fram bar; Hamingju slóðin hál er þrátt; Hylli stórra smjaðrar dátt; Drambsamt hól frá guði má ginna, Gis þó sárt og spott ei minna.

8. Samt eg mæli' um: sorg nè gleði, Sízt líf nè deyð, hól nè spè Mun fá skilið mig frá guði; Máttkur er hann, þótt veikur eg sè; Blossi' óvina heiptar hvass, Hylli stórra, vina kjass, Allt tryggð minni ekkert breytir; Elska guðs mèr fullting veitir.

9. Enn þótt freisting alla vega Um sitji mig jafnan hætt; Þó byltist tímar breytilega; Brjóst mitt sjálfs þó fái mig grætt: Ei þung hjartans efamál, Álas, djöfull, vítis bál, Spottara gis nè gabbið svarta, Guðs kann frá mèr snúa hjarta.

10. Höfði eg gjöri' upp glaður lypta Og geymi stöðugt mína trú; Von þeirri hver vill mig svipta, Þó verði' eg öllu sviptur nú, Kvíða' og vafa' er kraptlaus fleinn! Krists em eg Jesú lærisveinn!

Nóg er: mín til man án efa, Mèr sá rèð sinn son að gefa.

## Nr. 61.

### Huggun af fyrirgefningu syndanna.

Lagið: Eilíft lífið er æskilegt.

Hvað voldugt mæla' í minni sál, Minn guð! ástúðleg þín Og lífs til kröptug líknarmál, Að lítir þú til mín, Þá eg hèr hrasa, miskun með, Mèr bistur reiðist sízt, En tjáir föður-ástar geð Og þolinmæði víst; Hressir sem vinur huga minn, Helgan mèr anda sendir þinn, Er stjórni mèr, sè styrkur minn Og stoð, er ei þreytist á Veginn mèr á að vísa þinn, Þó villist þrátt honum frá, Og handleiði mig, svo heitinn inn Í himin kunni' að ná.

2. Miskunari! þú mildi tèr Mjúka' allri skepnu þín; Guð minn af kærleik auðugur er Við alla veröld sín! Hvers gæzku auðug á sèr spor Einast hvert duptkorn ber! Fjærri sè mèr það fíflsku þor, Frekt gegn að brjótast þèr! Sízt eg gleyma með vanþökk vil, Því vannstu mèr hjálpræðis

til. Æ! skyldi' eg glœpa vinna völd Viljandi móti þèr! Þèr mót, hvers miskun þúsundföld Þó brot upp gefur mèr, Og lèt til þess mín glœpa gjöld Guðs son út taka' á sèr!

3. Skyldi' eg með styggðum stríða þèr, Sem stakri' af kærleiks dáð Þín helg og blessuð boð gafst mèr, Bezt þeirra' að lèti gáð! Vildir þó, eins og velgjörð þèr Veitta, mèr launa' af náð Trúlyndi mitt, er minnar hèr Minnstu lèt skyldu gáð; Í stað þess dóm ganga strangan í, Styrkir mitt hjarta' og gleður á ný! Andar er líf að þjóna þèr, Þèr hlýða sæla mest; Sem barnið föður fyrir hèr Fús græt eg þá minn brest, Og voga' uppgjafar vænta mèr Og vægðar, þá yfirsèst,

4. Glöggt finn eg, minnsta mitt ei brot Menn bœtt nè englar fá; Jesúm Krist — sæl því sanna' eg not — Son guðs, að lausnara' á; Þann fyrir heilan heim mèr frá Háleita þanka' ei gef; Völd heims byltast, veröld forgá, Sem vill, má; öflga' eg hef Vissu: sannleiks

orð stöðugt stár! Steypi glötunar þó í fár Með synda lyst sèr syndarinn, Er síðan titra má; Guð, þó heims hristi grundvöllinn, Gjörir mèr kvíða' ei fá; Hans em eg barn, því blessun finn Í byggð hans Jesú hjá.

## Nr. 62.

### Huggun hins angraða kristna.

Lagið: Heyr mig, Jesú! læknir lýða.

Þú sárt kveinar þungu' í stríði; Þitt andvarp opt stynja má, Að glaðværðar andinn blíði Aumum þèr sè vikinn frá; Þú hrópar, drottinn! hversu lengi? Herran tefur, böl þig strengir; Þú kvíðir, angrast af því bert, Að yfirgefinn af guði sèrt.

2. Sèu' uppgefnar syndir mínar, Sekur ef eg hjálpráð fann, Og líf fyrir míns lausnara pínu, Laus við þeirra vólegt bann: Hvar er hans anda holl þá dáðin? Hví finn eg ei til, að hans náðin Glœði hjá mèr elsku yl, Og öruggt traust og von hans til?

3. Hjartað mœdda' og þunga þjáða

þrátt, segir þú, heyra vann Huggun orði hans af náðar; En huggun þá ei finna kann; Bitinn er eg frá bœn að iðja, Bœn mína trú kann engin styðja; Til guðs eg hugsa', en birtu' ei ber Bœn köld nè sá þanki mèr!

4. Annars mitt af öllu hjarta Var yndi' að gæta vilja hans! Orð hans vissu eg fann bjarta, Upprás hreina sannleikans; Mína önd nú myrkur hylja; Mínu hjarta' ei vinnst að skilja Orð hans; krapt eg allan minn Yfirgefa mig nú finn.

5. Opt finn eg sárt til efans tæpa, Ónáðað sem hjartað fær; Af sálar minnar óró œpa Opt hlýt, mín þó hjálp er fjær; Leita' að ró, en fæ ei fundið; Finn í hjarta syndar undir, Þar sem býr, og ógeð eitt, Af ótta' ei sönnum drottins neitt.

6. Kristinn maður! örvænt eigi, Angur þitt þèr vitni ber, Þitt hjarta' á betra víst sè vegi, En vera hrelldum sýnist þèr; Hve má ske, þig helzt það græti, Af hjarta' að guð ei elskað gætir,

Utan fasta' hans ástin heit Ætti rót í hjartans reit?

7. Þekkja engin guð nè gefna Gœzku' hans kann og föðurnáð, Jesúm drottin neinn ei nefna, nema' af heilags anda dáð; Hefirðu anda' ei þenna þegið? Það er hann, sem geð þitt hneigir, Líknar guði' að leita hjá, Og láta þig eptir honum þrá.

8. Fulltreyst guði! fús byggð sína Festir hann hjá, þeim lið hans þrá; Gæfu' hann vill og þekkir þína, Þèr með miskun er hann hjá. Hreim grátbeiðni' hann heyrir þinnar, Þó hylji' hann sitt um reiði sinnar Andlit lítið augnablik; Ekkert fái trú þín hik!

9. Mildur guð lèt marga fróma Mœðu þunga reyna þá, Í þenna eymda ofn að koma, en þeim stóð voldugur hjá; Hèr átt læra þú að þekkja Þitt ekkert, og svikulu hnekkja Trausti' á þèr, og þar með sjá, Þíns hvað guðs er náðin há.

10. Við uggleysi' að vel þín gætir, Vissi náð hans föðurlig Betra, hart að brúka atlæti Og byrði þessa leggja' á

þig; Eins og gull í eldi skíra Önd vill þína', að metir dýra Hennar heill, svo haldir þú Hnossi því, sem áttu nú.

11. Eins og fús að bjarga' er blíður Barni faðir, er heitast ann; Syndurum líknar svo guð þýður, Sem af hjarta óttast hann; Leynt þitt andvarp er honum eigi; Eins og sólar risið vegi Kveldsins áttar fjærri fer, Fjærri lætur hann syndir þèr.

12. Þú að sönnu' um huggun hryggur Hrópar og angurbitinn nú, Öll því typtan á meðan liggur, Engin gleði' oss þykir sú; Hún eptir á dyggðar dýrrar Og dagvaxandi sælu nýrrar Þeim, sem æfður þar með varð, Þó gefur friðsaman arð.

13. Vel fram halt að vaka' og biðja; Voldugan sig í breyzkum tèr Guð vor enn, hvers gjörvöll iðja Gœzka' og miskun eilíf er; Lát hans náð þèr nœgja ljúfast! Nýt hans orð ei kunna' að rjúfast: „Eg þig styrki'; eg lið þèr ljæ“. Líknarorð þau sannast æ.

14. Hress þitt geð í þrautum þínum;

„Þó að jafnvel deyði mig, Herann,“ seg þú, “í hörmum mínum, Á hann skal von mín stöðuglig! Eg á arfleifð endurleystra; Eg vil til þess guði treysta: Þó gráts um heim eg gangi stig, Gleðji’ hann þó í dauða mig“.

---

## VII.

## Ávextir trúarinnar í kristilegu líferni.

---

### Nr. 63.

Hugarfar, sem trúin verkar.

Lagið: Faðir vor! sem á himnum ert.

Æ kenn þú, guð mèr góði minn! Gjöra það, sem er vilji þinn! Efl mèr trúlyndi og alúð hjá, Í öllu þíns vilja fús að gá; Auk lyst og krapt æ meiri mèr, Mèr svo hegða sem kristnum ber.

2. Þú gæfu mína, guð minn! vilt; Gott þá að hefst, sem mèr er skylt, Fögnuð eg sálar finn og ró Fylgja, sem

strax hèr undir bjó; Síðar meir eilíf umbun er Í betra heimi vís hjá þèr.

3. Veit mèr þá, um fram allt að þig Elski, já meir en sjálfan mig; Óhlýðni' og straffs sekt aldrei með Ástríkt þitt hrelli föðurgeð! Lát auga þitt, sem allt grannt sèr Allt eins í dimmu', æ fylgja mèr.

4. Um þegar brjótast innra' í mèr Ill girnd míns spillta hjarta fer, Styrk mig, innvortis óspekt þá Með elsku þinni kæft að fá; Efli mig hjálp þín, er eg nýt; Eg þá veglegan sigur hlýt!

5. Æ lát kappkosta öndu mín Af jörð að lypta sèr til þín! Og farsæld meta œðstu mèr, Að hèr á jörð líkzt fái þèr! Unaðsemd sè það œðsta mín, Æ til himins að muna' og þín!

6. Þèr lát mitt trúar athvarf á Og örugga von jafnan stá! Engin hefir sú mœða mœtt Mèr til þessa', að þú hafir ei bœtt; Þín leiddi gœzka' á þrauta stig, Að því meir síðan gleddi mig.

7. Hvað er heims mœða mörg og hörð! Mótkast og böl hið þyngsta á

jörð, Það hvað er dýrðar þeirrar hjá Þyngd eilífri, sem vænta' eg má? Frá böli snart mig flytur hel, Að fái mèr liðið um eilífð vel.

## Nr. 64.

Sæluhagur hins sannkristna.

Lagið: Gæzkuríkasti græðari minn.

Míns lífs rósemi mín er trú, Mig leiðir til þíns himins sú, Ó þú, á hvern eg trúi, Minn Jesú! krapta mèr veit þá, Mannkynsins þeirri huggun frá Önd minni að ekkert snúi; Djúpt inn Í minn Huga rœt, hvað heill sè mæt, í heimi' að megi Sannkristinn lifa', og svo burt deyi.

2. Þú hefir sekri Adams ætt Upprisu með og dauða bœtt Eignarvon eilífðar þinnar; Nú em eg ein ei aska og jörð, Eilíft herfang ei grafar verð; Með deyð líf mèr rèðst vinna. En mèr Af þèr Endurleystum, eg því treysti', er ávinningur Helför þess líkams, hvern hel einn stingur.

3. Eg kristinn, endurleystur er, Í brjósti

rósamt hjarta ber, Þessa lífs þrautum gleymi; Líð það fús, sem eg líða á; Læt þá huggun mèr vaka hjá: „Til engis ei líð andstreymi“. Mitt hèr Mælt er Hlutfall mildi' að mestrar vild; hèr mig skammvinna Þraut lætur, eilífa þar ró finna.

4. Ó hvað eruð lífs þessa þèr Þrautir, með rósemd mót þá sèr Önd mín glöð eilífð minni? Brátt mig guð kallar; búin er Bezt hugsvölun og umbun mèr, Sem ást og trú honum inni; En fljótt Allskjótt Lífsböls hverfur harma skerfur; himins bjarta Fögnuð að smakka fær mitt hjarta.

5. Vangætinn mjög og veikur eg Vammafullt þó ei lengur dreg Ok synda' um æfitíðir; Að iðka dyggð er inndælt mèr, Ávant þó næsta finn það hèr Sè, er skal verða' um síðir; Minn hug Máttug Sú huggun gleður: „guðs í geði' er gnœgð langlundar; Hann sekum vægð sèr, hegna' ei skundar“.

6. Þú, minn lausnari! þreifst mig út Úr þeirri', er í lá, kvíða sút, Þá dauð-

ann vannst mín vegna; Þèr á eg mína að þakka ró, Þín kvöl önd minni lækning bjó. Samvizku sár ei megna Mèr frá Frið hrjá; Minn þótt hrasi' á veðhlaups vasi veikur kraptur; Rík þín mig aðstoð við rèttir aptur.

7. Lof guði, kristinn að eg er! Ei hans sannleiki' og náð á mèr Eru til engis vorðin, Í minni helgun fram mèr fer; Finn eg, að dag hvern betrast er Mitt hjarta' og mitt framferði. Eg hans Andans Finn af krapti eðli aptur endurfengið, Nýtt líf, mann nýjan guði' handgenginn.

8. Þökk og prís, faðir! færi' eg þèr, Frelsarans lærdóm þú sem mèr Að trúa og iðka kenndir! Þèr guð, fræðari! þökk sè heit, Það eg hann elska nú, og veit, Að elska mun lífs að endi! Æðst dýrð Æ skýrð Verði þèr og þökk af mèr! já þökk margfalda Hèðan í frá og um aldir alda.

## Nr. 65.

### Friðuð samvizka.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Heims fráskilinn harki' eg smakka Hollan samvizkunnar frið Og fögnuð, sem þèr, faðir! eg þakka, Að fá þig hèr sameinast við! Undir fótum sál mín sèr Synda veröld hverfa mèr; Hins lífs gœði, geymd mèr handa, Gleði minn drykkja sælan anda.

2. Agnið girnda', ó guð! hvað vinna Á geð háleitt hins kristna má? Skyldi' hann glaum eða glysi sinna, Eða gremjast lífs við stutta þrá, Nær hann lítur laun þín á, Lukku' eilífa veitt er fá, Og þann krans honum englar flètta, Íhugar, hvað sè dýrmætt þetta?

3. Fast að mèr þó hörmung herði, Huggun guðs mig skjóli ver; Eymda lífs stutt er vegferðin, Eilífð náð sem launar mèr; Stjórn guðs tigna traust skal geð Tárum gleði stilltum með, Bikar mœðu mældan súpa, Við mögl ei sökkva' í hryggð of djúpa.

4. Lausnari! mesta með þolgœði

Manna þrautir sjálfur barst! Þreyttir hels við þyngst kvalræði, Þúsund fjölda böli skarst; Þá máttlaus titra mín hönd fer, Máttur þinn krapt efli mèr! Hönd þín sigur hjálpi' að vinna Og heit af þerra tárin kinna.

## Nr. 66.

### Einka-umhyggja kristins manns.

Lagið: Kom, Skapari heilagi andi.

Uppheims er settir hæst á hæð Hástól þinn, eilíf vera! mig, Bör jarðar, heyrslu bœnar gœð, Er ber eg úr dupti fram fyr' þig.

2. Þú skópst mig dupt og dupti' í tè Dáð lèzt, til engils lypta sèr; Svo fengur hèr þótt fúans sè, Fái þar lifa' um eilífð þèr.

3. Kenn mèr, faðir! þá miklu mennt, Minni eilífu gæfu' að ná; Lát krapt mèr vit og vilja lènt, Að vinna mèr sjálfum sigur á.

4. Mèr kenn samvizku minnar góð Meta boð jafnt sem himininn, Og var-

ast fremur vítis glóð það vonda', er hana banna finn.

5. Gjör viðkvæmt þetta hjarta hart, Hve nær sem bræður líða sè; Eymd og böl, sem minn óvin snart, Aldrei að sjá mèr skemmtan sè!

6. Lát mig of djarfa, herra! í hönd Hvergi taka þín reiðarslög, Nè vísa þeim í vítis grönd, er vantar þekking á þèr mjög.

7. Í sæld auðmjúkt, þraut öruggt geð, Eitt er það, guð minn! sem eg kýs; Það eitt verði', er gott þú fær sèð! Þín vild, skapari'! er góð og vís.

8. Beztri með iðni' og blessun þín Brauðs lát mig daglegs aflað fá! Ráðvandur lifa mennt sè mín Mesta', og rósamur skiljast frá!

9. Þinn maktar valda' af helgri hirð Hljómar prís; engill lýtur þèr; Sóla her þína syngur dýrð, Samrómar helgra þinna hver.

10. Sæll em eg! andi, eins og þeir, Eins manneskjan þig prísa má! Duptið

þú hófst; þèr dupt því meir, Drottinn! skal lúta' og heiður tjá.

## Nr. 67.

### Afneitun holdlegra og veraldlegra girnda.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Augnablik tímans ei fyr' þessa, Ó guð! líf þetta gafstu mèr; En mig að í eilífð mættir blessa, Mèr er lènt tómstund vistar hèr. Reynslu, æfingar er hèr land, Umbunar þar eða sekta stand.

2. Þú gafst mèr vit og vilja; að megni, Veittir ljós, þekkja sannleikann; Krapt boðum þín mèr gafst að gegni; Glöggvan milliþráð skyldu' eg fann, Tilfinning dyggðar innra' af yl, Og frelsi' að kjósa, sem eg vil.

3. Máttugt þitt „verði“ veg og yndi Vann jarðneskt býli' að skreyta mitt; Skilning meðskópstu mèr, svo fyndi Megin-fegurða safnið þitt, Er útjóst þessa yfir fold, Allt að seðjir og gleðjir hold.

4. Mitt jarðneskt hús að hrynji og

þrjóti, Helg þín kenning af vafa dró; Leyft er mèr heimsins hèr að njóti, En hans sem ekki nyti' eg þó; Fýsnir sansa mèr forðast ber, Ef föstum við jörð þær halda mèr.

5. Opt á eg kæti' að engu skeyta, Inndæl þó hug minn ginni' að sèr; Auðs og metorða' ei einna leita, Á þó vel lítist heimskum mèr; Sem gott það velja opt eg á, er holdi og blóði svíða má.

6. Sú reynsla' er, guð minn! ónýt eigi; Eg hvort sè trúr, þú vildir sjá; Verður lífs betra' að vottast megi, Verður þèr, guð! að búa hjá; Hvort hreinn af grómi hègómans, Hœfur til gleði œðra stands?

7. Því náð þín alvöld nýtt mun hauður Og nýjan himin upp byggt fá; Þeirra' að mèr helgur öðlist auður, Hið ósèða' eg hèr skal líta á, Standa tælingum girnda gegn, Ganga' æ þinn veg sem hollur þegn.

8. Sæll em eg, dýrstu vonar verður Vera, ef hefi' til dáð og þor; Tæpt ef um reynslu tóm vegferðar Trúr helga

guði' og dyggð hvert spor; Og aldrei geng þeim út af stig, Er til lífs betra flytur mig.

9. Sæll em eg, lyst ef synda minna, Svikul heimsins og holdsins vèl, Og ginningar næ yfirvinna, Enn sem mitt fjötra hjartaþel! Hve veglegt hnoss úr býtum bar, Sá beið sigur h è r, krýnist þ a r!

10. Ljá mèr, ó faðir! lið þíns anda! Líkn þín sig öflga' í breyzkum tèr, Mèr, sem til þessa mikla vanda Máttvana, breyzkur, gálaus er; Kenn mèr takmarks míns trúum gá Og táldrægt jarðar glys forsmá.

## Nr. 68.

Kristileg dyggð (Sbr. S. Davíðs 15.)

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Hverjum, drottinn minn! hugsvölun Hlotnast guðs endurleystra mun Þessa lífs eptir stutta stríð? Hver standast mun á efstu tíð, Og hljóta dýrðar heiðurs krans Af höndum endurlausnarans?

2. Sá hèr helgast lèt, syndar ill Sá

við yfirráð losast vill, Og lætur þeim sig leysa frá Með lifandi trú guðs son á, Fyrst hann játar sinn herra, frí Hatar allt illt, sig venur af því;

3. Sá hans kappkostar útbreiða' orð Hjá Adams kyni hèr á jörð; Syndara' upplýsir, orði og dáð Upp örvar, sitt að betri ráð, Og lætur til dœmi leiða sitt, Lausnari! að tignist nafnið þitt;

4. Sá hegðun, bezt sem vissi, vann Vanda, eptir því trúði hann; Sá eins og brœður alla menn Elskar; hallmæla, græta senn Og forsmá brœður forðast vel, Firrist ofhroka' og drambsamt þel;

5. Sá hatar synd, en syndarann Samt þó í brjósti' um kenna vann; Guðs ótta og hans gáfur sá Gjarn er að virða' hans börnum hjá; Sá við guð og menn sœri rèð Sín öll að halda tryggðum með;

6. Sá bróður, auðnu' og hrós er hlaut, Hvergi misann; ef sjálfs í skaut Auður fèll, svangan seðja hann Sèst fús, og nakinn klæða mann; kætist, ef gjöf hans örlát, án Eigingagns, framar brœðra lán;

7. Sá hreint og skírlíft hjartaþel Og hugsun æ sèr tamdi vel; Þó hefjist, dramb og hroka flýr; Hófsemi, góðgirnd yfir býr; Lítillátur, þá lukku naut, Lèt sig öruggan finna' í þraut:

8. Honum guð láta hugsvölun Hlotnast sinna' endurleystra mun Þessa lífs eptir stutta stríð; Standast mun hann á efstu tíð Og hljóta dýrðar heiðurs krans Af höndum endurlausnarans.

## Nr. 69.

### Bardagi dyggðarinnar.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Tregt þitt hjarta tíðum klagar, Hvað torvelt sè guðs þræða slóð; Trúr svo þenkja og hegðun haga Hvern dag, orð sem vísa' hans góð. Að dyggð, er sigra ódyggð á, Ómak kosti, játa má; En dœm sjálfur, hvað dyggðin væri, Ef dyggðinni ei stríða bæri.

2. Er lífs frí af öllum pínum, Sá anar kátur lastabraut? Þessi' af girndum þjakast sínum, Sem þý, og friðar aldrei naut; Sá góði', er temja girndir vann, Grætast

líka tíðum kann; En hryggð og böl, er hann við stríðir, Hlýtur að gleði verða' um síðir.

3. Lastabraut fyrst breið og troðin Um blómstruð engi' að sönnu lá; En fram á leið er fár og voðinn, Með fælu' og nótt sem endast má; Brött fyrst dyggðar brautin er, Böl og mœðu sýnir þèr; En fram á leið hún gang þinn greiðir Til gæfu', og loks til yndis leiðir.

4. Látum, sem guð leyft oss hefði, Þá losti, heipt og öfund ill Bálast frekt, sem fýsn hver krefði, Fullnœgja þeim, sem holdið vill; Látum, sem oss leyfði guð Lygð, mannhatur, ójöfnuð, Vanþökk, háð, er hug má krenkja: Hvað mundirðu' um þann guð þenkja?

5. Guð vill láta' oss gæfu sæta, Gaf hann lög því heilög oss; Þau eru hjartað það sem kæta, Þau eru lífsins dýrsta hnoss; Hann lèt vitið herma' oss það, Hann samvizku tjá oss bað, Hvað vèr velja og varast ættum, Vèr svo farsæld öðlast mættum.

6. Ótti guðs hin œðsta speki, Einast

frelsið veita má; Þó dýrið eðlis aðhald reki, Andarljóss skal maðurinn gá. Hvað er sálar eilíf eign? Œðst hvað sálar heill og tign? Dyggð! hver umbun dyggða' og mæti? Drottni maðurinn líkzt að gæti.

7. Gleð þig við og líka lærðu Ljúft orð drottins og hans ráð! Trúr og fús þèr tem og nœrðu Tilfinning af skyldu' og dáð; Til góðs hver krapta' af guði þá, Við góða brúkun meir skal fá; Hann trúr ei notar, guð hvað gefur, Gjörir hann svipta því, hann hefur.

8. Ei berst þú með eigin krapti; Allt má þèr því lukkast vel; Einn er guð, sem í þèr skapti, Eins að vilja' og geta, þel. Hve nær faðir barni', er bað Um brauð, stein rètti fyrir það? Bið opt; guð ei guð þá hèti, Ef góða' ei fá þig ásjá lèti.

9. Drottinn Jesús fram rèð feta, Fyrirmynd þín á dyggða stig; Anda sælla eiga' að hvetja Eptirdœmi' og styðja þig; Varast, óhlutvandra spè Á vegi þeim þèr tálman sè! Hrós hjá guði' er hrósið sanna; Hól er tíðum fánýtt manna.

10. Hraustur æ ver, þig herkinn laga, Hugsa' um dauðann tamt sè þèr; Stríð æfi svo stuttra daga Við stœrð eilífðar saman ber; Hnoss, sem trú þín horfir á, Hug þèr nýjan auka má, Og ókominnar aldar kraptur Orka', að dáð þín lifni aptur.

11. Loks, minn kristni! örvænt eigi, Þó ætíð þèr ei takist vel! Ný þó veiki brjóst æ beygi, Bezt þá vakir hjartans þel; Guð sèr verknað einn ei á; Á þinn vilja' hann fremur sá; Átt forþènun þú guðlega, Það má hjartans stilla trega.

## Nr. 70.

### Bœnarvers til Krists um sannan vísdóm.

Lagið: Kom skapari, heilagi andi.

Frœð sannri speki, frelsari! mig! Föðursins speki þú ert einn; Vísdóms sá rèttan velur stig, Sem verður þinn trúr lærisveinn.

2. Hve megn sál vora myrkur hrjá! Hvað mennta glys vort fánýtt er! Hver bjarta sannleiks braut fær á Bent? hún er ein að fylgja þèr!

3. Eg flý þá til þín, ljós og leið Lýðum blindum sem vorðinn ert; Fyrir þig birta' er fengin greið; Fótum mínum þú skriðljós sèrt!

4. Guðdómlegt ljós mèr gefðu þitt, Geigvænu myrkri hrind mèr frá! Þinn andi birti upp brjóstið mitt, Og búi mèr um æfi hjá!

5. Játa má eg þó, Jesú minn! Jeg er þess sóma verður sízt! Eg vesall ótal afbrot finn, Er sálu mína flekka víst!

6. En blóð þitt fyr' mig blessað rann Blíði Jesú! þig treysti' eg á; Þín heilög kenning hættri kann Hrinda örvænting mèr í frá.

7. Ávinnings leita' eg eigi mèr, Ei manna hrósið fánýtt kýs; Mætti eg að eins þóknast þèr, þá er hrós gnógt og auður vís.

8. Upp lýs þá sál og upp fyll geð Andar himneskum glæðum þín; Ástgjöfum þínum auðgað með, Utan þú, neinn fær sálu mín.

9. Í þakkarfórn þèr færa' eg vil

Fjör, sálu, vit, hvað orka' og er; því ekkert meira' á maður til, Fyr' mildi þína' að greiða þèr.

## Nr. 71.

### Um sanna speki

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Hver, sem vantar vizku, beiði Vísdóms lind, guð, þá um náð! Hans handleiðsla gang vorn greiðir Og guðdómlegt hans anda ráð! Hver svo til rèð hrópa hans, Að hlyti' ei bœn hans náðugt anns! Og, hvað auðmjúkt um bað, hreppti? Æ hann gefur, telur ei eptir!

2. Gef mèr, faðir feðra minna! Forsjált hjarta' og hlýðið með, Bljúgt sem iðrast synda sinna, Og sonarlegt þèr tjáir geð! Æ! þess hjarta óska' eg mèr, Er elski þig og hlýði þèr, Er þinn sè vilja áfúst iðja; Eitt það vil eg þig um biðja.

3. Holdið niður djúpt sál dregur, Dárliga villugjarnt er mèr! Að tjóni mèr sá verður vegur, Er vel eg mèr, án ljóss frá þèr! Svikulum glampa

glapinn á Gœði fölsk eg kýs mèr þá, Minn nema guð, sem míns lífs gáði, Mínu hollur stjórni ráði.

4. Hollt og gott mèr heimi' í þessum Hvað sè, mjög mèr óljóst er; Auk heldur mèr eilíf blessan Auðnist, nema ljós sèrt mèr! Barn þitt ratar illverk í, Utan þú sjálfur stjórnir því; Þar sjálfs míns vit eg sárt má finna Svikara' opt velferðar minnar!

5. Þessum mikla', ó herra! heimi Hagar, sem vilt, og stjórnar þú; Hvað eitt skeður hans í geimi, Sem hugað og geðfellt þèr er nú; Nær brá sunna sinni' út af Settri rás, er skaparinn gaf? Hvað er, sem strax, er hann rèð bjóða, Hlýðni' ei tjái viljagóða?

6. Þegar hafs þíns œðir ólga Og þú skipar: „kyrrast nú!“ Hverfur þess öll brimfull bólga, Svo brátt sem hönd upp lyptir þú; Illra fýsna ofsi þver, þá œða mèr í brjósti fer, Mun þá bending megn um þinni Mitt órótt að spekja sinni?

7. Æ! ráð lífi öllu mínu! Allt veri

það helgað þèr! Hollu ráði' að hlýðnast þínu Helzt sè stundað æ af mèr! Vitur og hygginn verð eg þá; Vinn, það rètt er, jörðu á; Og verð með þèr sæll um síðir, Svo er allt nóg, eg engu kvíði.

## Nr. 72.

### Bœnarvers um styrk í því góða.

Lagið: Dagsbrúnin dýr upp rennur.

Heyr, faðir! hvers þig beiðir Af hug þitt auma barn! Styrk veit því lífs um leiðir, Leiðtogi náðargjarn! Mig synd opt mjög blindar, Megin hindrar, rígbindur; Bœg lund af veg vondum, Að varist snöru garn!

2. Þú gildrur þekkir allar Þræddar á hættan stig; Opna sjón! að mèr kalla, Að æ sè var um mig! Þín heitin væn veita Von sæta; bœn heitri Þín leita ven vitran, Að veik dáð auki sig.

3. Lífs orð þitt lampi veri Og ljós á stigum mín, Grandvar svo jafnan geri, Guð! hvað boð kenna þín; Þèr hlýðið orð, œði, Arð góðan mèr bjóði; Hýrt bróður hèr þjáðum Hjástoð tjáist brýn.

4. Aðstoð víst á eg vísa, Ef gjöri fús hvað má; Orð þitt því lèztu lýsa, Lifi' eg við huggun þá; Þinn sonur sýnn reynist Sannvinur mannkyni; Hans ben og bœn hreina Bót vann lýtum á.

5. Þó tilfinning brota beygi Og blygðun fylli geð, Örvílnast skal eg eigi; Önd mín sinn túlk fær sèð, Í hæð á hlið föður Hlý bjóða' er rèð gœði; Frí af mœðu, frið, næði Fæ honum hjá og með.

6. Fullefld skal í því góða Önd mín þar prísa þig, Og lof þeim lausnara bjóða, Er leið saklaus fyrir mig; Kvein veiki' af kinn strokið, Kaun sekra meinfreku Hrein lokin; ein eykur Yndisstundin sig.

7. Fyrir styrk veikum veittan Og von, þá orðna' að raun, Þar prís tèr þjón óþreyttan Þèr synda laus við kaun; Fjær tárum forklárast; Fœrir æru þèr skæra, Þèr nær um ár œrin, Minn ástvin bezti' og laun!

## Nr. 73.

### Elskan til guðs.

Lagið: Heyr mig, Jesú! læknir lýða.

Alls góðs, guð! og algjörs lindin! Æ hvað kæran hefi' eg þig! Sælu gnóttum, sálaryndi, Seður hverjum ást þín mig! Hold þó mitt og hjarta þreytist, Hafi' eg þig, eg engu skeyti; Ást þína' eina', ef eignazt get, Œðra' eg himni' og jörðu met.

2. Hversu önd mín upp sèr lyptir, Ó guð! nær eg hugsa' um þig! Upp lífgast, svo að angri sviptist, Af þèr, drottinn! finn eg mig. Sjón til þinna' ef vendi verka, vizku, gœzku, máttar sterka, Hvað það lèttir hjarta frá Hugsorg, kvíða, böli, þrá!

3. Þinna' af fylling guðdóms gœða Gœði ótal streymdu' að mèr; Þú vildir mig tilveru gœða; Þú veldur því: enn til eg er. Þèr mín önd skal þökk fram telja, Það hún hugsa kann og velja; Þèr að fèkk hún þekking á, Og þig sinn föður nefna má.

4. Frá glötun og voða geysi-nauða,

Ó guð! mig kaupa lèzt þinn son; Lèzt saklausan líða dauða; Líflát hans mèr heilla' er von. Hann dó, mèr þá heill á vinna, Með honum eilíft líf að finna, Um eilífð vita' að elskir mig, Um eilífð gleðja mig við þig!

5. Þig, sem fyrri ást mèr inntir, Elska eg ei skyldi' á mót! Með grunnlausri mèr sem sinntir Meir en föðurelsku rót! Er mèr unnt án elsku þinnar Á jörðu hèr rósemd finna? Án hennar við æfiþrot Eilíf sælu þiggja not?

6. Æ! sæll væri' eg, ef til fynda, Elskuvert hvað þitt er geð! Hjarta mitt ef hatri synda, Sem hatar þú, gagntœkist með! Boða þinna' ef grandvar gætti Og geymdi þau af fremsta mætti! Hver blessan síðar biði mín, Ef byrgðir ei fyr' mèr ásján þín!

7. Minn er œrinn elskubrestur! Önd mín við það kannast hèr; Í föðurlandi frómra beztu Fæ eg elskað þig sem ber; Þar mun eg vilja þinn á síðan Þekkt fá gjörla, tigna, hlýða; Og laun algjörðrar elsku þá Öðlast hástól þínum hjá.

## Nr. 74.
### Gleði af guði.

Lagið: Óvinnanleg borg er vor guð.

Mín hlutdeild eilíf minn guð er, Minn leiðtogi' og huggari; Hans endurleystum ljós yfir mèr Og líkn um eilífð varir; Heims dómi' hann hinztum á Hrekur mig ei sèr frá; Líf sælla' hann lætur hlè Mèr láta' og ró í tè, Hèr líka meðan hjari.

2. Eg heimi fjær þèr einum hjá, Þú allrar veru' uppspretta! Nær umgengst, meini' og mæðu frá Mínu finn hjarta lètta; Heim sá skóp, honum við Heldur, mèr veitti lið; Almáttugur, sem er Og var, liðsinnti mèr, Sinn frið lèt sálu metta.

3. Önd þá úr dupti upplypt sèr Upp til þín, guð! nær fleytir, Efld þeirri af trú, glöð bœn fram ber, Að bezti faðir heitir; Upp til þín önd þá fer Í flokk með sigurher, Finn eg ró þá í þèr; Þar er eg, en ekki hèr. Ó sælu', er von sú veitir!

4. Þú klæddir líka moldu mig, þó

mèr sèrt jafnan nærri; Þú sèr mig; finna fæ eg þig; Fæ lifa' og sjá þig stœrri; Ó guð! mèr aldrei fjær, Eins þar og hèr mèr nær! Sá þanki fœrir fró, Fyllir af sælu' og ró, Guðs huggun gœðir skærri.

5. Já, þèr eg lifi, þèr eg dey; En þetta kröptum mínum, Að þinn eg er, eg þakka ei; Því veldur krapti brýnum Þín guðleg gœzka, að mèr Gefst lifa' og deyja þèr; Já, faðir, faðir minn! Mig fýsir um eilífð þinn Með vinum vera þínum.

## Nr. 75.

### Sama efnis.

Lagið: Dagur í austri öllum.

Minn andi'! í guði glaður Greið þakklæti' honum heitt; Hann elur önn, sem faðir, Að gott þig bresti' ei neitt! Hönd hans þèr hlífði milda, Hætta þá ögra vann; Er þá ei unan og skylda, Að gleðjir þig við hann?

2. Hvað helzt mitt hjarta gleður, Hefi' eg, minn guð! í þèr Föður, sem fœðir,

seður, Föðurrækt hefir á mèr; Til góðs mitt laðar geðið Með guðlegu' orði sín; Önd með eilífri gleði Á síðan drykkjar mín.

3. Ef gleði' og alúð hirði Eg með þín rækja boð, Þig óttast, elska, virði, Eins og gott barn, minn guð! Ó hvað mèr vel þá vegnar! Verða þrár allar mín Sælli tilfinning fegnar, Fullar nægð gæzku þín.

4. Öruggu eg má renna Auga til himins þá; Til böls ei kann að kenna, Krappt mig þó leggist á; Mitt hjarta værar vefja, Von og ánægja blíð, Er geð mitt hugga' og hefja Heims böl yfir allt og stríð.

5. „Minn ert þú, mig hver skaða Má?“ fæ eg glaðvær tjáð, Sæll við þá vissu glaða, Að vís mèr þín sè náð; Þú, faðir! líf mèr lèðir; Lífsheill mín þèr er kær, Lífs hvað til gæfu' og gleði Gagnar mèr, veitt þú fær.

6. Að þínu, ó guð! ráði Í heim minn Jesús kom; Misverk mín öll af máði, Mèr ávann frelsisdóm; Hann tilbið eg

honum treysti, Hans píslir trúi' eg á; Fær ei synd, mín þó freisti, Frá þèr mig skilið þá.

7. Ó huggun æðst dauðlegra! Ó fullsæld betra lífs! Fullkomnan heimi' í fegra, Fast þreyð í byggðum kífs! Sízt til engis! þá endað Er veðhlaup, lokið þrá, Í friði mig lætur lenda Lausnari minn sèr hjá.

8. Ó guð! mín af þèr gleði Eilíf mun vara þá; Hel, ögra hart þó rèði, Henni sízt raska má; Fús bein mín fúa' afhendi, Fullviss þess, drottinn minn! Brátt þinn dag ber að hendi, byrja nýtt líf þá finn.

9. Virzt, meðan vegferð þreyta Verð eg í útlegð hèr, Mèr þá meðvitund veita, Vel sem barn líki' eg þèr; Gleðirík þessi gæfa, Guð! sem eg hefi' af þèr, Heill um hèrvistar æfi, Huggun í deyð sè mèr!

10. Syndagirnd sízt því hnossi Mig svipti, viti' og trú; Hennar þá hættur blossi Hreifir sèr, mig út bú! Anda þinn

æ lát stýra Athöfn og hjarta mín, Að missi' um eilífð dýra Aldregi trú til þín.

## Nr. 76.

### Upprás góðra verka.

Lagið: Í Babýlon við vötnin ströng.

Ást guðs ef til knúð ei þig fær, Að skyldu þinnar gætir; Af dyggð þinni þá ei þig stœr; Öll, vit, þig skortir mæti! Ef eigin hagur, holdsins lyst, Hroki, sèrþótti', er önd fá gist, Þig fýsa' ein, gott að gerir; Þó athafnir þú að hafist Aldrei svo frægar, laun eru misst, Af guði upp er skerir.

2. Heimsins þó furða' og heill þú sèrt Heppinn við eðlis gœði, Ef heillir manna eflir bert, Að heiðri' af mönnum næðir; Utan fölskalaus ást þitt geð Uppfylli, gáfum stœrstu með Verð þitt allt verður að falla; Þó ættir engla hugvit hátt, Hjá guði verð ei meira átt Hvellandi heldur en bjalla.

3. Þitt þó nauðstöddum brjótir brauð, Byggir hús, þeim að hjúka, Af ekkjum hrindir eymd og nauð, Annist bjargþrota'

og sjúka, Föðurlauss björg og forsvar sèrt: Fyrir guði þú vannst ekkert, Öllum þó eigum tærir, Ef skyldu þig ei kall til knýr Og kærleiki til bræðra hýr; Arð hitt þèr engan færir.

4. Þó afrek há með hetjumóð Hlotnist að frábær ynnir; Þó fyr' ættjörð þitt flyti blóð, Fyr' aðra hold þitt brynni; Ef elsku og skyldu ei þig lèzt Örva hèr til, en sjálfs þíns mest Elska þig ein fram hvetur: Þó frelsir heil og friðir lönd, Fær ekkert þína batað önd; Allt það guð engis metur

5. Ef guði ytri væru verk Vildust, hann hægast kynni Bönd eðlis láta' oss beygja sterk, Eða beita makt til sinni, Að þau framkvæmdum; en hjá þeim, Allt sem veitir og gefur heim, Afl, vit, makt, ekkert gildir; Verks þíns tilgang hann vega kann; Vill hjarta', er heiðri' og elski hann, Eitt meir en allar snilldir.

6. Hjarta', af sjálfs elsku hreinsað vel, Helgað með drottins ótta, Af eldi kærleiks ylnað þel, Ónýtan frí við þótta,

Þetta eitt guði þóknast kann; Þessa eins af oss krefur hann; Utan slíkt eigum hjarta, Oss stoða líf það ekki má, Er glansamestu jafnvel á Athafnir ytri skarta.

7. Dulur þig enginn, dári! þá, dyggðarnafn snautt ei stoðar; Lít verk þín ytri' ei allein á; Uppsprettu þeirra skoða! Opt þig fyrir guðs augsýn reyn; Aðgæt, hvort elska til hans hrein Hug stjórni' og hegðun þinni; Hræsnislaus trú hvar hjarta' í býr, Hvergi má bregðast, ást að hýr Búi þar einnig inni.

8. Guðs elsku' ef hýsir hjarta þitt, Hún mun til góðs þig styrkja; Aðsetur þar að eigi' hún sitt, Af ást munt til bræðra merkja; Kærleiki', er skal þèr skarta á, Skír og flærðarlaus vera má, Góðfús og frí við hrekki! Bræðra öfundi aldrei lán, Órètt með langlund þoli' og smán, En sèr upp hroki ekki.

9. Byrgir náungans bresti sá, Við böl hans aldrei feginn; Sitt næði stundi eitt ei á, En bræðra gagn, sem eigin; Hann vonar, trúir, umber allt, Er hann, sem

dug þèr ljær ávallt, Fús guðs að fylgir vilja; Vilja guðs gjörir veröld í Að vilja þín; um eilífð því Skal aldrei við þig skilja.

## Nr. 77.

### Uppörvan til góðra verka.

Lagið: Guðs son kallar komið til mín.

Vakna, mín sál! hress hug þinn nú, Hæstum guði', er þig skóp, ver trú, Fylg sífellt samvizkunni; Trú mèr! þess iðrast aldrei kannt, Að ótta guðs og dyggð var annt Þèr hylla af hjartans grunni.

2. Holds þíns og blóðs ei hlýðst á vèl! Hlýð guði! guð þinn vill þèr vel; Blessan er, hvað hann býður; Sem faðir mönnum oss hann ann; Til æðstu gæfu' oss leiðir hann Dyggð og þolgæði þýðu.

3. Guð sínum styrk vill gæða þig, Gakk því jafnan fram dyggðar stig; Lát spor þín stöðug stefna; Syndin táldregur, dyggðin sízt! Drottinn guð hana krýnir víst Náð, sem ei unnt er nefna.

4. Ógnakvöl glæpa' í augsýn þèr Æ standi, þegar lokka fer Synda þig svik-

ul kæti: Guð písl og skapraun þá og þraut Þekkir, glœpnum er fylgja hlaut; Glœp vill því hatað gætir.

5. Eymd sèr guð djúpa' og örlvílnun, Eilífðar nótt er kvelja mun Syndara', er hann hèr hæðir; Guð þekkir, dyggð hvað dýrmæt er; Drottinn Jesús það kennt hefir þèr; Þau smáir þú samt gœði!

6. Nei, vak og bið og berst, sál mín! Bjargar þèr guð og sèr til þín; Allt síðar þèr umbunar. Honum trúr ver, en hvika ei frá; Hugsa þrátt dauðann, dóminn á, Sigurkrans minnstu' að muna.

## Nr. 78.

### Trúlyndis ásetningur í kristindóminum.

Lagið: Upp á fjallið Jesús vendi.

Þekkir, heiðrar þig minn andi, Þín boð játar helg og góð, Faðir góði! fús óskandi, Að fengi holla tendrað glóð Elsku' á þèr, svo allt eg vandi Sem eign þín, sú í tryggð æ stóð.

2. Án þín sál býðst enginn friður, Eg þó móðan hlaupi mig Tímans skugga

skemmtun viður, Skortir önd svölun utan þig; Um tíma' og eilífð bljúg því biður, Bezt þín elska' að fylli sig!

3. Veit, eg hvern dag viðbjóðslegri Vondra finni synda þrá; Eptir að sœkja æ óverðugri! Auðna' er sálar dyggðin há; Hana' að velji eg, sóma' og sigri Sœmist! bœn, guð! veit mèr þá!

4. Frið samvizku fæ eg hreinan, Fæ himinsins njóta hèr, Af hjarta þig ef elska einan, Einum stunda' að þóknast þèr; Og fæ þann allan, faðir! að reyna Fögnuð, rètt er nafn það ber.

5. Af heimi þó eg hatur líði, Hjarta mitt, guð! treystir þèr; Þess áfelli' ef ei eg kvíði, Ó það gleði nœgtir lèr; Fullsæll verð eg, böl þó bíði, Boði guðs ef trúr eg er.

6. Hègómans ei glys nè gróði Geð mitt fæli þèr í frá! Einn þú ert minn œðsti góði! yfirvinna styrk mèr ljá Synda vèl með sönnum móði, Er sannkristnum má finna hjá.

7. Heimt þú alla hyggju mína Frá heimi' til betra lífs hjá þèr! Önd mín

finni unun sína Eilífð við að skemmta sèr! Heim lát verði hærra týna, En honum síðar í eilífð ber.

## Nr. 79.

### Sonarlegur guðsótti.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Viltu lind þekkja vizku allrar? Vit, hræsnislaus guðsótti' hún er. Hann einn vitran og hygginn kalla Hèr má, sem alls, er gjöra ber, Gætir fús, því það guðs boð fann, Þó geti enginn þvingað hann.

2. Guðdómsins hátign þarftu' að þekkja, Þinn auðvirðleik svo skynjir þú; Fífldjörf mun ei þá brjóst þitt blekkja Og blygðunarlaus heimskan sú, Að lasta boð, sem bauð sá þèr, Hvers boð rèttvíst og heilagt er.

3. Óbær skylda' engin þèr mun þykja, Þú, sem gott barn, ef óttast guð; En sonarlegt angur í þèr vekja, Að afræktir þrátt hans heilög boð; Þeim guð hefir með að verkum vott, Vænt þykir um, hvað framdi gott.

4. Guðlausa dirfir dimma' og nóttin, Er dylur þá, svo enginn sèr; En þig mun drottins örva ótti, Eins þá að forðast, rangt hvað er; Þú hugsar: „fyrir hans augsýn Sem hádags birta myrkrið skín".

5. Guð í einrúmi eins að tigna, Sem opinbera heiðrun tjá; Raust æ samvizku sinnar gegna, Sæta því fús, er hvetur hún á, Allt fær það drottins ótti kennt; Sá óttast guð, þá nemur mennt.

6. Heims ef foröktun hlýtur mœta, Hans því ráðvandur firrist slóð, Ótti drottins mun afl þèr bœta, Illra svo forsmá lærir hnjóð; Sá guðs hins hæsta hylli fann, Heimur þó spotti, sæll er hann.

7. Að ótta drottins ætíð gætir, Eins dug þèr ljær og hetju geð; Heims þó ögrandi ofsa mœtir, Er skipar, guð hvað banna rèð; Sá, hvers ljós, athvarf, hlíf guð var, Hann skelfist ei fyr' mönnum par.

8. Ó guð! lát mig þinn ótta leiða! Þig, œðsti! kenn mèr jafnan sjá! Lát

hann til vísdóms veg minn greiða; Villast aldregi mun eg þá. Þig, guð! óttast heill andar er; Æ! sæll er hver það temur sèr.

## Nr. 80.

Bœn um sannan guðs ótta.

Lagið: Einn guð skapari allra sá.

Ó guð! í leynum allt er sèr Og ert nálægur mèr nú hèr! Lið og styrk veikum ljá mèr þinn, Að lifað fái' eg sem rèttkristinn!

2. Barns þíns mèr viðkvæmt gef þú geð, Grannt hverja synd er forðast rèð, Fýsn og girnd illa' er kefja kann, Þá kvikna fyrst í brjósti vann!

3. Algjör ert, helgur, hreinn, án meins, Hreinn og algjör veit eg sè eins; Ill ei vanvirðir að eins gjörð, Ill girnd er líka haturs verð.

4. Vond athöfn er þèr eigi kær, Andlit þitt mönnum hulið fær; Andarfrið brast og yndi þann, Er þú hlauzt finna straffs verðan.

5. Ást þinni fagna' og elska þig, Elsk-

aðan af þèr vita sig, Forsmekkur sælu' eilífrar er Í reynslutíma þegar hèr.

6. Unn mèr þessarar gæfu', ó guð; Getur þá hvorki líf nè deyð, Útvortis hagur enginn, frá Öruggri svipt mèr trú þèr á.

7. Lánið hollt þigg eg þá í dag, Þakklátur, er minn gleður hag; Og ef mótkast og mœðu' eg finn, Mèr held vongóðum ókvíðinn.

8. Yfir tíð og heim eg þá inn Í eilífð lít og himininn; Gleðst, að til lífs mig leiddir hèr, Líf betra' á síðan ætlar mèr.

## Nr. 81.

### Sonarleg hlýðni við guð.

Lagið: Kom, skapari heilagi andi.

Hátign og veldi' er, vor guð, þitt! Vegsemd, prís og þökk fœrð sè þèr! Í duptið krjúpi' á andlit sitt Og tilbiðji mannskepna hver!

2. Þig, herra'! aleðli hyllir allt, Frá hæstum engli' að lægstum orm'; Heiðrun þèr allt og hlýðni galt, Hvers bending reisir, lægir storm.

3. Samstilling, orðu, eining, sèð, Ó guð! fæ, hvert sem renni' eg sjón; Skal sœmdur þinni mynd eg með þeim meiðsl þver vinna' og gjöra tjón!

4. Þú skópst, því veldur þín forsjón, Það eg em til og mannkyn hitt; Þú ert minn herra', eg þinn er þjón; Þú minn faðir, eg barnið þitt.

5. Því fagna láni', að þitt barn sè, Sá þig ei heiðrar, enginn kann; Sá holla lèt þèr hlýðni' í tè, Heiðurs þess, faðir! einn til vann.

6. Hve rètt, sanngjarnlegt, gott eg má, Guð! játa allt, er bauðstu oss! Sæll hver, þíns vilja' er gjörir gá, Þann gjöra' er yndi' og sælu hnoss.

7. Ekkert oss bannar annað guð En illt, sem skaða' og sneypu' oss bjó; Vei þeim skyldu lèt vanrœkt boð! Vansemd og kvöl hann yfir sig dró!

8. Guð er sízt, lög þá gefa' oss vann, Grimmur týranni', er hatar menn; En velferð af því vorri ann, Vill oss til hlýðni leiða senn.

9. Hans byrði lètt, hans hœgt ok er;

Hver fús það ber, með gleði rann Sitt skeið; og þó hann hrasi hèr, Hann aðstoð guðs þó reisa vann.

10. Opt hvatti' hann náð og ást oss með, Af þakklátsemi hlýðni að tjá; Opt mœðu' og krossi œfa' oss rèð, Afbrotum nýjum við að sjá.

11. Hans hótar, lofar, hvetur senn Heilagt orð, sýnir líf og hel; Hrœrir, vekur hans andi; en Eyra' eg þó lyk og hjarta-þel.

12. Nei! hjarta mitt sè helgað þèr, Heilagi guð og faðir minn! Virzt stöðuglyndi veita mèr! Virzt sem eigindóm helga þinn.

## Nr. 82.

### Trúartraust á guði.

Lagið: Ó drottinn allsvaldandi.

Mín skylda, mín er sæla, Mitt líf, ó guð! þig treysta á; Huggun það hjarta' inndæla, Hugstyrk og gleði veita má; Ferðamanns fær það mœði, Til föðurlands hlaup svo þræði, Unnið á stans, en aldrei þreytast næði.

2. Sínánar sorg og kæti Sem kvöld og morgun skiptast hèr, Unz gröfin öllu' ágæti Og andstreymi líka fyrirfer; Ólán flýr, auðna' er hlotin; En þá hýr varla' er notin, Burt hún snýr, brátt með öllu þrotin.

3. Æ! hverri' angist og kvíða Umspennast dag hvern mættum vèr; Og líka, lífs þó blíða Lèki við oss, eins skelfast hèr; Ef traust þèr á trega' ei renndi, Til þín sjá upp oss kenndi Og ráð vort fá með rósemd þinni hendi!

4. Þú útskiptir því öllum, Er sèrhverjum bezt haga sèr; Með blíðu' og böls áföllum Blessumst af þinni hendi vèr; Æ! sem ber, að vitrir vildum Vèr það hèr svo nota', er skyldum, Lán, sem er lènt af guði mildum!

5. Sízt gangi' að vilja vorum! Þú velur æ, bezt hvað haga má; Þó heimur fari' öförum, Fá þau sannindi' um eilífð stá; Ó! að þá þau æ þekktum, Þeirra' oss hjá krapt' ei hnekktum, Þeim villtir frá ei vèluðum oss nè blekktum!

6. Lífs reynslu líða stundin Laus við

sorg og víl mundi þá, Og móðlaus aldrei fundin Andstreymi sál vor við nè þrá; Sigrarans von með værri Vèr þá krans sæjum oss nærri, Og umbun hans í dýrðarvist skærri.

7. Helga sjálfur mitt hjarta, Herra! svo öruggt treysti' eg þèr, Og horfi' á himins bjarta Heimvon stilltur, þá böl mig sker; Æ! eg kýs um eilífð fœra, Að lèzt vís mig böl hèr særa, Guð þèr prís á gleðinnar landi væra!

## Nr. 83.

### Rètt meðferð guðs gáfna.

Lagið: Faðir vor! sem á himnum ert.

Guð! makt þín vís við heldur heim Og hans af lífi fullum geim; Allra til þín glöð augu sjá, Alls góðs sèr vænta þèr í frá, Þèr, faðir! sem það elskar allt, Öllu þess fœðu gefur ávallt.

2. Þú opnar hönd: þá fljóta fer Fram, það nauðsynlegt hverjum er; Umsjá afrœkir engan þín, Alla velþóknun mettar sín; Óþekkt, óverðug engin sú Álízt þèr skepna', er gjörðir þú.

3. Þín veitti hönd mèr gœzku gjörn, Guð! deildan verð minn eins dag hvern; Holl bjó mèr hann á tœkri tíð, Til frá því varð eg, ást þín blíð; Enginn faðir barn annast sitt Eins föðurlega' og líf þú mitt.

4. Mig yfirgefa muntu sízt, Mitt athvarf, drottinn! það er víst! Víst á eg, gott að gjörir þú mèr, Guð! meðan vilt eg tóri hèr; Alls nœgta œski' eg ei af þèr, En, hvað eg við þarf, gef þú mèr.

5. Fuglinn þín örlát fœðir mund, Þó fái' ei sáð nè arið grund, Blómstur í kónga skrýðir skart, Þó skorti við mig að iðja margt; Fyr' guði miklu meira þeim, Mín sál, ert þú, því aldrei gleym.

6. Mèr settirðu' eilífð, minn guð! mið; Mig skópst ei fyrir tímans bið; Af þèr eg vit og frjálsleik fèkk, Fyrir mig Jesús dauða' í gekk; Ekkert, sem jörðin elur og ber, Að tign og verði jafnast mèr.

7. Þú, sem allt rèðst mèr þetta tjá, Þú björg og drykk mèr eins munt fá; Býtast hvorttveggja' án bœnar lèzt, Þeim

brotum með þig smána verst; Og þó eg beiddi' ei þar um þig, Þín mundi líkn samt annast mig.

8. Um ánægt hjarta' að eins eg bið, Er uni þínar gáfur við; En um fram allt þó uni við þig, Er aðstoð slíka tèr við mig; Þú, sem ert lífs sú lind og haf, Er lán allt og blessan flýtur af.

9. Gnægt ef mèr þinna gáfna ljær, Gef mèr hófsemi' að nota þær; En ef minna mèr auðnast lán, Óánægju mèr forða' og smán! Þèr, hvers umsjá mèr æ er vís, æ færi' eg þökk, minn guð! og prís.

## Nr. 84.

### Þakklæti fyrir guðs fengna hjálp.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Þèr, guð! er manns ei þjáning kær, Þig minn andi tilbiður; Jafnsnart sem spekin skipar skær, Sker hjálp og líkn oss viður.

2. Sízt hegnir, sekt sem vor til vann, Þín væga föðurblíða; Með mæðu' og

þrautum mennta kann Menn þína', að þola' og hlýða.

3. Þú endar þraut, nær þóknast þèr, Og það opt dásamlega; Hjálp þín sízt gleymist, herra! mèr, Heit mín geld laus við trega.

4. Allt eins hjartnanna' og alheims krapt Átt þú, stjórnar og laðar; Í öllu' er líkn og lið fær skapt, Leynt þú verkar alstaðar.

5. Hvað vernd þín, drottinn! við hèlt, gaf, Veri þèr dýrð, mèr gæfa! Bræðrum kærleiks hót býtt sèu' af Blessun, er lèzt mèr gnæfa!

6. Vanbrúkun allri verji mig Vandla þíns sonar andi! Hönd þín sè mèr þá hræðilig, Er hóta synda vèl grandi!

7. Hjálp, eg öruggur horfi' á þig, Ef háski' og neyð enn grætir; Trúfasti faðir! taktu mig Til þín, mèr hel þá mætir.

## Nr. 85.

### Auðmýkt.

Lagið: Heyr mig, Jesú! læknir lýða.

Að láta kjör sèr lægstu falla, Lofstír

manna' ei girnast á; Orðalaust með ánœgju' alla Undir þjóna þjónað fá; Af góðu' í kyrrþey gleði leita, Gáfum sízt til ofdrambs beita: Œski' eg vits þess, ó guð, mèr! Æ frá hverjum? nema frá þèr.

2. Vegu' óþekkta, vegu' að renna, Er vann þitt auga, guð, eitt sjá; Í kyrrð þola, þegja, nenna, Þó mig enginn minnist á: Þú, lítillætis lind alls! kenndir, Er lagar hjörtu' og þeim um vendir; Ljúfi Jesú! lær það mig; Mig lær að þegja' og horfa' á þig.

3. Þó mig enginn þekkti bróðir, Þola mætti' eg háð og gis, Þó forsugt auga forsmán bjóði, Og flestrar auðnu gengi' á mis, Og nefndi maður á jörð enginn, Ef að eins til þín hugsað fengi, Ó Jesú! rótt yrði mitt, Ef inn í liti' eg hjartað þitt.

4. Guð huglágra', í geði rórra, Er gjarnan una' í skugga' að stá; Með þreki' er líða þjóna trúrra, Og þíns í kyrrðum vilja gá; Guð lundkarskra', er klaga eigi, Þó kenna þungra byrða megi,

En hugsa þögulir heim til sín, Og horfa' auðmjúkir upp til þín!

5. Eg þig, guð, minn guð! á kalla, Með glaðværð krýp að fótum þèr! Þú endurnœrir, náðar alla! Náð og ró eins gefur þú mèr; Veit mèr lið, sem vildi' í fari Verða' æ fyr' þèr auðmjúkari, Að aldrei treysti' ómáttkum mèr, En missi aldrei sjónar á þèr.

## Nr. 86.

### Móti drambsemi.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Hvað er minn hagur og heppniskjör? Hvað lukku minnar efling hver? Allt óverðskulduð gœði; Ó guð, hverjum eg allt hefi' frá! Æ! varðveit mig drambsemisþrá Og oflætis fyr' œði.

2. Mèr ef hlotnast, að meiri' eg vinn Mönnum not, en náungi minn, Hver gaf mèr þar til þróttinn? Vitsmuni stœrri ef eg á, En öðrum veittust: Hver gaf þá? Enginn utan þú, drottinn!

3. Hèr ef mèr gæfa hlotnast kann Heldri, en gleður náungann; Þjóna' eg

þèr þeim mun betur? Hvort mèr sú gœzka mildilig, Er meir en aðra blessar mig, Rètt til drambs gefið getur?

4. Ef hávegum og heiðri í Hagsældir gnógar við eg bý, Ó guð! hver hefir mig hafið? Hvað opt verðugri miklu mèr Mátti' eg sjá bróður, nafn hvers er Óblíðri' af auðnu kafið?

5. Hve gæti' eg metnazt, guð minn! hèr Af góðu því, er fannst hjá mèr, Og logdöpru mínu ljósi? Þitt er allt, hvað eg á og hlýt; Ef þú talar, þá lífs eg nýt; Án þín ekkert allt hrósið.

6. Öll blessan kemur og þrif frá þèr, Frá þèr fram flýtur ástgjöf hver, Eilífi œðsti góði. Ó guð! hverjum eg allt hefi' frá', Æ! varðveit mig dramsemisþrá Og hættum fyr' hofmóði!

## Nr. 87.

### Auðmýkt.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Kenn mèr, drottinn! dyggð þá rœki, Að dramb ei hjarta fleki mitt, Nè ofmetnaði' í illum flœki! Athuga framar lær mig

hitt: Hvað opt breyzkur hrasa' eg kann? Hvað er, guð minn! manneskjan? Hvað breyzk, verk þá vinnur beztu? Af vansa hve nær frí og brestum?

2. Hvað opt, gott þá iðja ætti' eg, Ófús vild mín til þess var? Hvað opt boða guðs þá gætti' eg, Gætti' eg þeirra miður en bar? Eru elska' og ótti þinn Æ þau rök, mig knýja finn Synd að hafna' en gott að gera, Af grunni hjartans lastvar vera?

3. Ungdómssynda minnst ei minna, Minnst ei ófullkomna þá Dyggð, sem eldri ár mín vinna; Opt með blygðun mátti' eg sjá, Þó stundi' eg þrátt af drambi dyggð, Dárra lasta viðurstyggð Af manna ótta' ei mig vil selja: Mín hvað er þá dyggð að telja?

4. Eg þó verjist ágirnd ljótri Af ótta', að þola smán og spè; Hófsemd rœki', að heilsu njóti; Af hugmýkt greiða láti' í tè; Hjá heiðurs fíknar hættum stig Og hroka' af leti sneiði mig; Af eigin gagni hefndir hati: Hvað er mín dyggð að meiri' og bati?

5. Hvað opt, bezt það hjá oss finna Hugðumst, guð! þinn ótti' ei var? Eigi' ávöxtur elsku þinnar, En arður, tími' og lund sem bar? Hve nær mátum mæti rètt Mætrar dyggðar? hve nær lètt Oss vèr fundum ok þitt bera, Og ánœgju þín boð að gera?

6. En þó hreint mitt hjarta væri, Hrein mín dyggð, æ drottinn minn! Hverjum þar fyr' heiður bæri? Hvers eign eg þann góða finn? Mig hver snemma mennta lèt Til mætrar dyggðar, sèð að get Í lífs míns skyldum lukku mína, Og lofstír minn í hlýðni' að sýna?

7. Boð þín elska' og gjöra með gleði Hver gaf mèr þrótt og öruggt geð? Mót skœðri freistni skjöld hver lèði, Skýrum sigri gladdi með? Jeg lind speki jós hvers af? Jafnt hver mèr þann ástvin gaf, Er til góðs þrátt leið mèr lagði, Um lýti mín ei fyr' mèr þagði?

8. Þú mig gott að velja vaktir; Varnaðarraust þíns anda lèzt Mig opt, braut þá heilla' af hrakti, Heimta' á stig þinn aptur bezt; Með krossi' og góðgjörð glœp-

um frá Greitt mig drógst; nær hèt þig á, Aptur líkn mig lèzt þú finna, Lán betrunar gafst til minnar.

9. Hvað eru', ó guð! mannsins mæti, Að minnist hans? að fyr' þinn son Gafst honum brot upp, gafst rèttlæti, Já, gafst til launa rètt og von? Þíns af anda ástgjöf ef Afl nú trúar og verk öll hefi': Hver em eg, sem hlaut þá mildi? Hver em eg, nema þræll ógildi?

## Nr. 88.

### Jesú Krists frábæra hjartalag og hegðan.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Lausnari! athvarf aumra bezt, Ástvinur syndaranna! Trú hins rèttkristna' er tignar mest! Til þín flýr kynið manna. Hvað ástúðleg þín ásján er, Ístöðulausum djörfung lèr, Þrótt sálum veikum veitir; Þèr aumir gæfu þiggja af, Þíns almættis, er styrk þeim gaf, Verk því víðfrægja teitir.

2. Það hjarta', er svölun hvergi fann, Með hógværð blíðri grœðir; Unglings

sál menntun af þèr vann, Svo öðlist dýrstu gœði; Hjálpar hönd rètt er hverjum brýn, Er hjálparþurfi leitar þín; Vina stig villu sneyðir; Þeim, dyggða veg sèr velur hreinn, Vegur til dýrðar þú ert beinn; Dýrst unga dœmi þitt leiðir.

3. Þitt andlit deigum eflir móð, Í auga brosir friður; Þín hönd furðuverk fremur góð, Fót þreyttra lúinn styður; Trúar kveykir og tendrar ljós, Í trúnni veika styrkir oss, Er kapp og alúð þrýtur; Óvinur hnoss vort eigi má Nè athvarf hjartans slíta' oss frá, Er af trúnni' á þig flýtur.

4. Veit mèr við aðra vilja' og lyst Vægð þinni eptir að breyti: Að, sem þú, hjörtu hressi' eg tvist, hrelldra með alúð leiti; Gleðjist, þá bróðir gleði naut, Grætist af böli hans og þraut, Stafur sè breyzkum bróður; Hverjum, er mèr sitt hjarta með Hollri vináttu gefa rèð, Trygð og ást tjái góður.

5. Veit, eg bróður, er villast rèð, Veki með ástúð þýðri; Afbrot nærgæt-

inn annara sèð Eirð hylji, ef verður, blíðri; Engum bjóði mig ógn að sjá; Að þeirra kveini', er harmar þjá, Önd mín sig áfús hneigi; Eptir skammvinna vegferð þá Víst gæfu œðstrar hnoss eg á, er vannst mèr á píslarvegi.

## Nr. 89.

### Jesú mannkærleiks eptirdœmi.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Mannkærleiks œðsta' af upprás flaut, Endurlausnarinn blíði! Sú háleit náð, að þyngstu þraut Þoldir, svo frelstir lýði; Að forsmán þaktist þú og pín, Þaninn á kross, og síðan Lagður í gröf: þá gœzku þín Og guðlega tryggð hver þýða Má og mannelsku blíða.

2. Hverjum nauðstöddum hjálp að ljá, Heyra kvein sorgbitinna, Meir beztum fóður bjargir tjá, Blindum, höltum liðsinna; Að þjá sig þjónkun annara' í, Óvina tjón að gráta, Fyrir syndara saklaust frí Sitt líf út blœða láta: Ó menn, slíkt ást má játa!

3. Hver í nánd kom svo þjáður þèr,

Þú volaðra' athvarf bezta! Að björg og svölun burt með sèr Og blessun tœki' ei flesta! Hversu þitt sundur hjarta brast Til hjálpar kvatt þeim sjúka! Ó hversu þín sèr flýtti fast Föðurtryggð og ást mjúka, Að bœnheyra, bjarga, hjúka.

4. Þín iðja, drottinn! dagleg var, Þó drœgi' af kröptum þínum, Andir að styrkja angraðar, Af lètta þjáðra pínum, Frœða óvitra, á friðar stig Fót af leið tældra greiða; Blíður, þá herða sjálfir sig, Syndara til þín leiða; Yfir börn eins umsjón breiða.

5. Hvað líknarfull náð hátt stè þín, Heilsugjafarinn bezti! Er þú hörðustu' í heljarpín, Heims seka' að af má lesti, Þitt dýrmætasta' út lagðir líf; Leiðst straff fyr' vorar syndir; Hels, sem bölvan, á krossi kíf Kannaðir, böli' að hryndir, Og oss blessan aumum fyndir.

6. Þolgóð hógværð af gœzku geð Gagntekið þitt æ prýða; Hatur þú geldur ei hatri með, Nè hrakyrðir þá, þig níða; Ástúðlegan þig öllum tèr, Fyr' ofsóknurum beiðir, Fyrir morðingjum bón fram

her, Blessar þann, hrópi meiðir Og logið last þèr greiðir.

7. Lítillát, háð þá leiðst og dár, Og ljúf auðmýkt dyggða þinna Œðsta var skart og króna klár; Þíns kærsta föður inna Heilögum vilja hlýðni var, Hjálpráð og traust oss veita, Einkamið lífs alls athafnar; Ei manna hóli' að skeyta, Nè fánýts lofstírs leita.

8. Láttu mig, drottinn! dyggða þitt Dœmi þrátt yfirvega! Hjálp finni' og svölun hjarta mitt Hjá þèr í synda trega! Lát á jörð æ meir líkjast mig Líking mannkærleiks þinni! Auðlegð blessunar eilíflig Unz sál helgaðri minni Auðnast í eilífðinni!

## Nr. 90.

### Jesú bœn fyrir sínum óvinum.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Veröld syndugri' um vægð þú hrópar, Vinur himneski! krossi á, Kvalinn guðlausra' af háði hópa; Hjartað þitt sárast þrungið má Brigzlum af, sem í beiskri pín Bœtir illþýði á píslir þín.

2. Fullum blessunar brunnum sjónar Bregður þú frá þeim upp til hans, Er sægur guðlaus í þèr smánar; Eins jörð og himin fá þitt anns Heyrt: „væg, ó faðir! sekri sveit, Er sjálf ei, hvað hún gjörir, veit!“

3. Undrandi lít eg ástúð þessa! Ó þolgœði, svo vorkunlátt! Er morðingja umber og blessar! Barn guðs! er Jesúm tignar hátt! Met hjartagœzku' hans háleitt verð, Honum viknað fœr þakkargjörð!

4. Eins með blessandi bœn hann hefur Grátbœnt um eilíft líf fyrir oss; Um líkn og uppgjöf eins heit gefur Oss, sálar friðar dýrsta hnoss. Fyr' dauða þinn, Jesú! dýrð sè þèr; Drottinn í þèr vor faðir er.

5. Að guð með þolgeðs biðlund beztri Bíður, syndurum vægur er, Þó glœpa safni sekt hvað mestri, Samt, fyr en hegna' að verðleik fer, Þenkir ástfús til þeirra' í náð, Þeim ljær til bata frest og ráð.

6. Að einnig votta eg má glaður:

„Eins tók guð móti sekum mèr!“ Þíns árnaðarorðs, ó talsmaður Œðsti! voldugur kraptur er; Ó Jesú! not af árnan þín Í lífi' og dauða verði mín!

7. Ef huggun snautt mitt hjarta mœðist, Hryllileg mergðin synda því Ofbýður, svo það aptur hræðist: Æ! vissu gef mèr þá á ný, Sem meðalgangari' að mèr sèrt hjá, Er mína sekt vilji' og kunni' af má.

8. Á þig trúarfull önd mín lítur, Ógurlegur sízt vertu mèr! Styrki, lífs vegferð þegar þrýtur, Þrótt veikan kraptur nýr frá þèr! Sykrast baráttan sízta þá, Ef svölun í dauða finn þèr hjá.

9. Inn gef, ó drottinn! öndu minni Elskuríkt, hógvært lyndi þitt, Að vinahót eg óvin inni; Ef árás mig fær og skapraun hitt, Gef eins þèr feli' eg málstað minn Og míns óvinar óblítt sinn'.

10. Fárheitan blóðs míns funa sefa, Fýsn hefndar ef í brjósti mín Taumlaus vill bræði tundur gefa; Trúr mig þá vek, svo minnist þín: Bœn þín á krossi

hversu heit Hèr fór morðingjum vægða' á leit.

11. Þinn friðþægjandi frið mèr dauði Færi! þinn andi, drottinn! mitt Lagi geð, svo þèr líkjast næði! Leið það, við heimsins þrældóm kvitt, Til þín, til himins foldu frá, Hvert fór með sigri tign þín há.

12. Verndar merki' ert þú voldugt þinna; Vèr hlaupum, að þèr drag þú oss! Árnanar þinnar um eilífð minnast Oss lát fagnandi' og dauða' á kross! Sæll, eilíflega sæll er sá, Sem þig, ó Jesú! lausnara' á.

## Nr. 91.

### Náungans kærleiki.

Lagið: Í Babýlon við vötnin ströng.

Þú, sem kærleiki einskær ert, Alla menn fús að blessa! Þann, sig þinn óvin sýnir bert, Samt fús velgjörðum hressa, Æ! laga geð mitt eptir þèr, Æ! gef mèr, lausnari minn! að hèr, Sem þú þèr hagaðir, hagi! Víst enginn kristinn vera

kann, Nema velferð bræðra gleðji hann Og mannkærleiks lund til lagi.

2. Hèrvistar líf þitt helgast var Heill ein og blessan manna; Á vegum þínum alstaðar Ást mátti' og blíðu sanna; Hvert þú fórst, með þèr fór velgjörð, Fótstig hvert, verk þitt hvert og orð Ljómaði' af líkn og blíðu; Þú dóst til frelsis aumum oss, Oss að frá glötun leystir, kross Á þig tókst og písl stríða.

3. Þú ert á himins hástóli' enn Hjálpræði syndaranna; Þar enn þú reynist æ og senn Ástvinur bezti manna, Þú veitir sanna þínum ró, Þú leitar villtra', að mættir þó Á veg þá lífsins leiða; Stun heyrir bæna blíður þú, Brúkar tign þar til æðstu nú Blessun og heill út breiða.

4. Lífs vegferð minni lát mig á Ljúfast þitt dæmi skoða; Efl lyst og krapt mèr ætíð hjá, Ó Jesú! bræður stoða; Með huggun hrelldra gleðja geð, Gleðjast fagnendum fús sè með, En með grátendum gráta; Og þeim, mèr kærleiks opna rót Einlægs, sè fús til kærleiks hót Og tryggð í tè að láta!

5. Lát mig með bróður-blíðu fá Bræð-ur vakið, sem skeika; Vægð, hógværð, þolgeð veikum tjá, Vömm hylja með kærleika; Ógn bjóði engum af mig sjá! Eyru nauðstaddra kveini ljá Önd mín fús að sig hneigi! Svo öðlast heimi sælla í, Hvar sælir einir búa frí, Laun kærleiks mætust megi!

## Nr. 92.

Sama efnis.

Lagið: Rís upp, mín sál! og bregð nú blundi.

Ættu' ei manneskjur, mínir bræður, Mèr, eins og guði, kærar sjást, Og af mèr hýrgast alls kyns gæðum, Fyrst allir Jesú limir tjást? Míns Jesú, er fyr' alla dó, Öllum guð náð og hylli bjó.

2. Alla lèt hann af einu blóði Út kvíslast, allir vèr erum hans; Allir hans börn; með æðaflóði Allir friðkeyptir lausnarans, Samarfar allir sonar guðs, Samarfar himins alfögnuðs.

3. Skyldi' eg guðs börn að hatri hafa? Hata vægðar- og kærleikslaust? Óvin mínum brot ei til gefa? Eyra sáttgirnis

byrgja raust? Og guð, sem rètt og dóm allan á, Í dóm ei gengur, líkn vill tjá!

4. Glœpafús þegar girnd til syndar Grípur mitt hjarta', afhuga þèr, Og haturs fer bál og heipta' að kynda: Hatur sigraðu þá í mèr, Mikli sigrari'! og mig lát sjá Þig mannkyn fyr' í dauðann gá.

5. Sýn mèr, hve tár þín, drottinn! dundu, Dundu' af augum þèr vegna mín, Og blóð af þínum út hellt undum, Ástvinur manna! þá mèr sýn! Út hellt þitt blóð fyr' auman mig! Og yfirgefinn af guði þig.

6. Hljómi þín orð í hlustir mínar: „Hvað eg líð, allt þín vegna sker; Mèr ann sá, brœður elskar sína; Sá elskar þá ei, glataður er; Óblíðu guðs hann aflar sèr, Óblíða guðs yfir honum er".

7. Unn mèr þau heyra orð, svo vinni Ástfús, hvað vild þín býður mèr; Vægð, hógværð, góðfúst geð að inni, Gæfur, blíðlyndur líkist þèr; Elski heitt, sè trúr, sáttafús, Síljúfur, eins og þú, Jesús!

8. Ó eg vil yður elska, brœður! Yður krists limu, höfuðs míns, Er dó fyr'

alla' og æðstu gæði Öllum vann, hylli föður síns; Góðs árna', umbera, gleðja fús, Gott tjá, upp gefa, sem Jesús.

## Nr. 93.

### Náungans kærleiki.

Lagið: Heimili vort og húsin með.

Segi einhver: „eg elska guð", En sína bræður hatar, Sá er ljúgari, sannleiks boð Sá rengir, og því glatar; Guð einskær ást er; eins vill hann, Að sem sjálfan mig náungann Elski' eg; það bezt mig batar.

2. Heims þessa hver sem hefir auð, Og horfir á bræður líða, Svöngum þó ei sitt brýtur brauð, Býðst ei til nakinn skrýða: Sá fyrstu skyldu' óvinur er, Elsku drottins ei hefir í sèr, Er hjarta hans skal prýða.

3. Hver náungans lèt heiðri spillt, Heyrir fús aðra' hann meiða; Fagnar, þá til vill öðrum illt, ei betra' á veg vill leiða; Ei mót segir þeim, álas spann, Ekki forsvarar náungann: Ást bræðrum ei nam greiða.

4. Heilræði einhver, huggun með Og hjálp þó bræður stoði, En hlýðni' og skyldu í því rèð Ei gá; fremur guðs boði Metnað, sjálfshag eða mjúklátt vann Meta geð: sanna bræðrum hann Ást ei tèr. Innra' hann skoði.

5. Nauðstadda hver sem náungans Nam fyrst grátkveins að bíða, Og ei sèr flýtti' hins fróma manns Fólginn að stilla kvíða; Góðgjarn ei eptir grennslast vann Gráts efni þess, er í leynum rann: Sízt bræðra' ást sýndi blíða.

6. Hver, sem óblíðu' og brigzlum með, Þá björg hann rètti, hrjáir; Stór sem vægðarlaust straffa rèð, Strax sem að sín misgáir, Náunga sinn og níðir hann: Næsta fjarstœtt er, ofsa þann Guðs elska góð þýðzt fái.

7. Sá heill yfir aumra' og rækt ei rèð Með ráði' og dáð að vaka, Frá þeim svo hrundið fengi' um sèð, Fátœkt, meinum, sem baka; Þó gáfur leggi' og greiða fram Án góðs athuga: snauðum nam Ást sýna allt of slaka.

8. Víst er satt, að þèr verður um

megn Í verki' æ kærleik inna; En trúr ef skyldu gætir og gegn, Guðs þíns fús boði' að sinna, Megns þar til óskar meira þèr, Mikla önn fyr' þess efling ber: Hreina' ást er hjá þèr að finna.

9. Letjast ef vill sú lyst í þèr, Leitast við hana' að glœða: „Guð er kærleikur, mynd sína mèr Mildur gaf", þrátt skalt rœða; Þenk opt: „guð! hvað eg er, þitt er! Ó skyldi' eg, guð! ei líkjast þèr, Góðgjarn, sem þú, lind gœða!

10. Einn guð og drottin eigum vèr, Eins limir samt líkama; Fús því náunga greiða ger; Gætni þá lát þèr tama: „Heim skóp ei guð í hag einn minn, Hans barn, sem eg, er náunginn". Brœður erum allir saman.

11. Einni heill guð oss öllum hèt; Eg skyldi brœður hata, Er síns með blóði sonar lèt Svo dýrt guð leysa', ei glata? Hefi' eg verðskuldað heldur en þeir, Hann að mig skóp, og síðar meir Friðþægðum bjó mèr bata?

12. Þú, drottinn minna daga! mèr Dag hvern sekt marga' upp gefur; Ó

hvað skylt mèr þá upp gefa' er, Eins sem þú fyrirgefur, Og elska, þú sem elskar, þá, Umlíða bræður fús, þeim tjá Vægð, sem mèr veitt þú hefur.

13. Hvað helzt eg góðum gjörði hèr Gott, jafnvel þeim aumasta, Eins míns lausnara', og auðsýnt sèr, Álítur geð trúfasta; Ef guð í bræðrum gjarnan þá Gleðja ei vildi, hvar sem má, Manneðli mætti' eg kasta.

14. Vægðarlaus dómur að vísu mun Á vægðarlausan falla, Er daufheyrist við aumra stun, Ei líknar þeim, nær kalla; Verm því með elsku, guð! mitt geð, Svo göfgi það þig kærleik með Falslausum æfi alla.

## Nr. 94.

### Elska til óvina.

Lagið: Lifandi guð! þú lít þar á.

Ó guð dómari! engum brot Þeim, ei brot fyrirgefur, Upp gefa muntu; nein sá not Náðar fær; svölun hefur Enga í lífi, enga' í deyð; Undir klyf synda fastur beið; Önd voða' og eymd umvefur.

2. Hans eigi bœnir heyrir þú, Hann þó iðrandi biðji, Mál hans þín firrist miskun trú, Margopt þó bœnir iðji; Uppgjöf, vægð hjá þèr enga hann Öðlast, sá brœður hata vann, Nema' heiptar rót burt ryðji.

3. Sem vorkun syndurum virðist tjá Og vægð þitt föðurhjarta, Sem dauðans sigrara dyggðar- á -Dœmið oss minnir bjarta, Er líknarmál þeim, kvöldu' hann, kvað, Á kristnum hans, við heipt frí, það Blíðlyndi skyldi' æ skarta.

4. Sekt allir hlöðum sekt vèr á, Sett lög í mörgu brjótum; Synd gjöld þú lætur sín rètt fá; Sjá oss vægð, líf að hljótum! Upp gef oss, sem upp gefum vèr! Oss sekum þolinmóður ver! Vægð tjá, svo náðar njótum!

5. Fegnir því lofum, faðir! vèr: „Fúsir viljum til gefa; Aldregi hrópa' um hefnd frá þèr, Heiptarbál illfúst sefa; Aldrei vor hefna', en auðmjúkt þig Opt biðja', að náð þín föðurlig Upp brot vilji' óvin gefa".

6. Styrk oss, faðir! þín börnin blíð,

Bezt þessrar skyldu' að gáum; Freistni á oss þá fellur stríð, Fylgi veit, sigri' að náum! Hertygjað vort hún hitti geð, Hana náð þinni' að efldir með Fljótt yfirunnið fáum!

7. Lund þinni gef að líkjumst hèr, Lausnarinn Jesú, blíðu! Upp gef þá, eins og upp gefum vèr Öllum, er beita' oss stríðu! Flekklaust þitt blóð, sem flóði' á kross, Frið og líkn víst þá mælir oss Breyzkum, sem brot umlíðum.

8. Guð þá ei við oss gengur í dóm; Góð sem börn oss meðtekur; Kvittunar sekum sendir róm, En sízt oss frá sèr hrekur; Ó! hvað sælir vèr erum þá! Æ! biðjum, stríðum! heipta' oss hjá Eldur svo eyðist frekur.

## Nr. 95.

### Sama efnis.

Lagið: Um dauðann gef þú, drottinn! mèr.

Þú, sem andláti að kominn Árnar góðs þeim, þig deyða, Og fyr' þeim biður föður þinn, Fyr' hugsjón virzt mèr leiða, hvað mjög sè áfátt í því mèr, Ástvin

manna! að líkjast þèr, Og uppgjöf fús óvin greiða.

2. Eg syndari, hvers hjarta heipt Hrokafull tíðum brennir, Og yndi' af því finn í mèr hreift, Óvinur böls ef kennir, Eg dirfast skyldi' í augsýn þèr, Ó guð kærleikans! voga mèr, Svo blöskur í brjóst ei renni!

3. Skyldi' eg dirfast í dómi náð, Í dauða huggun finna Ætlast til? Biðja' enn: „illri dáð Mig eptir synda minna, Herra, ei dœm!" svo hróp í mèr Ei heyrði' eg: „guð eins til gefur þèr, Sem þú vilt uppgjöf inna".

4. Allt gegnum hljóma hjarta mèr Hátt sú raust guðs míns ætti: „Sem þú til gefur, svo guð þèr!" Sjálfur kjós, vel að gættu! Sá brot til gefur, blessun kýs, Bölvan þeim, rœkir heipt, er vís; Hygg að, hvað er í hættu!

5. Verðskulda, sál mín! sælu þá, Þig sjálfa' að yfirvinna! Upp gef, umber, þá uppgjöf fá Af guði' munt brota þinna; Þú fannst náð; hrópa' um hefnd þá sízt;

Hrópa', að þinn óvin blessist víst, Frið megi' og náð eins finna.

6. Hlutdeild sá, við mig afbraut, á Í allra vor hjálpræði; Honum með blóði sínu sá Son guðs fyr' andar næði; Eins til hans og mín út gekk hróp Í frá guði, sem báða' oss skóp, Að erfa eilíf gæði.

7. En hatursmann ef hógværð með Hlotnaðist mèr að fræði, Og á sig, fengi' hans unnið geð, Að ok kærleiks taka næði, Og andargagns síns gætti, hver Guðleg unan það yrði mèr Að vinna' hans önd hjálpræði!

8. Á efsta dómi' hann mundi mèr Með heitum þakka tárum, Ástum mig laða enn að sèr Af jarðar grómi klárum Um eilífð; guð minn! þakka þèr, Þú, sem oss sameinaðir hèr, Kjörna eilífðar árum.

9. Fús vil eg, guð! ef þóknast þèr, Þjóst hèr og aðkast líða; Fús brot upp gefa; fyrst þú mèr Fagnaðar þess að bíða Unnir, að sjái' eg óvin þar Einn

með þakklátum fagnaðar Tárum mèr taka' á síðan.

## Nr. 96.

Sama efnis.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Aldrei vil eg þeim vinna mein, Er vill míns skaða leita; Þá óvinar blót með hatri hvein, Hann sízt með blóti' áreita.

2. Þó hóti' hann, sízt eg hóta skal, Honum með góðvild mœta; Þó bölvi' hann, mitt skal blessa tal Og boða guðs míns gæta.

3. Hann, sá við alla synd frí var, Smán endurgalt með blíðu; Leið hógvær allt, hvað líða bar, Með lánglundar geði þýðu.

4. Ætti lærisveinn eg hans þá Með elsku' ei heiptir gjalda, Fyrst hann beiskt hatur fellt sig á Fyrir galt náð margfalda?

5. Ætti lærisveinn eg hans þá Illyrðum hrakorð gjalda, Fyrst eins og lamb hann þagði, þá Þoldi skapraun margfalda?

6. Þungbær víst skylda þykir nú, Þola róg, baktal hljóta; En hve dýrmæt er sæla sú, Af samvizku hróss að njóta!

7. Því vandlegar skal þeirrar gætt; Þá ráð mitt óvinur bætir; Flátt þó hyggi, mèr fær inn rætt, Því forsjálli' að mín gæti.

8. Vil eg svo brestum við þeim sjá, Hann vatt á mig lognum munni; Og varfær eins bresti varast þá, Er vita' hann eigi kunni.

9. Með hógværð blíðum hefndum ná, Hans sjá hið góða' í fari; Góða það öðrum um hann tjá; Ætla' eg hann last þá spari.

10. Hann svo þreytt fái' á haturs sið, Honum fús uppgjöf veita, Og sem sannkristinn fús á frið Feginn um greiða' ei neita.

11. Ef við góðvild meir espast hann, Svo órètti við mig beiti, Með fyrirbón guði fel eg hann; Fulltreysti' hann mig varðveiti.

## Nr. 97.

### Góðgjörðasemi.

Lagið: Gœzku nú guðs vèr prísum.

Minn guð! mèr gef það hjarta Gott, hvern sem elskar mann! Gleðst við hans gæfu bjarta, Grætist ef böl hann fann! Sèrplœgni sèr frá snýr; Gagn brœðra gjarnt að stunda Sem gagn sitt, sem öfundar Hraklyndi' og hörku flýr!

2. Veit, eg góðfús mèr flýti, Fái' eg nauðstaddan sèð, Björg honum fús meðbýti Af björg, sem mèr var lèð; Góðvild og greiða' á gjarn, Heims ei til hól að vinna, Nè heiður af mönnum vinna, Nei, guðs að gleðja barn!

3. Sú guðs- mín sè -þjónusta! Þó sè mín af engum gætt, Að hjálpa og hugga tvista, Hag brœðra' og ráð fá bœtt; Þökk fyrst til þrýsti' ei mèr Örlát góðhót að inna; Ónei! hvað þeim liðsinna Vann, guð minn! veitt sè þèr.

4. Svaladrykk þeim hinum þyrsta, Þýð hönd mín beina' er rèð; Hýrt tillit, hins er tvista Huggaði sorgmœtt geð; Holl ráð af munni mèr, Eymdum brœðra'

er nam lètta, Ekkert, þó smátt sè, þetta, Guð! óaðgætt er af þèr.

5. Ófrið ef illfúst sinni Uppœsa keppist við, Veit, guð! eg alúð inni Að af má styggð, semja frið; Níð lastgjarnt náungans Ei ró mèr meiði' af munni, Maklegs hróss dyggð hans unni, En lýti hylji hans.

6. Þín er hefndin, ó herra! Þú hermir: „eg endurgeld“, Með hógværð kenn mèr hnjóð bera Og hrakyrði á mig felld! Gef, þeim tilgefi' eg hèr, Er skaða að mèr hratar, Elski þann, sem mig hatar, Blessi þann, bölvar mèr!

7. Of skammsýn gef þó eigi Auðnukjör tímanleg Náungans hug til hneigi Hollur að bœti' eg; Gagn eilíft andar hans Mig gjöri mest að kæta, Að' mætti' hann ráð svo bœta, Að leiðist til sælulands.

8. Veit, mèr í trúnni veika Vinnist trú styrkt í fá; Hina, sem ráðlaust reika Rás glœpa hættri á, Af lasta' að leiða slóð Á feril dyggðanna' aptur; Æ! veit,

mèr þar til kraptur Og blessan þín býtist góð!

9. Þíns ótta' og elsku þinnar, Ó guð! með helgum yl Helga girnd hyggju minnar Hreins mannkærleika til! Hugfastur sè mèr sá Sannleiki', að sá ei kunni, Sem bræðrum hèr ei unni, Í himin inngang fá.

## Nr. 98.

### Kyrrlát ánægja með guðs handleiðslu.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

En þó ráð drottins og hans vegir Óskiljanlegir sèu hèr, Þó dimmu skuggar dapurlegir Deyfi títt sjónir fyrir mèr, Hvað sem missýnist, hans er ráð Helgust rèttvísi, speki' og náð.

2. Ætti' eg guð þar að eins að lofa, Er eg hans ráð og speki skil? Er ekki gáfa guðs að ofan, Hvað grilli' eg hèr hans vega til? Er sá ei fífl, er segja fer: „Því synjar meira ljóss guð mèr"?

3. Ætti faðirinn ógjört láta Allt, hvað barninu heimska lízt? Hvað þèr, lastdjarfi dári! gáta Dimm er, það skilja

englar víst; Glöggt þó skynjir um guð hèr fátt, Guði trúa hèr læra átt.

4. Skyldi hann veröld verka sinna Vild minni láta stjórnast af? Ráðstafa, þenkja það, sem minna Þreyr spilltra girnda rólaust haf? Sæll em eg þess, að synjar hann títt, Sem fávíst girnist hjarta mitt.

5. Hèr í vegferðar veikleiksstandi Veri mitt hlutfall ánægt geð! Fyrst seinna' í mínu föðurlandi Fullsæla býr, sú mèr er lèð; Veri hèr torfær vegur minn, Fyrst vissa' eg sálar heill þar finn!

6. Um klungur slóðir þó hèr þreytir, Þèr, önd mín! sízt að mögla ber; Hvað böl hèr jók, þar blessun veitir; Birta' er þar skær, hvað nótt var hèr; Eg þá með öllu algjör skil, Um mig guðs ráð hvar stefndi til.

7. Honum kunnug frá eilífð eru Öll sín verk, kraptar hvers og dáð, Á hag þeirra breyting hver og veru; Hans slíkri' á þekking byggt er ráð; Frá eilífð sá hann allt í senn, Sem er og var og verður enn.

8. Því hann líf gaf, hann líknar öllu, Lítur einungis það ei á, Sem einu gagnar; en gjörvöllu Umsjón náðuga gjörir tjá; Takmörk svo yfir tímans þröng Tók hans ráð, sem er eilífð löng.

9. Hèrvistar æfi ei hann lítur Augnablik næsta hverfult á, En eilífðar, sem aldrei þrýtur, Alvitri' í sinni stjórn rèð gá; Farsæll að orðið fái' eg þar, Fótspor við lífs hvert önn hann bar.

10. Hans vegir eins frá vegum manna Víkja, sem himin jörð er fjær; Öll mun hans börnum eilífð sanna, Í öllu' að var hann faðir kær; Hans vil eg hulið heiðra ráð; Hans öll mín efni fela náð.

## Nr. 99.

### Rètt hugarfar í tilliti til tímanlegrar lukku.

Lagið: Einn guð, skapari allra sá.

Guð! hönd hvers nærir heiminn þinn, Hverjum deildan verð skamtar sinn! Gef, verk með gleði vinni' eg mín, Veit, yfir mèr sè blessan þín.

2. Þú elur fyrir mèr önn, en vilt, Eg

gjöri þó, hvað mèr er skylt Og blessað orð þitt boða' eg finn; Bjargi mèr þar til andi þinn!

3. Styrk, að í spilltum heimi' eg hèr Hagi mèr svo, sem geðjast þèr; Fyrst og fremst leggi alúð á Ofríki synda' að leysast frá!

4. Nær sálargagn mitt fyrst eg fann, Fræð mig einnig, við líkamann Skyldrar ræktar með greind fá gáð, Svo glati' hann eigi þreki' og dáð.

5. Guðræknin þar þèr geðjast bezt, Guðræknum blessun hlotnast lèzt; Gef mèr bljúgt, vandað, guðhrætt geð, Gef svo þín blessan fylgi með.

6. Hvers eg þarf, veizt þú; virzt mèr frá Víkja aldrei! þig kalla' eg á; Engis með frekju' eg af þèr kref; En, hvað þú henta sèr, mèr gef.

7. Með bæn eg vil mín byrja verk; Být þú kropp mínum fjöri' og styrk; Verk mín eg byrja þèr með þá, Þeim með hjálp þinni lúka má.

8. Gjör þyngsli vinnu' og verka lètt, Veit, að eg dyggur minni' í stètt Iðji

það fús, sem umbauðst mèr, Aðstoð þín veit eg vís mèr er.

9. Á þèr hefi' eg það fulltraust fast, Faðir trúr! að ei vanblessast Viljir störf láta' og vinnu mín, En veita heill og blessun þín.

10. Þú vökvar fjöllin þurr, og stráð Þú klæðir lauf, blóm, grös um láð; Þú fugla elur; fyr' að sjá Finnst engin skepna þèr of smá!

11. Æ! gef eg viti við þitt geð Vel fara þínar gáfur með, Á jörðu meðan eg hèr dvel! Ó hvað mundi þá farnast vel!

12. Herra trúfasti! heyr mig nú! Horfa' á þig einn mín augu' og trú; Hálp, að mitt annist, eins og ber! Annast mig sjálfur! vel þá fer!

## Nr. 100.

### Ánægja með það, sem fyrir hendi er.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Að guð lèt mig happ það hljóta, Hneisu við og skapraun frí, Brauðs að daglegs næ eg njóta: Næsta feginn verð eg því; Og bið stœrra ei um lán; Ó guð! ver

mig þeirri smán, Öfundar að augum líti Aðra', er stœrra skamti býtir.

2. Langt sè frá, eg lán misunni Lèð sèrhverjum eiga frí; Bið að eins, sem bezt það kunni Brúka' og verða sæll af því, Svo láti ei á lasta stig Leiða það nè ginna sig; Mitt eg láta mèr skal nœgja, Og minn guð fyrir allt víðfrægja.

3. Hlotnist öðrum, hvað mig brestur, Hvergi neitt það af mèr dró; Kann ske þeirra' hið meira mestu Mèr að tjóni yrði þó; Þess, eg veit ei, guð rèð gá, Glöggt hann kann ske fyrir sá, Mig það skaða mundi' og vèla; Mitt eg honum ráð skal fela.

4. Heims að auð skal ósk mín leita Auga með fègjörnu sízt; Yndi sálu' hann ei má veita; Óðar en varir, frá oss snýst; Það eitt, faðir! þreyi' eg hèr, Þurftir lífs að veitist mèr. Viljir þú mèr veita þetta, Víli skal og hugsorg lètta.

5. Ekkert, guð minn! ekkert á eg Eins og sjálfskyldu hjá þèr; Ei ráð taka af þèr má eg; Um ekkert þú ert skyldur mèr. Allt það gott, sem eg nýt hèr, Ó-

verðskulduð náð þín er; Því skal eina, það eg beiði, Þitt að vísdóms ráð mig leiði.

6. Verði allt, sem vild þín krefur, Víst þá gagn bezt eflist mitt. Hvort þú sviptir, guð! eða gefur, Göfga skal eg nafnið þitt, Með andar vera værri ró; Von mín skal og trúin fró, Að mèr gleymt þú aldrei fáir, Í öllu míns æ bezta gáir.

## Nr. 101.

### Þolinmæði í mótgangi.

Lagið: Jesú! frelsari fólks á jörð.

Faðir! af þèr sál þiggur mín Þraut hvort eða' hagsæld, kæti' eða pín Með trúartrausti' og þökk við þig, Þig, sem ei kannt nema' elska mig.

2. Þèr, einum þèr, sem alvís ert, Æ hvað hollast mèr sè, er bert; Þú sèr einn heill, þá þjáning hver Þar muni' um eilífð færa mèr.

3. Lengri' eður skemmri líðan hèr Líðin sízt til ónýtis er; Rót beiskri' af aldin rennur sœtt; Rís þrauta' úr myrkri ljós ágætt.

4. Þó dimma' um kring mig allt sè

auð, Örþreytt mín sál og gleðisnauð: Ó guð! samt ertu athvarf mitt; Upp birtir ljós nótt mína þitt.

5. Ó lát hug fallast þèr ei þá! Þekkir guð byrði', er leggur hann á; Böl, er þig þjáir, bezt veit hann, Hvað breztur þig, allt veita kann.

6. Hvað opt, þá grèt eg, holl þín hönd Hjálp með óvæntri burt tók gröncl! Opt óhuggandi' eg æpti' í dag, Að morgni bættum gladdist hag.

7. Opt útveg framar eg engan sá, Opt grèt, hástöfum klagaði þá: „Hvar ertu, guð minn! eymd mína' á Ei vilt nú líta og veita' ásjá!"

8. Grát minn heyrðir þú, herra! þá, Hjálp varst mèr fús og lið að tjá; Opnaðir sjón, að sæi' eg mèr Sælu hugða', og prís færði þèr.

9. Hvað mörgum sálum heims í nauð Hörmunga þyngsta nótt ofbauð! Og hver var, guð! þèr ástkær sá, Á jörð hèr mæðu' ei lètir þjá?

10. Allir, sem guð þraut æfði' í hèr Og liðs hann beidduð, segið mèr, Segið

hans börn! nær barns síns rèð Bœn smá, er leið þolgœði með?

11. Sú stund er fyr eða seinna vís, Sœt gleði' og þökk af hörmung rís; Böls þá augnablik örfá hèr Í ár fagnaðar breyta sèr.

12. Umbun má ske, áður æfin þver, Andstreymis þíns þèr búin er; Guðs miskun, fyr en grèztu út, Gjörir má ske' enda' á þinni sút.

13. Ef þèr hugsvala enginn má, Í trú þinn lausnara' horfðu á; Hans í barm þínu hjarta' út aus, Hans miskunsemi' er endalaus.

14. Hann, mannvinur œðsti, mótgangs hret Mörg leið, í táradal hèr grèt; Hann þínum tárum hyggur að; Hefir mátt, þeim að líkna', er bað.

15. Efast ei, hjálpa eins vill hann, Efnir trúr það, sem lofa vann: „Eg yfirgefa ei vil þig; Örugg ver, sál! og trú á mig".

## Nr. 102.

Sama efnis.

Lagið: Gleð þig, guðs sonar brúð.

Þolgott í þrautum mèr Þel að auðsýna ber Vegna velferðar minnar Og vildar, guð minn! þinnar; Þá skyldu', er þrátt oss gleymist, Þinn styrk ljá, trúr að geymi!

2. Er mitt ei aska' og mold, Allra sem feðra, hold? Er eg ei aumur maður, Ó drottinn! synd flekkaður? Er um of, eg þó baga Umberi stríðra daga?

3. Ó guð! hvað opt við ber, Er böli þjáumst hèr, Að vorra synda valda Verðum einungis gjalda? Gjöld forþènt glœpa efnum, Guðs barna kross þó nefnum.

4. Er armóðs þungbær þraut, Þola sem latur hlaut; Er hatur hart og stríða, Hvert losti' og drambið bíða, Óhófs pínsl, öfund hvað grætir, Allt guðs barna mótlæti?

5. Er böl allt þeirra þá, Þitt ráð sem blindir smá Og láta ei sig vinna Guðs ótta og trú að sinna, Þungt angur, þó þá græti, Þæg reynsla', er sálir bœti?

6. Löngum þó líkn þín vann Láta

syndugan munn Hegning í synda sinna Síns veg til bata finna, Ef aga sig láta lærir, Löstu svo hata fœri.

7. Kappkosti' eg fastan frið Að fá samvizku við, Mótlæti' allt mèr til bóta Mun þá víst þèna hljóta; Um eilífð guðs vild alráða Allra nœgt verkar dáða.

8. Eg em hèr á vegferð, Eins og gestur á jörð; Hèr ei um sinn, fyrst síðar Sælu' er mèr ætlað bíða; Hvað er, það hèr mig grætir, Hjá þèr, eilífa kæti!

9. Andstreymis ef að eins Ei völd ber sjálfur meins, Ef líð og umber glaður, Eins sem kristinn, sem maður; Hug má eg óhult hreysta Við hjálpráð endurleystra.

10. Eg fyrst manns eðli hlaut, Ýmsri verð kenna' á þraut; Þó til síns skapara þenkja, Þungt mig nær raunir krenkja, Og fulltraust á hann setja, Innra manns þrótt má hvetja.

11. Renn auga upp! hver her Himinsins allan ber? Hygg að, við haf hver segir: „Hingað þú, lengra eigi!“ Þinn nauðhjálpari það er; Þinn guð og allra faðir.

12. Viltu allt vita' og sjá, Hvað veit alvizkan há? Ei gefst um sinn, að sjáir Sönn rök, því kross þig þjáir; Síðar meir raun þèr segir Sæl, hvert hans stefndu vegir.

13. Oss hann því hirtir hèr, Hann svo nálægjumst vèr, Við helgað hjarta' og æði Hljótum sönn andargæði, Með huggun af hjálp svo fáum Hresst aðra', er sjálfir þágum.

14. Vísdóm kross drottins kær Kraptað og reynslu fær, En reynslan trúnni tærir Traust geð, líf hennar nærir; Þrek lát í þraut ei bresta, Þèr máttu vænta' hins bezta.

## Nr. 103.

### Kyrrlæti og geðstilling.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Hvað skal eg þjá mig hugar pín? Herrans bíð stöðug sála mín! Hans bíð, lát fallast hug ei þèr; Hvað þèr gagnar, ei veizt nè sèr; Guð veit það, og þig verndar hann; Hann vernda þá, hans leita, kann.

2. Heim þenna fyr en hafði' eg sèð, Hann mína daga telja rèð; Happ mitt hvert taldi' og hvert mitt böl; Hjálp hans til reiðu var mèr föl, Fyr en eg nefnt gat föður hann, Fyr en mig sjálfan þekkja vann.

3. Hin minnsta hugsorg mín ei er, Minn guð og faðir! hulin þèr; Sem allt sèr, heldur öllu við, Allt lætur þú minn verka frið, Er mèr hefir þú ákvarðað, Eins heimsböl, stœrst þó væri það.

4. Eg lifi til þess ei jörð á, Að hèr fullsælu kunni' að ná; Heimsins forgengur hverful lyst; Hèr lífsins naut eg allra fyrst, Svo œfi' eg hèr, það eilíf má Andarfarsæld mín byggjast á.

5. Hvað auðnu þessa aukið fær, Ætíð veittu mèr, faðir kær! Já, það að veita, þú fús ert; En þessa hvað fær lukku skert, Hæst met þó veröld hafi því á, Herra guð! æ sè langt mèr frá.

6. Þó heilsutjón sè þungbær kvöl; Þungbært sè, skort að líða, böl; Heimsins enn þyngra hatur og níð: Held eg þó kyrru' og drottins bíð; Því verði', ó

guð! ei vilji minn, En vilji að eins, faðir! þinn.

7. Þú, drottinn! veitir þreyttum styrk; Þín yfir öll um eilífð verk Miskunar sig þín mildin há; Mœta hver voði kann mèr þá, Ef vill minn drottinn vernda mig? Verndi mig náð þín föðurlig!

## Nr. 104.

### Móti ágirnd.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Ó guð! lát mig svo aldrei hátt Auð meta' og heimsins glys, Að þau, sem afguð, elski' of dátt, Önd þar með búi slys! Má alls nœgt eigi' og auðsafn þrátt Ánœgju fara á mis? Án hverrar vegsemd heims svo smátt Eg held verða sem fis.

2. Getur skingœða óviss eign Óskum vorum fullnœgt? Er oss, þó viljum, veitt það megn, Að verði þau eignast hœgt? Hlóðust þau jafnan þann á þegn, Er þeim geð mest hafði flœkt? Fljótt hinum misstust furðu' ógegn, Er fèkk þau að sèr krœkt.

3. Það, sem vora með sanni sál Sæla hèr gjöra á, Sál henta vorri, svikult tál Sízt henni reynast má; Alls nægtir dárinn, auð og prjál Þó eignist, meir vill fá; Sannri ró snautt hans hjarta hál Heims gæði láta sjá.

4. Ó drottinn! helga hjarta mitt, Heims gæða fýsn það ver! Ranglátri á burt auðsgirnd hritt; Aflað með þraut hans er; Opt svalli og ógegnd eign hans stytt, Opt vaktar hann nízkan þver; Eykst þrátt með fjárplógs illum kvitt Og bölvun margri' á sèr.

5. Hyggið, guðrækið hjarta mitt Hnoss æðst sè jörðu á! Það eitt, þó allt fari' annað hitt, Ei kann mèr sviptast frá; Eins mèr í dauða fylgir fritt; Farsælstur arður, þá Æfiskeið kveður önd mín sitt, Í eilífð flytja má.

6. Heims glys, heims yndi' og höppin mest Hvað eru', ef þetta brast? Sætir draumar, er sálir verst Svíkja', er af þeim ginnast. Ó guð! þíns anda aðstoð bezt Ósk mína laði fast Frá gróða heims,

þau geymd mèr lèzt, Gœði' himins að hyllast.

## Nr. 105.

### Sannleiks elska og hreinlyndi.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Ó guð! lát mig eptir keppa Að elska jafnan sannleikann! Lífsins sælla lukku hreppa Lygari sízt óbljúgur kann; En fyr' þinni augsýn meir Að engu verða sneyptir þeir; Fjandann, höfund flærða' og hrekkja, Föður sinn má lygarinn þekkja.

2. Ómerkra lausmælgi' að líkjast, Lygar öðrum spinna' í vil, Brœður hrœsni blekkja' og svíkja, Brúka láti' eg sízt mig til; Af sannleik mín athöfn hver Og orð hvert leiðist, hvar sem fer! Hreinlyndur sè hjartans grunnur, Hreint líka, það talar munnur!

3. Þeir, sig flærð og falsi selja, Fyr' þèr, guð! eru viðurstyggð; Gæfuleysis veg sèr velja; Viðsjármenn í hverri byggð; Af frómum, sem eru flærðar án, Fá þeir verðskuldaða smán, Því hvers mannvin-

ar hugargœði Hata fals, vèl, svik, fláræði.

4. Mig ef skœðir munnar níða, Mèr saklausum auka hnjóð: Spekt með, drottinn! lær mig líða! Loks ná sigri málin góð, Sakleysi mitt sannað fá; Samt ef lengur þegja' ei má, Hjálp mèr þá, svo hjarta' og munnur, Að hógværð blíðri' æ verði kunnur!

6. Að hjarta' að sèrt og hegðan minni Í hverjum vottur, drottinn! stað, Veit mèr jafnan vaki' í sinni, Að varist lygum flekka það! Ekkert að sè orðið mitt, Sem eyra glöggt ei heyri þitt; Að sannleik þú unnir hreina, en óvin lygð og fals þig reyna.

## Nr. 106.

### Uppörvan til tímans skynsamlegrar brúkunar.

Lagið: Hver veit, hvað fjærri' er æfi endi.

Óðum fram hjá þèr efstur daga, Ó maður! flýr, sem lifir þú hèr; Tíðar ei yfir tæpleik klaga! Trúlega henni' í hag þinn

ver! Liðins tíma vanbrúkun bœt, Betur ókomins tíma gæt.

2. Þín girnd, við heimsins gabbtál festa, Glatast lèt rèttu lífsins not! Ugglaus heill þinni ætíð frestar; Ei varir, fyr en lífs er þrot; Dauðlegi'! er dirfir þig svo þrátt, Þèr víst augnablik næsta' ei átt.

3. Eilífð sæla svo eignast mættir, Örstuttum heimsins tíma hèr Verja, sem sáðtíð, vitur ættir; Vinna, hvað drottinn býður þèr! Eitt er nauðsynlegt! þig guð þrátt Þar til ljúft kallar; tefja' ei mátt.

4. Flýt þèr því sálu frelsa þína! Forðast að hugsa': „í annað sinn!“ Vak og bið; mannlegs lífs hve lína Lítil sè, telja þèr æ kynn! Lífs lokum fjærri lát sem sèrt; Lastvar, guðrœkinn æ þó vert!

5. Þeirrar til skyldu þig upp vekji Þèr veittur morgun sèrhver nýr! Seg: „ó guð! þinni allt er speki Augljóst. Mig þekkir sjón þín skír; Eg dyggð fús helga allt mitt ráð, Að þinni fagna megi' eg náð.

6. Styrk þú og upp lýs öndu mína,

Því án þín megna neitt ei kann; Heill mína' að velji', í verki' að sýna, Vægð þín enn þessa dags mèr ann. Hvað dýrmæt sú er sèrhver stund, Sem mèr þín veitir blíð langlund!

7. Sæll em eg, ef af öllu megni Eptir guðs ríki' hefi' stundað hèr Og æfidag hvern iðju gegni, Er má vel þóknast, guð minn! þèr; Seinast, ó guð! get sagt í trú: „Í sœmd mig nú meðtekur þú!"

8. Mállausa bœn við míns lífs endi Muntu heyra, sem hjörtun sèr, Nær í trúfastar föður hendur Fel eg loks sálu mína þèr! Þá hreysið fellur, hún til þín Yfir heim upp flýgur, gröf og pín.

## Nr. 107.

### Uppörvan til bœnrœkni.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Þínum af syni þig við sættir, Þínum fyr' hástóli vèr Niður krjúpum; allar ættir Alls holds von og beiðni þèr Sína tjá, hefja hendur sín, Sem heyrir bœnir, guð! til þín! Engan lèzt þú óbœnheyrðan Aptur hverfa sútum reyrðan.

2. Alls nœgð ertu, alls hins góða! Að vèr biðjum, vild þín er; Meiri þú átt blessun að bjóða, En biðja' um vit á höfum vèr; Um eilífð, guð! sem aldrei dvín, Er ríki, makt, dýrðin þín! Full-traust barna, faðir, þinna Fylla muntu' og blessun inna.

3. Hvað gott er á himni' og láði, Hóf þinn kraptur veru til; Það áður varð, af þínu ráði Var þínum börnum hugað í vil! Þinna gáfna öllum auð, Aldrei þrotinn, náð þín bauð; Allir skyldu' um eilífð glaðir Af þèr blessast, mildi faðir!

4. Vèr allir börn þín ættum glaðir Í bœn mœta fyrir þèr, Allra vor fyrst ertu faðir, Ómögulegt fyrst neitt þèr er; Öll-um lífið lèntir þú, Og lán allt, sem þá gleður nú; Eilífð sælli öllum heitir, Ó-endanlega meira' að veitir.

5. Til þín flýja', í trú þig biðja Tamt skal oss, og þiggja' af þèr. Lofkvæði þitt skal öll vor iðja Eilíf þökk, sem fœrum vèr; Heill oss kristnum! þín börn þú þekkir, annast, blessar nú! Þín

æran, máttur er og ríki! Ó hver, faðir! þinn er líki!

## Nr. 108.

Bœnrœkni.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Ef, kristinn maður! annt er þèr Um velferð sálar þinnar, Fullgáður og árvakur ver Í verki bœnarinnar. Bœn hjartans góðum grunni frá Guð, þinn faðir, rèð aldrei smá; Með auðmýkt og þakklæti Birzt í hans augsýn opt og fús; Önd þína við hans prófa ljós; Tjá honum, geð hvað grætir.

2. Hátign, er ræður himní' og jörð, Hún þarf ei mannsins bœna; Hvað sæll ertu! hver sœmd þèr gjörð, Sem í hæð dirfist mœna Og biðja guð, hvers boð það er: „Biðjið, þá skuluð öðlast þèr!“ Öll bœnar áttu notin; Sá fyri' að biðja blygðast vann, Blygðast guðs vinur að teljast hann; Hans andar heill er þrotin.

3. Er það ei vorri sómi sál Sína ósk guði' að kynna! Bera fram auðmjúk bœnar mál Og beiðast gæfu sinnar?

Skal torveld metast skylda sú? Skylda, við hverja tregðist þú, Í guðs þig ótta að styrkja, Í trúnni' um það, guð elski þig, Og alúð hreinni', er jafnan sig Vekji til góðra verka.

4. Bið opt einfeldni andans í; Á hjartað drottinn lítur; Guð er andi; þig orðin því Aldrei til bœnar þrýtur, Ef til þèr hjartans þel fèkk þrýst, Þinna hljómur það orða' er sízt Snilld settra', er guð helzt gætir; Guð er ei maður; minnst þess bezt; Málsnilldar fyrir honum brest Barna stam trúað bœtir.

5. Opt bið guð, smakka' á yndisstund, Hvað er þinn faðir þýður! Opt bið guð, þraut ef þjáir lund, Þèr mun hann sykra blíður Böls þá útmældan bikar þinn; Bið opt, ef freistni særir stinn, Guð heyrir, hjálp guð veitir; Bið opt, þá huggun innra brast, Afl gaf og þrek hans geð trúfast Mœddum, sem þungi þreytir.

6. Bið opt og glaður undra sýn Af seðst, er hann til reiddi; Lít alvöru' hans og ást til þín, Er hann þig með

fram leiddi; Þú valdir ungur villustig, Villan fullorðinn glapti þig; Þig leið hann þolinmóður. Og heimti' á dyggða aptur braut Ýmist með hagsæld lífs eða þraut; Gæt að, hvað hann er góður!

7. Opt bið, og í hins eilífa vist Andarsjón glaðri rennir; Ókomnu' að forsmekk aldar fyrst Í unun trúar kennir! Ótal þúsunda ára röð Önd þín farsælla reikni glöð. Augnablik ei þó heita Sú sæld hjá hinni sælu má, Sem guð þeim lætur birtast á, Er hans af hjarta leita.

8. Bið opt, heilagri hugdirfð með Hjartgróna miskun skoða Hans, er með dýrstum dreyra rèð Draga kyn sekt úr voða, Syndara' er leysti af synda þrá; Sízt munt það verk út grundað fá; Guðs er það dýrsta dáðin! Hèr við þig trúr og gætinn gleð; Geð þitt af syndum alúð með Hreinsa; guðs göfga ráðin.

9. Bið opt, án víls þinn vanhag tel Og veikleik guði' í næði; Alvís um hjartans eigi þel Af orðum munnsins fræðist; Orð metur hann hjartans eptir rót; Ei beygð knè, tár, nè heitin fljót,

Orð snjöll, andvörp, lofkvæði, Guð unnið fá; en örugg von Og sönn trú á hann og hans son, Þyrst önd, sem þráir hans gæði.

10. Bið opt, guð er á öllum stað, Á neinum meir nè minna; Þenk ei: „minni', ef með mörgum bað, Mun drottinn bœn fyr sinna"; Guð er ei maður; ef hann sèr, Að ósk þín góð og rèttvís er, Hana fús hann mun veita; En sè hún rèttvís ei nè góð, Allrar veraldar táraflóð Guðs má ei geði breyta.

11. Opinbert samt ei afrœk þú Ástvina drottins safnið; Þín unaðsemd sè ætíð sú, Að biðja' og göfga' hans nafnið Börnum hans, þínum brœðrum, með, Bróðir sannkristinn þitt að sèð Fullt andakt hjarta fái, Sem þú sèr hans, og af þeim yl Alvöru sömu vekist til, Sem hans þèr hegðan tjáir.

12. Ef herra ert, þeim hlýðni tjá Hjú: þín fyrirmynd skíni! Hvern dag með þeim að helga þá Heillastund bœn ei týnir! Of góður þykjast enginn má, Að annast velferð sálna', er gá Til hverjum

guð rèð trúa; Veslast hjú húss ei vanti hèr! Víst það, sem kristinn, skylt þèr er Frœða', á veg friðar snúa.

13. Títt fram ósk fyrir brœðrum ber; Bið, sem vinur, fyr' öllum! Eins erum líkams limir vèr, Limur hans hinn, er köllum Óvin, er með, hvern elska' átt þú. Opt bið, þá muntu geyma trú, Þig prófa', hið vonda varast; Ei kólna ást og alúð í, En fús til góðs æ hyggnast, því Lengur sem líf þèr sparast.

## Nr. 109.

### Bœnarsálmur.

Lagið: Hver sem að reisir hœga byggð.

Ó guð! svo vítt þín gœzka nær, Sem geim sèr ský um þeyta; Oss krýnir miskun ást þín skær; Oss skundar hjálp að veita. Heyr mína bœn, mitt hróp þú merk, Herra! mitt vígi' og borg mín sterk! Með bœn þín bljúgur leita.

2. Alls nœgtir óska' eg ei að fá, Ei heims fjársjóðu þessa; Mig, hvort sem meira' eða minna' eg á, Mildin þín virðist blessa! Þá vizku, guð! að þekkja þig,

þann, er sendir, og sjálfan mig, Lát geð mitt helga' og hressa!

3. Metorða' og hróss, er margir þrá, Mín bœn ei heldur krefur; Mèr lát gott haldast mannorð á, Mildi þín unnt sem hefur; Mitt sanna hrós fyr' sjónum þín Sè, að trúr rœki' eg skyldu mín! Gleðjandi von það gefur.

4. Um langt skal, faðir! æfiskeið Ei heldur bœn mín þreyta; Auðmjúkt í sæld, öruggt í neyð, Æ virztu geð mèr veita! Minn tími' í þinni' er, herra! hönd; Hrelldri að eins, ó faðir! önd Í dauða' um náð ei neita!

## Nr. 110.

### Bœnarinnar kraptur að friða hjartað.

Lagið: Guðs son kallar: komið til mín.

Gæti' eg við neyð og gleðibann Ei guði treyst, ei beðið hann, Hvað vesall eg þá væri! Aldrei, minn guð! fullþakka' eg þèr, Þú bœnar huggun veittir mèr, Von mín ef veiklast fœri.

2. Angur þrátt mínum blundi brá, Bannaði værðir hollar fá, Róvani' eg

engu eirði; Um þá mest í mèr angrið brauzt, Eg kraup, bað guð, og nýtt fann traust, Því guð minn grát bœnheyrði.

3. Hug öruggara' eg mína með Mœðu þá bar, inndælli rèð Upp fyllast önd mín teiti; Í bœn þá huggun, um er bað, Og grœðslumeðal hjartans það Eg fann, sem orð þitt heitir.

4. Að morgni' ef bœn eg offra þèr, Allan þann dag eg finn í mèr Hugsorgir hættar þegja; Með væru geði' eg gœzku þín Gjörvöll fel kjör og hagi mín, Við fulltraust það fús að þreyja.

5. Blíður og rór varð blundur mèr, Nær böli' eg áður fyrir þèr, Ó minn guð! út jós mínu; Líf mitt, ó faðir! vernd þín ver, Við það kvíðalaust önd mín sèr Hèlt, skjóli' óhult í þínu.

6. Með trega og hugraun mætti ske Margan dag enn mèr ætlað sè Í hættum heimi' að þreyja; Æ, lát í þraut mig aldrei þitt Andlit firrast, en til þín mitt Í bœn æ hjarta hneigja!

7. Unn til þess finna ætíð mèr, Að þeir, í trú fulltreysta þèr, Þitt andlit all-

ir finna; Von mín skal byggð þèr einum á Í allri minni neyð og þrá Með værð og settu sinni.

## Nr. 111.

### Bœnarinnar kraptur gegn syndinni.

Lagið: Jesús, guðs son eingetinn.

Á fótskör þegar þína Þíns sonar nafni í Krýp fram, og flyt bœn mína, Fýsn þá upp lífgast ný Önd mína' að eflá' og styrkja Til allra góðra verka, En synd með andstyggð flý.

2. Eg þinnar ástar glœður Í mèr þá, drottinn! finn; Helga dáð, hjarta' er ræður, Að hyllast trúr vilja þinn; Synd hatur eilíft inna, Aldrei flátt láta ginna Hennar glys huga minn.

3. Holdslyst sèr þá ei hreifa Í hjarta dirfist mín, Nè ill girnd önnur að leyfa, Er lög mèr banna þín; Við skeiðslok hnossið hljóta, Hylli þinnar að njóta, Mín einka' er ósk þá brýn.

4. Guð minn! þá glœpa' eg ranga Girnd í mèr kvikna finn, Fram vil eg fyr' þig ganga Fljótt með bœn, drottinn

minn! Er bœn mèr iðka kenndir, Áheyrslu bœnar sendir, Sem faðir, sèrhvert sinn.

5. Girnd alla', er mig kann meiða, Mun þá í brjósti mèr Bœnrœknin blessuð deyða; Sem barn að unna þèr Af alúð iðka og keppa; Eilífa sælu hreppa, Hlaup þá hèrvistar þver.

## Nr. 112.

### Uppörvan til verðugs helgihalds drottinsdagsins,

Lagið: Á einn guð vil eg trúa.

Velkominn, drottins dagur! Dýrst minnar sálar hátíð þú! Haldinn skalt mèr heilagur Með hinna fyrstu kristnu trú; Hvíld vil eg mig helgri vígja, Hègóma sneiddur frá, Lystir heims ljótar flýja, Lyst himins kveykta fá; Flytja skal föður alda Flug önd mína til ranns, Með glaðværð helga halda Hátíð ódauðleikans.

2. Að mín aldrigi skeiki, En sigurhrósi fagni trú, Eg veit hún er sannleiki: Upp sèr frá dauðans lypti nú Dupti Jesús, minn drottinn; Dauðans nú sigurhrós Hvar er, sem hreifði spotti?

Hans orð er sannleiks ljós. Þín orð guðs orð eg sanna, Ó drottinn Jesú minn! Lausnara, lífgjöf manna, Ljós og veg þig eg finn.

3. Þín kvöl og krossins dauði, Konungur dýrðar, sonur guðs! Þitt líf við loknar nauðir Lífga mig skyldi til fögnuðs, Og hjarta mitt í hæðir Hefja, lausnari minn! Líkn þinni' að mitt lofkvæði Lof rómi', að eg er þinn! Hvar er á himni' og jörðu, Þeim heiður, þökk eins ber Af hrærðu hjarta' að verði Hátt rædd í dag, sem þèr!

4. Sameinuð helgra sveitum, Sem birtast fyrir þèr í dag, Önd mín skal ástar heitum Yl þinnar lýsa' í þakkarbrag; Hvar helgir safnast saman, Sitt lofkvæði til þín Upp skal bljúg önd mín stama Af hjartans grunni sín; Á síðan engla' í skörum Eg nær þinn prís fram ber, Lof vænna' af hreinni vörum Vandað skal, guð minn! þèr.

5. Náðar rödd heyri' eg hljóma Helguðum þèr, minn guð! í stað, Minn Jesú! mildi róma Mèr þinnar flutta hlustum

að: Upp þá mitt andvarp stynur Í kyrrð og lýtur þèr, Að fræða vilt, sem vinur, Og veita huggun mèr; Eg þá, þinn endurleysti, Ást þinni fagna má, Heims frelsari'! og af þèr hreystist, Hlýðni þèr skylda' að tjá.

6. Mín gæfa, mín er skylda Með spekt guðs orð að lesa' í dag; Út skúfa ef eg vilda Uppfræðing þinni minn um hag, Þú vera' alvís og hæsta! Væri' eg ei blindur þá? Nei, auðmýkt eg vil stærsta Og þökk, sem barn! þèr tjá; Auðmjúkur öll meðtaka Orð og boð kennd af þèr; Bænrækinn biðja' og vaka; Blessast þá orð þitt mèr.

7. Í kyrrð skalt þèr, minn andi! Í augsýn safna skapara þíns, Alhug þig af spyrjandi: „Innra manns hver er lystin míns? Hvað hrellir, hvað mig kætir? Hvað mest eg stunda á?“ Allt vel og grannt aðgætir Guðs viður birtu' að sjá! Athöfn veg alla! skoða Allt þitt líf, sál mín, hèr! Ef verjast viltu voða, Við Krists allt saman ber.

8. Ef skyldi geð þitt geyma Glæp,

hvers iðrazt ei hefðir þú: Æ, þá skalt ekki gleyma, Að iðrast hans af hjarta nú! Þá mun þèr gleði góða Guðdómleg huggun fá; Íhuga ást, þá bjóða Ástríkur faðir má; Þú með glaðværu geði Gjald mildum föður þökk! Vægð, þèr er veita rèði, Viðurkenn í dag klökk!

9. Velkominn, drottinsdagur! Dagur unaðsemd hjarta mín Og blessun fær þú fagur! Fegurst lífs sól, sem eilíf skín! Æ, verm mig! önd þú mína Í hæðir til þín drag! Þíns anda fylling fína Svo fylli hana' í dag; Við helga' að verð eg finni Veitt fjör til dyggðar hèr Nýtt mèr, guð! gœzku' af þinni Gef þú þá blessun mèr!

---

# VIII.

## Dauðinn, dómurinn, annað líf og sæla eilífs. lífs.

---

### Nr. 113.

Bœnarvers í elli.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Mitt æfivor um garð er gengið, Gleðitíð fagra liðin er; Huglaust skal víl þó heyra enginn, Þó heimför nær sè komin mèr; En líf svo stutt kapp leggja á Líði' ei ónotað mèr í frá.

2. Kenn mèr, guð! gœzku göfga þína Fyr' gœði', er naut hèr, margfaldlig; Veit mèr þakklæti' í verki' að sýna Og vel til dauðans búa mig! Viðbúinn rètt eg vænta' hans má Með von um líf betra himnum á.

3. Styrk hárrar elli hruma fjörið; Hollrar leið sálu vizku til! Hèr eptir lífstóm hvert mèr kjörið Heill andar notað sè í vil! Meðtak svo, faðir! mína önd, Míns jarðarlífs þá slítur bönd!

4. Þótt dalir sökkvi, fjöllin falli, Full-

traust mitt, von mín skeikar sízt; Guðs til eilífðar gegni' eg kalli, Guðs að eilífð minn vegur snýst. Ó guð! hvað hólpinn er eg þá, Nær upp flýg loksins hèr í frá!

## Nr. 114.

### Yfirvegan dauðans.

Lagið: Jesús Kristur er vor frelsari.

Hvað ugglaus lifir moldin, maður, Hvern margopt svikult trylldi smjaður, Lauf þó fallandi líf sè manns, Langt þó enn fjær sè helstund hans.

2. Hinn ungi gráu árin þráir; Árum sèr vaxinn mörgum spáir; Við mörg kýs gamall enn bætt ár! Engan varir sá dulur flár.

3. Um dauða, seg þú ei, eg rèði Opt hugsa minn í sorg og gleði; Um hel sá að gagni hugsa vann, Hyggindi þar af læra kann.

4. Fyr' eilífð hèrvist lèð burt líður, Að lærum gjöra, guð hvað býður; Æfinnar minnsta er því bil Oss lènt tóm vors hjalpræðis til.

5. Dauðinn sálir fyr' dóminn leiðir, Drottinn þar allt fyr' ljós út breiðir Og ráð gjörir hjartna opinber, Áður í myrkri fólgin hèr.

6. Fyrst dauðans ótta' ert dag hvern knúinn, Dag hvern vak og sèrt reiðubúinn! Reyn, hvort með kærleik krapt sinn tèr, Sem kristnum hæfir, trú þín hèr.

7. Hjarta, sem rödd guðs hlustir lèði, Hlýðið frá illu snúa rèði; Trúað hjarta, fullt elsku yl, Í Kristi gildir lífsins til.

8. Helgan ómak á hönd þèr segir, Hana guð verkar, en þú eigi; En hana stunda' af alúð ber, Sem eigið verk þitt sè, jafnan þèr.

9. Lífs þess kallan, er lifa þú hreppir, Lífs æðsta mið, sem fram að keppir, Af lífsins meðferð einust skil, Er dyggð af trúar verkuð yl.

10. Þá skyldu alla æfi' að lúka, Er dauðans minning rètt að brúka; Framför í dyggðum sèr æ sett, Sú ein er dauðans minning rètt.

11. Hvað opt kalls þessa gleymdi'

eg gæta! Ó guð! lát mig ei dómi mæta! Ræt sjálfur dauðans mynd inn mèr, Svo megi' eg fram ganga verðugt þèr!

12. Að hjarta mitt á hverjum degi, Herra! fyrir þèr prófa megi, Hvort elska, friður, auðmýkt, tryggð, Andans gróði, þar hafi byggð.

13. Að í náð hjá þèr æ eg standi, Æ míns breyzkleika verjist grandi, Og sonar guðs trú í seinast að Segi frór: „það er fullkomnað!“

## Nr. 115.

### Viðlíks efnis.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Mín lífstíð er á fleygiför, Flýgur með mig stund gröf að hver; Og það eg kann ske ólifað á, Ó, hversu lítið teljast má! Hugsa þinn, maður! á afgang átt, Eitt er nauðsynlegt! tefja' ei mátt!

2. Líf, sem, þá lífs ei lengra' er unnt, Að lifað hefðir, kjósa munt; Ei gæði, sem þú ávannst hèr, Ei metorð, er menn gefa þèr; Í deyð þig gleðja ekkert má; Eign þín glys það ei verður þá.

3. Geð eitt, sem elska' hins góða' í bjó, Góð að eins samvizka og fró, Fyr' guði' er vitni gefur mætt, Gjöra má biturt hel þèr sœtt; Slíkt hjarta guði helgað af Hrausta glaðværð í dauða gaf.

4. Þá vinir nábeð þínum hjá Þig í hels neyð bjargþrota sjá, Hreint þetta hjarta hefja þig Heim yfir kann og dauðans stig; Ógn dóms þèr engin ótta fær, Því athvarf þitt er drottinn kær.

5. Að þenna hjartans öðlist frið, Óttast guð! jafnan vak og bið! Kvíð ei, hvað snemma kallast frá; Kann guð hentast þinn tíma' að sjá; Ei nóg, hræðslu við hels sèrt frí, Heldur lær og að fagna því.

6. Öruggri trú hel yfirvinn; Eg veit, seg, hver fulltrúi' er minn! Eg veit, á síðan eg mun fá Í mínu holdi guð minn sjá; Sá dauðann völdum svipti', er kvað Með sigri: „það er fullkomnað!"

7. Tem þèr í anda göngu' að gröf! Gæt, hve þín bein þar hníga' í döf; Seg: „drottinn! kenn þá menntun mèr, Að muni' eg til, að dupt eg er; Mig

hvern dag vísdóm minn á þann, Mig svo vitrari gjöri hann".

## Nr. 116.

### Sjálfsrannsókn við yfirvegun dauðans.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Fyr en mitt áform framkvæmist, Falla kann hreysið niður, Og bein þau dimma gröf fá gist, Gjöf lífs er heil nú styður.

2. Sál mín, ef ætti' eg deyja' í dag, Dylst ei, hve við þèr yrði! Gott, rèttvíst, hreint þitt hjartalag Hvort er, svo guð það virði?

3. Mundir þú staðizt fyr' honum fá? Fyr' honum, þeim heilaga? Feilar þú þín ei þann að sjá, Er þèr gaf lífs anda' að draga?

4. Vert ei við þig of væg í dóm! Varast, þèr smjaður fargi! Verður fánýtt þín von ei hjóm? Var trú þín reist á bjargi?

5. Alls þíns kristindóms upprás fyrst Athuga grandvör skyldir: „Knýr þig

fram manna lofstírs lyst, Eða lausnarans ást og mildi?“

6. Æ! vit, við deyð flýr drauma fans; Dyggð falska grundvöll brestur; Hvern guðs brast anda, hann er ei hans; Hræsni' er ráðgjafinn verstur.

7. Leitar einlægt guðs lofstírs þú? Lífðir Kristi', eñ þèr slepptir? Hvað! sènn ef Jesús segði nú Svo hvern dag: „fylg mèr eptir!“

8. Forðast þú synd, er fremst var kær? Fær þú æ sigri' að hrósa? Stjórnar þú geði stilltur og vær? Stríðslok fær, sem vilt kjósa?

9. Æ! klaga sjálfan eg mig hlýt, Enn kristins dyggð mjög fjærri; Ef vægðar ei hjá þèr, ó guð! nýt, Örvænting harðla nærri.

10. Titra mætti' eg, ef mèr í dag Mætti raust: „bú þig hèðan!“ Faðir! í líkn enn líf mitt drag, Ljá krapt, eg betrist meðan!

## Nr. 117.

### Bœn um sáluhjálpleg æfilok.

Lagið: Gef þinni kristni góðan frið.

Ó, drottinn! bœn mín upp til þín Æ

stígur; hróps míns gætir; Eyra þitt heyrir andvörp mín; Ósk mín, býður þú, rætist! Auðmjúkt þakka' eg þá og kætist.

2. Ekkert mig brast; þú annast mig; Eg treysti þèr fullhuga; Öllu', er eg þarf um æfistig, Að mèr þín náð kann buga, Og vill, svo mèr vel mun duga.

3. Hèrvistartíma tala' er fá; Við takmark bráðum stend eg! Fyrir það líf, er fljótt leið hjá, Föður ei skópst eg hendi; En fyr' eilífð, að sem vendi.

4. Leið mig, faðir! við hœgri hönd Heim til föðurlands sanna, Villu svo mig ei vèli grönd, En veg megi rèttan kanna, Og sælla fagna fèlagi manna!

5. Lát mig til engis lifa' ei hèr! Líf mitt þèr helgað veri! Unaðsemd sè það œðsta mèr, Að fús þinn vilja geri! Vönduð breytni vott þess beri!

6. Loks þá mig kallar hèðan heim, Hjálp mèr trúar sjón venda Á Jesú deyð öruggum! þeim Anda minn glaður afhenda Föður, er leiddi lífs til enda!

7. Blundi þá vært mín bein í storð; Brigðulaust þeim ei gleymir; Í nýtt líf

þitt mun alvalds orð þau endurkalla', er geymir, Nær birtist þú í hátign heimi.

8. Ó, hve þèr, sál mín! verður við, Vegsamri' er bygging fagnar, Og lífs dýrðarfulls finnur frið, Fagnaðar lofsöng magnar, Sem um eilífð aldrei þagnar!

## Nr. 118.

### Faðir vor, sem andlátssálmur.

Lagið: Ó guð, minn herra! aumka mig.

Ó faðir allra, faðir minn! Fram kem eg fyrir hástól þinn; Barn þitt virzt blíður gleðja, Er brátt skal jörð þessa kveðja; Barns síns minnist þín mildin há! Móðstuni hjartans eyru ljá! Hróp mitt þrátt heyrðir nauða, Heyr mig nú líka' í dauða! Sem fyr, nú reynst þú faðir minn! Faðir! mèr himin opna þinn! Fram leið mig þèr við föðurhönd Fárleg í gegnum dauðans grönd Húss þinna heim til sauða.

2. Þíns nafns er tignin, herra! há Hverju framar, sem nefnast má; Hjálp, að það heilagt ræði Hugsan mín, tal og æði! Styrk þú mitt hjarta, styrk

mitt vit! Styrk önd mína', að sèr færi í nyt Til dýrðar þèr dýrst sannindi, Drottinn! er þú mèr kenndir! Allt svo þú verðir aleinn mèr, Eins, þá mitt hjarta bresta fer; Andvarp, er síðast út styn, mitt, Ó guð! vegsami nafnið þitt, Í lífi' og deyð líkn er sendir!

3. Dýrst náðar yfirdrottnan þín Dásöm birtist á sálu mín! Breyzkleik minn, brot og gröndin, Blessuð þín föðurhöndin Allt láti seinast enda vel! Æ meir og meir mitt hjartaþel Óskum jarðar afsegi, Afhuga þeim svo deyi! Af lífsins þrautum loks alfrí Leið mig þitt dýrðar ríki í! Tilbiðjandi eg þar skal þá Þína föðurhandleiðslu sjá, Leynda mèr lífs á vegi.

4. Verði, faðir! þinn vilji' á mèr, Sem vís og góður jafnan er! Bœn trú og blítt þolgœði Bezt kenn mèr, sorg þó mœði! Aldrei bregzt oss þín hjálparhönd; Hjartans rósemd það veitir önd; Sjálfs vilja eg afsegi, Sjálfræði holds burt fleygi; Bezta þú mitt æ veizt og vilt, Við það skal una sál mín stillt Og

þó vanmegnast ætti hold, Ertu þó guð, en eg er mold; Vel greiðast þínir vegir.

5. Brauði mèr dag hvern býttir þú; Bœnheyrsla mèr og aðstoð trú Veittist, þá sorg mig særði; Sem faðir þú mig nœrðir; Fyr' gáfur, faðir! þínar þèr Þökk sè! hvern mola', er veitti mèr Hönd þín, sú holl rèð seðja, Hjúkra mèr, styrkja, gleðja; Eins styrk og seð nú öndu mín Auðgum með náðar gœðum þín! Þörf nú jarðneska þrjóta' eg finn; Þreyr annað betra hugur minn, Fallvalt líf fús að kveðja.

6. En, guð heilagi'! eg óttast má Auglit þitt fyrir fram' að gá; Ef reikning í þú gengir, Ó, hversu' eg staðizt fengi! Æ! fyrirgef mín glœpa völd, Góði faðir! fyr' Jesú skuld! Hans vegna brot lát bœtast, Og blessað heit þitt rœtast, Að þú upp gefir afbrot fús, Sem afplánaði minn Jesús, Æ, hróp mitt heyr! mitt angur sjá! Efl mína trú, von gleð mèr' hjá! Mœdd önd svo mætti kætast.

7. Uppgjöf til reiðu einlæglig Þeim, áreittu og styggðu mig, Öllum skal ætíð

vera; Til engis hatur bera; Óvin minn bróður eins eg fann; Á kalla' eg þig guð! fyrir hann; Gef honum sáttgjarnt sinni, Svo hann náð hjá þèr finni! Efl þú hans líf og andar frið! Inn leið til samfèlags þig við! Ef eg mein honum eitthvert vann, Upp gefi mèr það þú og hann! Og vægi veiki minni!

8. Lífsskeiði hálu lúinn á, Lífsspor seinustu feta' eg má; Megn freistni og minning synda Mèr í efasemd hrinda; En föðurhönd þín, faðir trúr! Frelsaði' og dró mig voða úr; Eins veit eg enn og þrái, Að í náð til mín sjáir. Um megn fram freistast ei lát mig, En halda stöðugt mèr við þig! Þó ógn um spenni öndu nú, Efli mèr þrótt þín gœzka trú, Að sælum sigri' eg nái!

9. Í mörgum voða, mœðu' og neyð, Mèr reyndist föðurhjálp þín greið; Egnd snara' ef fót minn flœkti, Þín föður- trúföst -rœktin Mig leysti, greiddi' af fjötrum frí; Fara virztu nú eins að því! Neyð efst sig mèr nálægir; Nætur hels skelfing œgir; Öll er mín von á einum

þèr, Enn trúr frelsari reynstu mèr! Mitt efsta, faðir! stutt gjör stríð! Stund burtfarar rósöm og blíð Mínum lífs mæðum hœgi!

10. Amen! já, ríkið því er þitt; Þegn þinn eg, eign þín allt er mitt; Á mig réðst ofsi' og flærðir, En þú mèr sigur fœrðir, Og að smán gjörðir óvin minn; Œðsti guð! þinn er mátturinn! Þú veizt að verka' allt framar, En vor bœn aumra stamar; Þú allt veglega framkvæmt fær, Fram langt um það, vor skilning nær; Þín dýrðin, guð! frá eilífð er! Æ hèr og síðar lof sè þèr Um aldir alda. Amen.

## Nr. 119.

### Dómur veraldarinnar.

Lagið: Kom skapari, heilagi andi.

Heims alls dómari! hrynja þá Heilu sköpunar bygging fer, Fold, lögur, himin, flýja má, Funi um leikur stjarna her;

2. Hátt sóla-rása hæð í nær Hástóll ljómandi gnæfir þinn, Og meður byrgðri ásján skær Út þrumar Seraph hljóminn sinn:

3. „Dýrð honum, mannsins syni, sè! Sá kemur! laun sín með sèr ber! Hæst þèr, ráðvandi'! er heill í tè! Háðung og böl, þjón lasta! þèr!“

4. Nær þig veraldir síðan sjá Sem ljóma himins fegurstan, Skína rèttlæti ásján á, Undir þèr tímann fjötraðan;

5. Heill og ljós veg þèr hægra á, Hlutfall ómildra' á vinstri hlið; Þig, almáttugi! þeir nær sjá: Sem þrumu lostnir skelfast við.

6. Nær grafir kvikum gjósa þá Og gyrðill landa beinum fer; Úr nótt þá fúa' og moldar má Mergðar heims þjóða vakna her:

7. Upp lítur skari' á aðra hönd, Ástvin, dómara' að líta sinn; Örvænting, ofsi, gremju grönd, Glapinn umvefja sæginn hinn.

8. Fram þá gröf líka' af minni mig Megnhvellur heimtir lúður sá, Og bein mín hörundi búa sig; Byrja mold þessi nýtt líf á;

9. Og dómarans, hæð upp rykkt í, Alvörusvip og hátign sèr; Augu, sem

leiptra elds við ský: Æ! hvernig mun þá liggja á mèr?

10. Æ! fengi' eg, dýrsti frelsari! þar Feginn róm blessand' heyra þann: „Sönn þín dyggð fyr, þá svangur eg var, Saðning mèr holla bjóða vann.

11. Þú fyr svalaðir þyrstum mèr; Þitt mèr skjól nöktum veitti fat; Tókst húsvilltan, veikan að þèr; Veittir líkn, þá eg fanginn sat".

12. Œðsti guðs son! þitt andvarp hýrt Þá innti mèr þeim gleðiróm, Haf farsældar og friðar dýrt Fullsælu himins eilíft blóm.

13. Perlum stráð gegnum himna hlið Hefur sig önd mín þá í borg, Er ljós þitt, guðslamb! upp ljómast við, Leiptrar þess dýrð um fögur torg.

## Nr. 120.

### Sjálfsrannsókn við yfirvegun dómsins.

Lagið: Jesús, guðs son eingetinn.

Eg em þín eign, ó drottinn! Eign þín allt líf mitt er; Að veitt það sè, allt ber vottinn, Til vegs þèr, en gæfu mèr; Leið

hætta lífsins stiga Leiðist eg föðurliga, Fram, ó faðir! af þèr.

2. Með stórum krapti kemur, Kyn manna' að dœmir brátt; Þann reikning þá hann fremur, Þú, sál mín! mœta átt; Þinn dómur þyrmir eigi Á þeim endurgjalds degi, Heimsdrótta dómsvald hátt!

3. Eymd mun mig eilíf pína, Ef misbrúkaði' eg hèr Minn tíma, krapta mína, Og mèr veitt gœði' af þèr! Ef gáfum illa varið, Út sóað, fyrir farið Var þínum, vei sè mèr!

4. Dag hvern lát dóm þinn sveima, Drottinn! fyr' hugsjón mèr! Að skyldu' eg æ að geyma Ástundi trúr, sem ber; Að gálaus aldrei brjóti; Undan mèr hvergi skjóti, Að hlýða' í öllu þèr!

5. Vit gef mèr, vel að telja Vegferðar daga hèr; Spor hvert með varúð velja, Þar veit reikning af þèr Búinn, sem fæ ei flúið; Að fái mig til hans búið, Veit, lífs það eptir er.

6. Ógurleg eilífð, komin Allnær, þá sýnir sig, Um náð, er úti tíminn, Ó guð! að biðja þig; Óvægt hel að þá gengur,

Eg get þinn vilja' ei lengur Gjört, þó þessa girni mig.

7. Mig strax samvizkan víti, Sem verður synd á mèr, Lausnari'! að til þín líti, Og leiti náðar hjá þèr, Og finni; svo þig segja: „Syndari'! ei skaltu deyja! Allt fyrirgefið er!"

8. Þinn dóm kom þá að heyja! Eg þora má biðja þig; Sízt mun, faðir! burt fleygja Friðar þín árnan mig; Eign veit mig um eilífð þína, Í ást þinni sálu mína Um eilífð þá iðka sig.

## Nr. 121.

### Hugleiðing hins síðasta dóms.

Lagið: Sæll dagur sá.

Drottinn! nær þinn dóm mèr í hug eg leiði, Þá fyrst eg finn, fallvöltu lífs hvað skeiði Til engis, já, til ills þrásóa vann; Sekt mína þá samvizkan þunga viður Hart hrellast má og hverfa burtu friður Við þanka þann.

2. Að eilíf þín alvizka ljóss til færir Allt, hvað sál mín í myrkvum fylgsnum nærir; Athafnir, orð, eins duldust hjart-

ans ráð; Illt eins og gott, sem ól eg hèr í brjósti; Hvers eg ber vott, hörðum þó slái þjósti, Þá þess fæ gáð.

3. Allt, hvað eg hèr ei þekkti, duldist viður, Gleymdi, svo mèr gæfist, þó svikull, friður, Allt mönnum þar og englum birtast má; Allt það ógleymt á bækur skráð er dóma; Hjá guði geymt; guðs dóm svo hljóti' að róma Sá, sök fèll á.

4. Hvað stoðar, hèr um stund þó leyna kynni Illu, sem mèr óbljúgu geymdi' í sinni, Fyrst veröld heil það vita' á síðan mun! Fyrst guði þá get nè samvizku' ei hrundið; En af því sá enginn, þá mundi' ei fundið, Gjörði mèr grun.

5. Eg vil því und opna þèr sálar minnar, Á náðarstund svo njóti' eg gæzku þinnar, Græðari minn góði! sem leiðst fyrir mig! Að brestum mín og brotum klökkur leita Í augsýn þín, og uppgjöf milda' að veita, Þrátt biðja þig.

6. Gakk ei í dóm, guð minn! við barn þitt seka! Burt má það gróm, er blinda sál rèð fleka; Minn æskubrest og eldri daga brot! Þau dapra önd, er dóm þinn

nálgast óðum. Af má ill gröud! andar nœr friði góðum Loks lífs við þrot!

7. Eg vil þinn dóm í huga jafnan geyma; Heims við falshljóm honum aldrigi gleyma; Æfi, hvað er eptir, þèr helga trúr; Vaka grandvar, við búast eilífð minni, Af vægð eg hvar vona að frelsast þinni Eymd allri úr.

8. Heims fánýtt hól hug minn skal eigi blekkja; En þinn dómstól yfir mèr jafnan þekkja; Ytra veröld, en innra þú mig sèr; Gef, þínum mèr þokka auðnist að halda; Hnjóð eg umber hugstyrkur þá veraldar, Nær þóknast þèr.

9. Dagleg mín sú, drottinn! bœn til þín kvaki, Þinn anda' að þú aldrigi frá mèr takir, Lífs leiði mig hans laðan holl á stig! Styrki mín spor stöðugt áfram að ganga; Vit auki' og þor að varast breytni ranga Hans menntan hljóð!

10. Loks mun eg þá leystur af synda grómi Sigrinum ná, sízt þínum kvíða dómi, En feginn mót frelsara mínum sjá, Er flekklaus dóm fyrir mig þoldi rang-

an; Hans kærstum róm kvaddur til inn í ganga Dýrð honum hjá.

## Nr. 122.

### Von ódauðleikans.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Til betra lífs eilífra alda Er eg fæddur og kjörinn víst; Þó hremmi kroppinn helið kalda, Heilla von sú er glötuð sízt; Fyr' lífstíð þessa' eg lifi ei hèr; Líf ódauðlegt mitt hlutfall er.

2. Hvað er heimur, hans hefð og auður, Hann þótt að væri allur minn? Fyr' óskir mínar allt of snauður Yrði' hann, væri' ei til himininn; Í mold ró finna' ei andinn kann, Til æðri gæða skundar hann.

3. Mig skóp kærleikans mikli faðir Mèr til gæfu', en til dýrðar sèr; Með eigin hendi' hann inn plantaði Æðri löngun í brjósti mèr; Hann, sem þá löngun vekja vann, Vill hana sjálfur stilla', og kann.

4. Ósk sú, eilífum elska tryggðum Þig, æðri' og fá í birtu' að sjá, Heims

þessa' óuppfyllt hèr í byggðum Hlýtur síðar meir fylling ná; Guð! mig, sem ósk hjá þekkir þá, Þèr um eilífð ei skilur frá.

5. Œðsti dómarinn er rèttlátur! Á síðan dyggðin krýnist fræg, Þó forsmán, ofsókn, háð og hlátur Hèr af illvirkja líði sæg; Já, í von þeirri við eg skil, Vekur oss guð endurgjalds til.

6. Hvað hjartað vonar, hans orð kennir; Hann mun af gröf upp vekja mig; Í því finn eg það, öllum rennir Í burtu vafa' af mínum stig; Ó hve fagnar mín önd við það, Að ódauðlegan guð mig kvað!

7. Jesú kenning auk þessa' eg þekki, Og það allt, sem hann fyr' mig vann; Sannleik, er mig kann svíkja ekki, Af sjálfs hans munni' eg heyra kann; Frelsara míns eg eign nú er, Af honum leyst til dýrðar sèr.

8. Minn Jesús lifir! mig aflífa, Mig ódauðleik hver svipta kann? Úr helsneyð mig kann hönd hans þrífa, Himinsæld í mig leiðir hann; Eins þetta hold

upp rísa á Og dýrðlegt himins vistum ná.

9. Þó háfjöll sökkvi' í hafsgeim víðan, Heldur sèr kvíðalaus trú mín; Mèr sè eg renna' upp morgun blíðan, Morgun, hvers ljós mèr eilíft skín; Mèr byrjar nýtt líf morgun sá. Minn guð! hvað farsæll em eg þá!

## Nr. 123.

### Huggun af Jesú síðustu tilkomu.

Lagið: Guð vor faðir! vertu' oss hjá.

Jesús, oss öllu illu frá, Oss sína kristni', að leysa, Kemur með dýrð og hátign há; Hann kemur! sorg og hneisa Hans barna' á dýrstum degi þeim Í dýrð og ró umbreytist; Eilíf þar unan veitist; Ó guðs fólk! verið teitir! Hann kemur; hann er hvergi fjær; Hann frelsar þig, þú aumi! Þín mæða morgundraumi Má vart samlíkjast; straumi Yndis þú drykkjast eilífs fær Í dýrð frelsara þínum nær.

2. Þessi augnablik þrautakífs Þeirri hvað reiknast móti Óendanlegs unaðsemd lífs, Í eilífð þèr geymdri, að njótir;

Skoða sigurkrans skeiðs við lok Skínandi'; hann keppst að vinna; Guðs köllun gjör trúr sinna, Glæst hnoss að megir finna; Lífsins þig ekkert letji böl! Lít umbun miklu stœrri! Sigrari! sjá þèr nærri Sælu mið ró í værri! Brátt ertu þar, hvar ekkert má Um eilífð böl þig framar hrjá.

3. Hann, sem öll sinna telur tár Og til fólks sèr oss út kjöri, Hèr stríddi gegnum hryggðar ár Með hugar óþreyttu fjöri; Hve beiskt var Jesú böl og stríð! Hve bitri' hann angist þreyttist! Blóðsveita baði sveittist, Er bœn og andvarpi' út veitti; Fjandmenn blóðsólgnir sína vild Þó sæju, hann litu kvíða Þó ei, nè blöskur bíða; Hann beiskju dauðans stríða Af guði sigrar efldur; þá Allra' himna kæti fagna má.

4. Ver tökum hlut í hörmung hans; Með honum líka' á síðan, Sigurvegara vorum, krans, Vegs og fagnaðar bíða Vafalaust fáum; vort sè kapp Vors höfuðs undir merki Berjast og stríða sterkir! Svo standa dyggt að verki, Að verð-

ir metumst himins hans; Hann er sá, lið oss veitir, Þáð fullt hans dýrst er heiti: Drottinn vor styrkur heitir; Hver, honum treystir, sannar á sèr Sjálfum, hvað öruggt vígi' hann er

5. Þú kemur, öllu illu frá Oss, þína kristna', að leysa; Þess glaðir, Jesú! þakkir tjá Þèr viljum! yfir geisa Hörmunga þegar hretin oss, Hjörtu vor skulu' ei kvíða; Í trú ótrauðir líða, Tilkomu þinnar bíða! Vèr vitum gjörla, þökk sè þèr, Hvar þú ert, sem oss leystir, Að þínir erum leystir, Önd vor því rósöm treystir; Hrynji' yfir oss loptin hvelfð af þèr, Herra! samt engu kvíðum vèr.

## Nr. 124.

### Huggun af eilífu lífi.

Lagið: Guðsson kallar: komið til mín.

Í kalda gröf mitt hlýtur hold Hníga, moldin að allra mold, Lífs dauðlegs þessa' að þrotum; Frjáls þá mín önd, laus fjötrum af, Flýgur aptur til þess, hana gaf; Gleðst sjónar hans sælu notum.

2. Hvað sæl! ef góð og guðhrædd þá Gleðst sinni hvíld af lífsins þrá, Og verk fylgja vönduð henni! Ef sameind Jesú sannri' í trú Sèzt hrein, flekklaus og hœf til nú Alsælu' í eilífðinni!

3. Gæfa œðst, fyrir guði' að stá! Gleðilind, Jesú! þig að sjá Og brœður þèr með þína; Þig, allra brœðra fyrsti'! að fá Frá augliti til auglitis sjá Í dýrð þinni' œðstu skína!

4. Ó! hversu bregða mun við mèr, Minn Jesú! dauðir nær fyr' þèr Stórir og smáir standa? Og mínu nafni nefndum mèr Nú guði' og englum játar, þèr Um eilífð háðum til handa.

5. Jesú þá birtist, jeg, sem græt, Jeg þau mun hags við skipti mæt Fagri sól skína fegur; Eg syndugur er af syndum frí; Sœmist guðs mynd, hans sköpun ný; Að eigin raun ódauðlegur.

6. Frelstur, kvöl allri' um eilífð fjær, Eg drykkjast guði' æ nær og nær Ununar ótal fossum; Andarheill sú, sem orð ei tjá, Við augnablik hvert vaxa má Af eilífðar yndis hnossum.

7. Og englaskari allur þar, Eins hèr á jörð hver góður var, Allt mínir eru bræður; Allir líkami einn með mèr Um eilífð syngja, Jesú! þèr Eins munni æðst lofkvæði.

8. Ó guð! hver sælu gnótta fjöld! Gleði jafnt ómæld, sem ótöld! Langt yfir löngun alla! Ó eilífð, eilífð! öll vor tár, Öll jarðarlífsins harma sár Má ekkert mót þèr kalla.

9. Fagna mín önd! og örugg ver! Efnir guð það, sem hèt hann þèr; Guð lifir; er guð hins fróma! Þèr of gott, of stórt ekkert met, Af sínu skauti fyrir hvern lèt Sinn eiginn son guð koma!

## Nr. 125.

### Sama efnis.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Eptir reynslulífs tæpar tíðir Tekur sæl við oss eilífð víst, Þar mannleg eymdin öll og kvíði Unaðsemd í guðlega snýst; Dyggð, hèr með alúð æfð sem er, Eilífra launa væntir sèr.

2. Guðs barn að sönnu sælu nýtur,

Sykrar hèr líf hans yfrið margt; En öll sú gleði', er hann hèr hlýtur, Honum ónóg sæld reynist snart; Hann er maður, sem ýmist bjó Við andar meiri' eða minni ró.

3. Hann stundum líkams sturlast kvillum, Stundum heims glaumur hrellir hann; Innra þrátt berst gegn óvin illum, En optar sigra' en falla vann; Í óeirð sökkva' og yndisstans Opt hlaut af völdum náungans.

4. Hèr, hvar dyggð tíðast þrautum þjáist, Þrátt ódyggðina flest við lèk; Hvar auðnumönnum öfund tjáist, Angruðum gleymir kætin frek, Frí eigin breyzkleik enginn má Nè ama' og mæðum vera frá.

5. Hèr leita' eg, fyrst þar finna næ eg, Forklárast mun þar helgur gjör; Gjörvallt verð dyggðar finna fæ eg, Frábært, ósegjanlegt sem er. Kærleikans guð mèr gefst að sjá, Hann göfga', hann elska' um eilífð má.

6. Vilji minn og mín verkin bæði Vilja drottins eru helguð þá; Yndisvist

fullsæl, eilíf gœði Unun við hástól guðs mèr fá; Að eilífur sè, eg fundið fæ, því fullkomnan eykst mèr sí og æ.

7. Þá mun eg birtu þekkja' í skírri Það, sem á jörð var óljóst mèr; Heilagt með furðu nefna nýrri, Hvað nefnt var ógrundanlegt hèr; Með þökk og lofgjörð þenkja' eg mun Þá guðs míns heilu ráðstöfun.

8. Þá mun eg að þeim hástól hníga, Hvar hjálpráð mitt, guð! birtir sig; Lofsöng þríhelgan láta stíga Lambinu', er slátrað frelsti mig; Sem herskarar allir himins þá Hæstu fagnandi lofgjörð tjá.

9. Þá mun eg engla meður mengi Mig þeim líkan fá helgan sèð; Óbrigðulu því una gengi, Að lifa' æ góður góðum með; Augnablik sèrhvert eykur þá Eins þeirra' og mína farsæld á.

10 Þar mun eg hjartans þakkir gjalda Þeim, sem mig drottins fýsti' á stig; Þeim blessun inna þúsundfalda, Að þá á götu leiddu mig; Eg þar í guðs hönd aptur þann Ástvin finn, er á jörð eg fann.

11. Þá hólpinn einhver, guð það gefi! Geldur mèr, kann ske, feginsmál: „Heill sè þèr! fjör mitt frelst þú hefir, Þú frelsað hefir mína sál"! Ó hvað sú gæfa gleðja má, Glötun önd hafa leidda frá!

12. Þèr þrautir stuttu þessrar jarðar! Þeirri hvað eruð vegsemd hjá, Er opinber mun á oss verða Og eilíflega vara þá! Mót henni' augnablik mæðu hèr Minna' en alls ekkert virðast mèr.

## Nr. 126.

### Sama efnis.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Fullhuga, sál mín! fell ei móð, Fári þarft engu kvíða, Í hug þó dimm þèr hvarfli slóð, Er hlýt eg feta' á síðan; Minn Jesús undan mèr hana rann; Mig hún til dýrðar mætis Í fögnuð leiðir eilífan Til anda hreinna kæti, Til útvaldra sælu sætis.

2. Þá dauðastundin dregst mèr nær, Dimman efst sjónum lýkur, Meir sig hrært tunga mín ei fær, Minn Jesús elskuríkur Með huggun mun og hugar-

fró Hjarta mitt endurnœra; Mitt hljóða andvarp heyra þó, Hrjáðan eymdum loks fœra Síns himins vist í væra.

3. Hann hefir allt vort hjálparráð, Hæstur sem faðir vildi, Eitt sinn veglega' á enda kljáð; Oss sigur fann hans mildi. Synda eytt hefir allri makt, Ógn grafar frá oss hrundið, Traustan mèr grundvöll trúar lagt Og tryggðum eilífum bundið; Sælan hefi' eg sigur fundið.

4. Nær fæ eg lifa fullsæll þá Með fullkomnaðra skara Dýrðar í ríki dýrstum hjá Drottni, mínum lausnara, Þess, er hèr að eins þoku' í sá, Þekking æ meiri frœðist; Englahrein dyggð mín allt eins þá Æ nýjum krapti gœðist, Um eilífð sem alla glœðist.

5. Hátt sig minn andi hefur þá, Harma er slitinn strengur; Nær duptið, burt sem flýg eg frá, Fær mig ei hindrað lengur! Æ hærra lyptir sál mín sèr, Sjónar þinnar að njóta, Minn guð, ó guð! og meður þèr Mestu farsæld að hljóta, Er eilíf skal aldrei þrjóta.

# IX.

# Sakramentin.

## a) Skírnin.

---

### Nr. 127.

Skírnarsálmur. Þakkargjörð.

Lagið: Allfagurt ljós oss birtist brátt.

Himins og jarðar herra! mín Heyrðu ljóð! blessuð náðin þín Þíns barns meðtekur þakkarraust, Þú, sem ert vonin mín og traust.

2. Frá móðurlífi þú varst það; Það gleður mína sál, þèr að, Sem föður, enn er um mig annt, Ei barni þínu gleyma kannt.

3. Með helgri skírn mjög árla' eg er Innvígður þínum syni' og þèr; Hans mèr dýrmætast orð fær eitt Eilífðar vissu sællar veitt.

4. Hver er sá, ljúft hvers gœzkugeð Góðfúsri' umbar mig langlund með? Og ströng ef hörmung stríddi á, Hver stóð hjá mèr að sigra þá?

5. Drottinn, hvers auga' æ á sá mig!

Á lèzt vegferðar minnar stig Blómgast fagnaði marga mèr, Með velgjörðum svo laðir að þèr.

6. Vernd mín og hlífð þú varst og ert, Úr voða frelsari leynt og bert; Höfundur gæfu' og gleði sá Grát minn bænheyrði', er mèr á lá.

7. Föðurást hèlzt þú fram við mig, Þó firrtist eg opt með syndum þig! Mèr endurvitkuðum iðrun með Ástúðlegt mót tók föðurgeð.

8. Föðurtryggða' ótal æ og sí Eru rök þinna jafnan ný; Þakklætis felli' eg þèr mín tár, Þú, sem mig gleður síð og ár!

9. Þakkoffur þigg míns hjarta heitt, Sem hefi' ei annað bjóða neitt; Vottur lifnaður veri minn, Að vilja þakklátur ræki' eg þinn!

## Nr. 128.

### Skírnarsálmur.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Drottinn, sem engan á burt rekur, Er þig í trúnni nálægist! Ógladda sál burt enga hrekur, Um náð þína sem biður

tvist, Sú, fús bœnheyrir börnin sín, Blíð föðurástúð göfgist þín!

2. Smælingjum, er þèr feðgin forðum Fœrðu, lèzt vísað ei á bug; Að þeim laut, kvaddi ástarorðum Ástúð þín blíð, svo jyki hug: „Til mín þeim koma' ei meinið þèr, Minnizt, guðs ríki þeirra er!

3. Af börnum manns þú yndi hafðir, Endurlausn vor og hjálpráð bezt! Og þess virtir, að örmum vafðir, Að brjósti þínu þrýst þeim lèzt, Þeim apturskila ást þín rèð Arð' sælstum, þinni blessun, með.

4. En er þitt, guðs til handar hœgri, Háleiti barna vinur þú! Ei síður brjóst fullt ást af nœgri, Við ungbörn til þín borin nú; Um eilífð gleymt oss aldrei fær Athvarf og traust vort, Jesú kær!

5. Þèr, hvers tryggð eilíf aldrei breytist, Ungbarn þetta nú felum vèr; Sem sjálfur bauðst, og hefir oss heitið; Í helgri skírn það fœrum þèr; Svo víst, sem stiptan þín er sú, Það munt, ó Jesú! blessa nú.

6. Innsigli' af náðar þínu þessu Það

öðlist kristins rètt og kjör! Vígt þèr með þessu baði, blessun Barns þíns og arfa hlýtur hèr; Hvað farsælt, gæfu þegar þá, 'Þitt vera', á síðan skynja má!

7. Hvað er maðurinn, hvers þú minnist! Hvað manns barn, er svo tignar þú? Að hjálpráð því svo háleitt innist; Hlotnast gæða nægð frá þèr sú! Mold, ekkert fyr' þèr erum vèr; Aldrei þó náð þín við oss þver.

## b) Kvöldmáltíðin.

### Nr. 129.

Um verðuga tíðkun kvöldmáltíðarinnar.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Ó Jesú! hvað þín óþreytt mildi Á efstu kvalanóttu mèr Að skyldu gjöra' og ástgjöf vildi, Upp að fylla, nú mæti' eg hèr; Þíns anda krapt og ljós mèr ljá, Að leysa' af hendi skyldu þá!

2. Sálar veri þín máltíð minnar, Minn Jesú! pantur upp á það, Að guð mèr pínslar ávöxt þinnar, Endurlausn, hafi

tileinkað; Við hjálpræði þitt, sál mín! sig Svo gleðja megi' og prísa þig!

3. Íhuga vil eg fullur furðu, Friðþæging mín! þitt ástargeð; Brjóstgæði þín svo öflug urðu, Að upp þig færðu kross á trèð; Ó, gef nýja þín neyð og pín Nú verkun hafi' í hjarta mín!

4. Af alúð forðast lát mig löstu, Lýtalaus fórn er fyrir dó, Og með dyggðar áformi föstu Frelsi það geyma', er hún mèr bjó! Huggun sú, mèr þín helför tèr, Hirðuleysi sízt' ali í mèr!

5. Eg gef mig allan alla vega Á ný, minn guð og drottinn, þèr! Hèr við þitt borðhald hátíðlega Af hug þèr fastar tryggðir sver! Fyrir mig dóstu'; eg þinn er því, Þín eign tíð bæði' og eilífð í!

6. Með orði' og verki' í augsýn manna Að játa þig, mèr gefðu þor! Hvað samvizka mín syndugt sannar Svo að eg aldrei stígi spor! Æ! inn gef kapp og alúð mèr, Í hjartalagi' að líkjast þèr.

7. Æ! lát mig bræður elska mína, Einhver ef breyzkur hrasa kann, Vægð hógværð og sáttfýsi sýna; Sízt fyrnist

mèr sú náð, eg fann; Hvað þungbær synda sektin er, Sem þú brotlegum upp gafst mèr!

8. Efl mèr trú, von að önd mín eigi Eilífs farsældarlífs þèr hjá! Að hróp þitt mig á efsta degi Alvoldugt hefji dupti frá! Lífs mikli fursti! þig mun þá Þín í dýrð leysta veröld sjá.

9. Til þinna bljúgur fell eg fóta Fús í þökk, lofgjörð, bœn og trú; Lát mig frelsari! náðar njóta Að nýju! Kall mitt heyr þú nú! Alls góðs, sem heillir eykur mín, Efling sè kærleiks máltíð þín!

## Nr. 130.

### Altarisgöngusálmur.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Að boði, Jesú! býst eg þínu Blíðri unun með og trú, Helför þína' og harða pínu Í hjarta bljúgu' að skoða nú! Frelsari minn! sem fyrir mig dóst, Frið eilífan mèr svo bjóst! Æ! gef verðugur eg svo mœti, Að hèr lífið fundið gæti.

2. Nálgast lát mig ei til engis, Endurlausnari minn! þinn kross! Ei svo

dóms mèr afla𝔡 fengi Ástar þinnar dýrast hnoss! Æ! það festi' og efli mig Í trú sannri' og von á þig! Gef það stjórni geði mínu, Guð minn! boði' að hlýða þínu.

3. Áform það, sem eg nú hefi, Aptur mig að flekka sízt, Í sál minni öflugt lifi, Inn til þess mig gröf fær hýst! Veit mèr blöskri voði sá, Að velta' í saur þann, fyrr í lá; Álengdar, þau of mjög blinda, Ofbjóði mèr völdin synda!

4. Hætt ef vèl mèr hóta synda, Að hrekja mig út af þinni leið, Hjálp mèr þá af hjarta að grunda, Hvílíkur deyð var Jesú deyð! Leiðseg, ó guð, minn guð! mèr, Að megi' eg aldrei gleyma þèr! Æ þíns vegar í öllu gái, Aldrei þig með syndum smái.

5. Þegar blind mig vefur villa, Virztu, Jesú! leita að mèr! Sýn mèr, hversu' eg haga mèr illa! Hreyst mig, þegar eg veikur er! Bresti, veiki' og brotin mín Bezt umlíði langlund þín! Seg, minn Jesú! „synda þinna Sekt af mái' eg, náð skalt finna“.

6. Þökk eilífa' eg þèr vil leika, Að þín er líkn og náð svo trú! Lát mig að eins ei aptur skeika, Endurlausnari minn, Jesú! Þèr að trúr sè, legg mèr lið, Og lífs það stöðugt velji mið, Synd og kæti syndar snauða Sífellt forðast allt til dauða.

## Nr. 131.

### Sama efnis.

Lagið: Jesús Kristur er vor frelsari.

Að þínu krjúpa eg vil borði, Offra lofsöng og þakkarorði, Drottinn! sem glæp af máir minn! Hver má út grunda kærleik þinn!

2. Með hversu göfgri' og hárri mildi Háð, forsmán, pínslir dýpstu vildir Sekt fyrir mína' og sálarneyð, Já, sjálfan krossins þola deyð!

3. Til lífs mig dauðan viltu vekja, Völd synda burt máð gleymsku þekja; Ef á þig trúi' eg, eilíft mèr Ávannstu sælulíf hjá þèr.

4. Drottinn! þó hèr í dupti' eg búi, ef dýrka' eg þig og á þig trúi, Hlut-

deild í þínum himni' eg má Og háleitum ástgjöfum ná.

5. Okkar sáttmál þá endurnýist! Allt, Jesú! þèr mitt hjarta vígist! Að lifa svo hèr, sem lifðir þú, Lífs míns sè dagleg stundan sú!

6. Dýrt eg lofa þèr, limu þína, Lausnari minn! sem bræður mína, Ei með hræsnis að elska keim, Einlægan kærleik sýna þeim.

7. Enn framar þèr af hjarta' eg heiti, Ef hrelling bræður mína þreytir, Huggun að veita, hvar eg fæ, Hörmum lètta, þar til eg næ.

8. Eg heitstrengi þèr og með gleði, Órètt með stilltu líða geði; Aldrei víla með óeirð hèr, Aldrei mistreysta líkn frá þèr.

9. Af þèr í öllu' að láta leiðast; Hjá löstum, er þú hatar, sneiða; Allt elska, þitt sem elskar geð, Ásetning sízt þig styggja með.

10. Heims skal ei fánýtt glys nè glaumur, Geði syndarans kvikull draumur,

Mína herða í syndum sál; Svíkja skal þess mig eigi tál.

11. Breyzkleik minn, Jesú! veikan veit eg Víst gjörla, þegar þessu heiti' eg; Á morgun geð mitt ótrútt lèt Opt rofið það, í dag þèr hèt.

12. Æ! mèr því hjálpa, mig virzt styrkja, Minn guð! til allra góðra verka! Æ! kom, flýt þèr míns frelsis til Frá illu, sem eg drýgja vil.

13. Tillokkun synda', er sál vill ginna, Sjálfur hjálp mèr að yfirvinna; Lát auga' eða hjarta' ei lokka mig Á lasta hættan villustig!

14. Lát mig náð þína þekkja' og þakka, Þann fögnuð, öllum meiri, smakka, Er mitt hjarta svo opt til fann, Illa þá girnd eg sigra vann!

15. Gef allir vèr, sem á þig trúum, Undir tilkomu þína' oss búum, Svo þá þinn rynni' upp dagur í dag, Drottinn! það engis blygði hag!

16. Þú, sem syndurum blíður bjargar, Bú þèr til lærisveina marga, Er lifi, deyi,

líði þèr, Loks dýrð þína' erfi', er aldrei þver!

17. Fagnaðar hæsta' og hjálpráðs dagur! Æ, hve nær muntu ljóma fagur! Að þig, drottinn! með engla her Um eilífð sjáum, tignum vèr!

18. Hallelúja! þig hverjir hyllast, Himneskri gleði' um eilífð fyllast! Hallelúja! þá hvergi þver Heill, dýrstan ávöxt pínsl þín ber!

## Nr. 132.

### Sama efnis.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Þitt hefi' eg brotið brauð, ó drottinn! Bergt hefi' eg víni sáttmáls þíns, Að eg þèr hèt, ber helg sveit vottinn, Hreinum tryggðum til dauða míns; Í hjarta' eg klökkvu það sór þèr, Þau særi' að halda krapt gef mèr!

2. Þú ljær hann! allt þú gott fær gefið! Grunnlaus til dauðans ást var þín! Ver mèr afl, svölun, yndi, lífið, Endurnæring, lífsbrauð og vín! Vertu mèr

allt! vanmætti mitt Missa má aldrei fullting þitt.

3. Hversu örþyrst mitt hjarta þráir, Herra! þèr nánar tengjast nú! Í þèr heill alla að fundið fái, Fagni því góða eins og þú! Efldur af þèr það vinni', er vannst, Værð með þèr þjáður hljóti', er fannst!

4. Limir míns höfuðs! eins til yðar Allra' er mitt viðkvæmt hugarfar; Minn Jesús árnar öllum friðar, Til allra kærleik jafnan bar; Lífláti' hans allir leystir vèr Lífsbrauðsins sama nutum hèr.

5. Víni vèr bergðum allir eina, Fyr' alla oss hans blóð út rann! Ó, dýrst safn herrans helgra sveina, Er hvíld í Jesú skauti fann! Vorn elskuga gleðjum elsku með, Ein verum sál með samþykkt geð!

6. Bræður því gleðjum, berum, líðum, Beisklyndi' og kífni sneiðum hjá! Hraustur veiks styrkur veri blíður! Vitur sè fús, ráð, huggun tjá! Hver órètt líður, sáttgjarn sè! Snauðum styrk auðmenn láti' í tè!

7. Eins eg í Jesú náðar nafni Nú

saman, fólk hans, komum hèr, Eins á síðan með engla safni Að honum safnast munum vèr; Hver, eins og hann, hèr ást rèð tjá, Ósegjanlega mun fagna þá.

## Nr. 133.

Sama efnis.

Lagið: Lofi guð í hans helgidóm.

Frelsari! þökk eg fram kem þèr Fyrir pínsl þína' að ræða; Í trúnni lyptir önd mín sèr Upp til guðs dýrðar hæða; Þar sem ert þú, þar er mín trú, Tilbið við trón þinn hæsta Tign þína, guðs son! skærsta!

2. Ávinning finn eg mikinn mèr, Minn Jesú! næði' í væra Öndin mín nær sem er hjá þèr; Orð þín blessuð mèr færa Huggun og hægð, hvers kyns góðs nægð; Þín líðan lind er gleði, Líf, huggun mæddu geði!

3. Þú veizt, að önd mín elskar þig Af innsta hjartans grunni, Og hve fús þjón þinn iðkar sig, Að æfa dyggðir kunni; Að eg sè þinn og þú sèrt minn,

Þann löngu' eg eið hefi' unnið, Ástvin! með hjarta' og munni.

4. Því sè heit, glöð mín þökk í dag! Þessi hátíðleg stundin! Hátt míns lofsöngs nú hljómi slag! Heit mín sèu' eiðum bundin! Mèr unnir bezt, fyr' mig því lèzt! Þú dóst fyr' þína bræður; Þeim og mèr lifir á hæðum.

5. Eg vil þig, dýrsti ástvin minn! Fyr' öllum heim meðkenna, Með hegðun sýna', að þjón sè þinn, Þakklátri' af skyldu brenna; Band fölskvalaust það binda traust, Að ást þèr aptur sýni Allir, vèr, limir þínir.

6. Nei! Jesú dauða jeg og tryggð, Jeg ást hans aldrei gleymi; Ei eiði', er skyldu eg og dyggð Enn sór; Þau særi' eg geymi! Þig, guð! mín heit eg heyra veit! Þín ást mig til skal knýja Fest heit með dyggð að drýgja.

7. Æ! veit mèr kraptinn anda þíns, Ó Jesú! þitt við borðið, Að Jesú, herra' og hirðis míns Hlýðnist eg fúsari' orði! Nemi mennt þá fús honum hjá, Hans

að dœmi mèr haga, Að lögum hans dagfar laga.

8. Gegn synd að meiri sigurheill Sèrhverju' í stríði vinni; Og dyggðar hjá mèr aldin holl Enn fegur blómgast kynni! Ó! eg bið þig: „æ gjör þú mig Í dyggðum öllum ríkan, Meistara mínum líkan“.

9. Eins og við borð þitt eg rèð stá, Eg er viss þeirra tíða, Að fæ eg í dýrð þèr, herra! hjá Hann sèð, lausnarann blíða. Þá þreyi' eg stund; það hressir lund! Míns Jesú mèr orð boða, Að mín trú verði' að skoðan.

## Nr. 134.

Lofgjörð eptir brúkun kvöldmáltíðarinnar.

Lagið: Margt er manna bölið.

Hversu hressa' og glaða Hjálpráð þitt blessaða, Guð! mína gjört fær önd! Sól þinni sem frá streyma Sæld, líf, birta' um heima, Að lífga' og gleðja öll lönd, Eins náð þín skær mèr fögnuð fær; Svo Jesú blessuð brjóst mitt hressir Blíða' heims um fram seima.

2. Þínu' ef þægt er ráði, Þreyi' eg glaður á láði; Hollt er mèr, hvað þú vilt! Veikur eg má vettugi; Vinur minn almáttugi! Dug þú fær mig fyllt, Þá hrynur öld heims við kvöld, Lúður hvellur hátt þá gellur, Þú ver mig, vel svo dugi.

3. Grafar eg geig með engum Get sèð fylgsnin þröngu, Lausnari lifir minn! Eg veit, á hvern trúi, Ösku' eg veit fær snúið Minni máttur þinn; Þú dauða stund á dapra lund Hins guðlausa ógn fær ausið! Mèr ekkert böl er búið.

4. Synd við mig samt vill loða; Að sigra hana mig stoðar Ást og aðstoð þín; Þó hnígi hrumur kraptur, Herra! þú sækir aptur Og annast öndu mín; Mín brot af máð þín blíð fær náð; Því eg treysti', að þínum leystra Sè þjóni' ei rèttur taptur.

5. Guðs kynning mèr gefna, Að guð má föður nefna, Að ei þarf hræðast hel; Að huggun og von má hafa, Þá hugsa fer til grafar: Allt þín ástverk tel; Að lífs á stig fram leiðir mig Þinn andi'

og frœðir; öll þau gœði Þinna' eg þekki' ástgjafa.

6. Ó! þitt elsku þelið Öflgara sjálfu heli! Þú leggur út líf og blóð, Að hörð eg hryggð þá særir Huggunarlaus ei væri; Hve afarheit ástarglóð! Því væri skylt þakklæti fyllt, Náð fagni þinni friðað sinni Og sig í fórn þèr fœri.

7. Mín unun og öll viðleitni, Mín œðst sè skylda, breytni Svo laga', að líki þèr! Hvað heimur helzt til slœgist, Hjarta mínu' ei nœgist; Einn þú allt ert mèr; Fús vil eg smá, nær eg þig á, Gœði ósönnu, ginning mönnum, Að frá þèr burt ei bægi.

8. Gjöra þá jarðargœði, Að gæfu eg sannri næði? Gefa þau ánœgt geð? Hávegir heims og glaumur, Hègómi loks og draumur Glysi ganta með! Þèr einum hjá sál frið má fá! Þá, þig hyllast, þinnar fyllir Um eilífð ástarstraumur.

9. Þann háa', er yfir eg hlakka Hèr, næ eg frið að smakka; Og hver er þar heimvon mín! Um aldir, er aldrei þrjóta, Algjörvar sældir hljóta Heita mèr helg

orð þín; Einn veldur þú, eg þetta' á nú; Ef við þig tryggð mèr tem og dyggðir, Þess tjóni mèr hver kann hóta?

10. Gœzku gnœgt af þinni, Glaðvært er mitt sinni, Minn frelsari, fyrir þèr! Þessi þinn ástar andi Í eymd lífs hjá mèr standi, Hvergi hverfi mèr! Leyst mín þá sál, nær lízt þèr mál, Brýzt örugg um bana skugga, Að göfga þig lífs á landi.

## Nr. 135.

### Sama efnis.

Lagið: Sælir eru, þeim sjálfur guð.

Herra Jesú! hvað hjarta mitt Hressir þín náð og gleður! Sem fold sólarljós fyllir þitt Fjöri, birtu', unun meður, Eins kætir geð mitt krapti með Klár straumur þinnar náðar; Önd endurnœrð nýja' öðlast værð Af íhugun þinna dáða.

2. Ef þínu ráði þekkt svo er, Þreyi' eg við lífið glaður; Hvað, sem þú vilt, er hollast mèr; Hvað megna' eg, vesall maður! Þú kannt mig hug hertygja' og dug, Hjálpráð mitt bezt! og gæta, Heims

þá við hrun mig hvergi mun Hels nè dóms ógnan græta.

3. Fælnislaust grafa' eg geng um reit, Guð, minn frelsari, lifir! Hverjum eg trúi, vel eg veit; Veit, að hans máttug yfir Mig grafar bönd fær hafið hönd; Hræðslu guðlausum stríða Ógn dauðans má opt vekja hjá; Engu þarf eg að kvíða.

4. Samt býr mèr enn þá syndin hjá; En sigra' eg, því mig styður Mitt vígi öruggt, makt þín há; Mjög títt þó hnígi' eg niður, Þú við rètt fær, þú lið mèr ljær, Líkn þín sekt mína' af máir; Neitt svipta tjón þinn rètti þjón Þinna dýrkeyptra náir.

5. Að guðs eg þekki ástarþel, Að hann má föður nefna, Að dapurt ei þarf hræðast hel, Huggun og von mèr gefna Finn eins við gröf, allt er þín gjöf, Að andi þinn mig fræðir, Og þínum stig á styður mig; Stór er þín náð og gæði.

6. Ó hvað heit er þín ástarglóð! Eg rauna bót svo finni, Þitt þú út leggur líf og blóð! Lát mèr það vaka' í minni. Öflgara' en hel þitt elsku' er þel, Önd

mín því skyldi' ei fagna þinni náð, sig og þakklátlig Þèr helga' og lof þitt magna?

7. Alúð sè, skylda' og unan mèr, Æ verðugt þèr að lifa! Mín sálar heill! hvað heimur sèr Heldur unun, sízt gefa Önd minni þó kann œskta ró; Eptir hvað veröld þráir, Sál mín fús þá, nær eg þig á, Auðug í þèr forsmáir.

8. Fá mig sælan heims gœði gjört? Gefa þau ánœgt sinni? Draum og hègóma dœmir bert Dagleg raun, heim þó ginni Met og vald hátt, þú, herra'! einn mátt Hjartað frið sönnum grœða; Þú munt víst þá, þèr hlýðni tjá, Heiðri eilífum gœða.

9. Friðar þíns háa' eg fæ strax hèr Forsmekk í dupti mínu, Og von hver á síðan veitt er mèr? Eg vænti' að heiti þínu Eilífða sæld, er ei fæst mæld, Uppfylltra', ef lýk þèr eiða; Það hnoss, víst mèr, eg þakka' á þèr, Því enginn kann mig sneyða.

10. Mitt fullt af þinni gœzku geð, Guð, minn lausnari! fagnar, Sá fagnaðar andi

afl fær lèð Og orku' í þrautum magnar; Hann aldrei frá mèr hverfi þá, Hels um dal loks að þrengja Með hraustum hug mèr hjálpi' og dug, Á himnum þèr lof að syngja.

## Nr. 136.

### Lofgjörð eptir brúkun kvöldmáltíðar.

Lagið: Sœti Jesú! sjá oss hèr.

Göfga, syng lof, sála mín! Sigurkvæði fögur róma! Búna vængjum þökk lát þín Þíns upp guðs að stóli hljóma! Í fagnaði engla skara Upp fljúg glöð með fórnir vara!

2. Óförum mín afbrot mèr Ógnuðu með geysi-stríðum; Herra'! eg fyrir hræddist þèr, Huggun sneyddur, sleginn kvíðum; Eilífð, lögmál, gröf mitt grætti Geð og skelfdi', en náð guðs bœtti!

3. Bölvan gjör stríð biturt leið Brotlegra Jesús fyrir ættir Dýrstrar nætur dimmt um skeið, Að dómarinn sekum vægja mætti; Og drottinn þeirrar dýrstu nætur, Dómarinn, minntist; unnust bœtur.

4. Ef þú trúir, upp gefst þèr Öll

verðskuldan brota þinna; Sæla' og ró býðst hvílík hèr! Hver má gœzku og náð þá inna! Þitt óskabarn um eilífð vera! Ó! stœrð þeirra heillakjara!

5. Pant guðlegan hlaut eg hèr, Hold hans fyrir mig út gefið, Blóð, sem fyr' mig út hellt er, Í því kvittun fann og lífið. Dýrð ást þinni', ó drottinn! gjaldist! Dýrst þín minning eilíf haldist!

6. Alls fagnaðar upprás mèr! andar minnar von og friður! Sameinað hefir þú mig þèr, Þig, meðan lifi, ekkert viður Skilji mig! eilífð og æfi Að sèrt minn, eg þinn, guð gæfi!

7. Fanginn unun faðm við þinn Fús vil eg gæta þess, þú rœðir; Háleitt yndi, himneskt sinn', Er helgra mig til dyggða glœðir! Hátíða' á mèr skrúðinn skarta Skal guðrœkið, lastvart hjarta.

8. Hèr á vegferð hleyp eg æ Hnossi mót við veðhlaups enda, Fullviss, að eg fyr' þig næ Í farsæld guðs eilífri lenda, Lofgjörð jafnan hvar þín hljómar, Hátíðlegir englarómar.

---

# X.

## Morgun- og kvöldsálmar.

### a) Morgunsálmar.

---

#### Nr. 137.

Lagið: Dagur og ljós þú, drottinn! ert.

Guð, minn faðir! eg þakka þèr, Þinn son Jesúm að gafstu mèr, Um föðurþel er fræðir þitt, Friðar og helgar hjarta mitt.

2. O hvað mikil er miskun sú, Mèr aumum veittir, faðir, þú! Líf mitt og sál um liðna nótt Leiddir enn voða frá og sótt!

3. Þig bið eg enn um þenna dag, Þyrm mèr í náð og sjá minn hag, Svo ólukka og illska ei nein Á mig falli nè gjöri mein.

4. Frá allri synd mèr forða þú; Fylgd þín og stjórn mig leiði trú, Svo öll mín hegðan þóknist þèr, Þig óttist, elski einn, sem ber!

5. Eg fel í þína helgu hönd Holdmitt, sœmd, vini, eign og önd! Virzt mèr náð-

ugur vera hjá, Voði enginn mèr grandar þá.

## Nr. 138.

Lagið: Dagur er, dýrka ber.

Enn í nótt Ástar gnótt Œðstu reyndum Þinnar, faðir! þökk vèr glaðir því nú Fœrum, lið, Líkn og frið, Er lèzt oss hljóta, Æra' og dýrð Þèr af oss skýrð Skal aldrei þrjóta.

2. Lágt þó vèr Lægjum hèr, Sem lífi þrotnir, Enn oss þýður auga blíðu á sást; Hèlzt við líf, Hætta' og kíf Hjá bauðst sneiddi, Heila oss Enn til ljóss Aptur leiddir.

3. Hrœrð því sál Hrósi' og mál Heillum nýjum! Það, vor gætti, guðs almætti göfgist! Enn í dag Vorn allra hag Hans annist mildi, Að vort með dáð Svo vöndum ráð, Sem vera skyldi.

4. Upp vorn stig Ástúðlig Orð hans lýsi, Forðast synda myrkur blind að mættum; En feril þann, Frelsarinn rann Fyr' oss, skunda, Guðs að vild Verði fylld, Vel að stunda.

5. Af stýr nauð, Í dag brauð Oss vort rèttu! En á mis við alls kyns slysin oss leið! Sendist kvöl, Sykri böl Sœt þín mildi! Og efli ró, Að oss vel þó Í öllu vildir.

6. Með trausti' á þèr þessa vèr þreytum dagleið; Frí við grönd oss fær þín höndin fram leitt; Í kvöld dýrð Af oss skýrð Ást skal þinni, Vorn sem hag Hafði' í dag Holl í minni.

## Nr. 139.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Mig glaður vekur morgun aptur, Og mèr til vinnu bjóða fer; Blund við lífs endurkveyktur kraptur Krefur dugnaðar enn af mèr; Með glaðri lund því ganga' eg vil Gagnsamra skylduverka til.

2. Þökk sè þèr, guð! fyr' þenna blundinn! Þèr fel eg mig í dag á ný! Voldugri þinni vernd eg undir Frá voða' og kvíða' er öllum frí; Þarflegt hvað mèr sè, þèr er bert, Það veitir, mjög því góðgjarn ert.

3. Kröptum þú við og heilsu heldur,

Hvorttveggja' að noti' eg vel, sem ber; Vandaða' ef iðn eg við er felldur, Vel allt úr hendi ráð mitt fer; Iðni' og trú stundan æ skal mín; Iðni' og trú fylgir blessun þín.

4. Sú skal stundan, svo lengi' eg lifi, Svo lengi krapta mèr þú ljær, Að eg þá gæfu' um æfi hafi, Að vita, það eg þèr sè kær; Lífs ánægju þá hlýt eg hèr, Heill fullkomna síðar hjá þèr.

## Nr. 140.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Eptir næturblundinn blíða Blíður morgun velkominn! Margföld yndis, örfá kvíða Efni' eg með mèr vakna finn! Skapari ljúfur lætur minn Um láð sitt ganga mig um sinn, Fagursöngvar hans hvar hljóma. Honum þökk, ó sál mín! róma!

2. Þær eg lít, verk hans eru' handa, Hauðrið daggar perlur strá; Náð hans drykkjar dúkinn landa, Drýpur stráið sèrhvert á; Ekkert minnsta grasstrá grær, Er góðgjörn speki' hans til ei nær; Sálm

hans vestankulið kveður, Kærum blæ þá foldir gleður.

3. Söngvara fiður-sveitum snjöllum Söngs viðkvæman gaf hann hreim; Œðra lof, að fram vèr föllum, Að fœra' og þökk, en unnt var þeim; Aleðlis inn í allt og eitt Unun hýrri lèt hann fleytt! Hans speki' og gœzka gnœgst eins skrýðir Grasstrá hvert, sem mörk hún prýðir.

4. Guð! þig baðmar blómi þrungnu Boða mèr á hverri grein; Blómrík kveða engin ungu, Öll þèr hneigir skóga rein; Tungu silfur-lœk þú ljær, Að ljóði þig hans unnun tær; Lóin inndælt lætur klingja Lipra rödd, um þig að syngja.

5. Ætti' eg, maður, þá að þegja? Þola', að fugl sè heldri mèr? Sál minni' œðri' ei fúsri fleygja, Að fœra prís og lofgjörð þèr? Einskær þökk ver, önd mín! þá; Til unaðsemda skóp þig sá, Verndarhönd hvers var af þýðri Vorsól drykkjuð ylgjöf blíðri.

6. Eg em, drottinn! af þèr kjörinn Eilífðar lífs betra til! Vortímans mun farið fjöri, Farið mun sumars megnum

yl; Hausttíminn mun hverfa fljótt, Harka vetrar líða' um skjótt, En þín eilífð ein mun gera, Að endalaus sè mín tilvera.

Nr. 141.

Lagið: Jesú sleppa eg vil eigi.

Lof sè þèr, eg líf enn smakka, Ljúfi faðir! og af mèr veit! Með mèr vaknar, þèr að þakka Þína náð, mín lofgjörð heit! Yfir mèr vakti enn í nótt Þitt auga; barn þitt svaf því rótt.

2. Loksins, þá eg lokið hefi Leið vegferðar minnar hèr, Í gröf veitist sœtt að sofi Sæði eilífð kjörnu mèr; Dupt mitt eins þá dimmu nótt Dúra lætur vakt þín rótt.

3. En þá vakna eg mun aptur, Ásamt mèr lofsöngur minn; Œðri, hreinni kvæða kraptur Kunngjörir þá prísinn þinn! Mun eilífur morgun sá, Mun þá svefn um eilífð frá!

4. Guð, mitt athvarf! æfidaga Alla' að vakta kenn svo mèr, Að enginn þeirra mig kunni klaga, Þá kemur og heim þú dœma fer; Trúr að skyldu helgri hèr Eg hræðist síðar ei fyrir þèr.

5. Ónýtis mèr af þèr talinn Enginn dagur, skapari kær! Í hlut míns lífs er hver mèr valinn; Hver einn dóm sinn af þèr fær; Kenn mèr vaka', að engan einn Ónotaðan láti neinn!

6. Í dag lifi' eg; lát til engis Lífið í dag ei verða mèr! Þessum degi' að fagnað fengi, Fullendað þá stríð mitt er! Krapt og færi' og lyst mèr ljá, Svo lifa' í dag, sem vera á.

## Nr. 142.

Lagið: Rís upp, min sál! að nýju nú.

Föður, sem ljósið fyrsta hèt Fram, og mig heilan vakna lèt, Þökk og prís glaðvær greiðist! Árdags stund hress helgist til þess, Hans að eg dýrð út breiði.

2. Drottinn! sjá, eg sem dupt er þó, Dupt, andi þinn sem lífi bjó, Dirfist við drottin tala! Eg, sem strax lá líkastur ná, Lífs er, þinn prís því hjala.

3. Allt gott eg þigg nú upp á ný, Allt, hvað mig gleður; nýt þess frí Af hendi' örlátri þinni; Hvert auga' eg brá, með yndi' eg sá Undur, náð lýsa' er þinni.

4. Eg mínu hjarta offra þèr, Öðru því launa vanfœr er; Sem barn tilbið þig, faðir! Önd, þakklát sig er reiddi' á þig, Þú œðsti'! ei burt skúfaðir.

5. Ó þú! hvern göfgar andi minn! Andi mig veki góður þinn, Sem guðs barn gott að stunda! Hans hjálpi lið mèr veikum við Vönduðum hlaup mitt skunda!

6. Góðrar samvizku hnoss að hèr Hljóti' eg, það verka, guð! í mèr! Iðn mína' og orku blessa! Kunnugt er þèr, hvers þörf mèr er; Þú ert fús líkna' og hressa.

7. Ó guð! þú skrauti blómstrin býr, Borð setur fuglum líkn þín hýr; Er eg þeim eigi framar? Minni' allri þrá þig kasta' eg á; Þín líkn mig annast sama.

## Nr. 143.

Lagið: Hjarta, þankar, hugur, sinni.

Dúrs af þess, er dauði nefnist, Dvala' um síð nær rísa næ, Við moldarlífs frí mœðuefni Morgun fegri líta fæ; Öðru-

vísi' eg vakna þá, Veðhlaupsmarki búinn að ná; Við morgundýrð þess dags mun sannast, Drottinn að mínar ferðir annast.

2. Hjálp, að dagur æfi enginn, Ódauðleikans gjafari þú! Dómsins hermt það degi fengi, Að dárlega honum spilli' eg nú! Enn eg vakna, þökk sè þèr, Þenna dag! æ vísi mèr Upp til þín hver æfidagur, Allt eins gleði' og sorgar hagur!

3. Efsta' að dag eg fús áfangans Feginn sjái, nær að ber, Þá um dimman dal skal ganga, Og dapran ástvin harmur sker; Mýk þá andláts mæðu' og þrá! Mig öflgari láttu þá Honum upp til himins vísa, Þig, herra lífs og dauðans! prísa.

## b) Kvöldsálmar.

### Nr. 144.

Lagið: Dagur og ljós þú, drottinn! ert.

Guð, minn faðir! eg þakka þèr, Þinn son Jesúm að gafstu mèr, Að lífgjöf

bæði' og leiðsögn manns Líf sè, dauði, og kenning hans.

2. Hans vegna náð mèr hlotnast þín; Hrósar vægð þinni lofgjörð mín, Er liðinn dag mig leystir vel Frá lífs og andar eymd og kvöl.

3. Eg bið, upp gefi gœzkan þín Gáleysi stórt og syndir mín, Er móti skyldu' á margan veg Misgjört breyzkur í dag hefi' eg.

4. Þína miskun eg þar með bið, Þessa nótt værð mèr gef og frið; Í svefni' og vöku ver mèr hjá, Voði og ógn mèr granda' ei þá!

5. Eg fel í þína helgu hönd Hold mitt, sœmd, vini, eign og önd! Ver mèr með náð og hjástoð hjá! Hel þá sjálft mig ei skaða má.

## Nr. 145.

Lagið: Hver sem ljúfan guð lætur ráða.

Aptur, minn guð! á enda' er dagur, Enduð er þó þín náðin sízt; Sólarljóminn snýr frá oss fagur, En friðarsjón

þín að oss víst; Dags gjörðir lèttan þunga þú, Þú eins náttværðir tryggir nú.

2. Eg bý í skugga ætíð þínum; Eins hvort heldur eg vaki' eða sef. Þökk fyrir vernd hag veitta mínum Og vægð, í dag er þegið hef, Föðurgóðvildar flestan vott, Fyrir hvað eina', er vannst mèr gott!

3. Auðmjúk með bœn mín önd og trega Í Jesú nafni snýr til þín; Mèr líkna' hans vegna mildilega! Misbrot öll grannt þú þekkir mín; Með vægð og miskun mig lít á, Minn enda' eg dag í friði þá.

4. Fylki sèr varðhald forsjár þinnar, Faðir! um hreysi' og rúm mitt nú; Óhult hvílir sá, að vilt hlynna; Öllum ver slysum hlífð þín trú; Í þèr vært blunda' eg amafrí, Í þèr eg glaður vakna' á ný.

5. Allt land og byggðir óhult gjöri Alvaldrar þinnar gœzku skjól; Hlíf vors konungs og húss hans veri, Hans blessi efli' og friði stól! Alla, sem fremja

dyggð og dáð, Drottinn! umvef með föðurnáð.

6. Eins fel eg föðurumsjá þinni Ástvini' og frændur nær og fjær! Og ef mig hata einhver kynni, Eins ver hans líka faðir kær! Gef, á jörð allir gleðjist við Góða rósemi, heilsu' og frið.

7. Í blund eg vil nú væran falla; Veri mín hugsan efst um þig! Í nótt ef dauðinn á mig kallar, Ei á nè skal hann hræða mig. Kalla mig, þá þèr þykir mál! Þitt er og verður líf og sál.

## Nr. 146.

Lagið: Faðir vor! sem á himnum ert.

Drottinn! hvers trúföst líkn mèr líf Lènti til þessa dags og hlíf, Eg sem barn tilbið auðmjúkt þig, Og minni bljúgur játa mig Tryggð þeirri', er um minn auðnuhag Annazt föðurleg hefir í dag.

2. Þakklátt með hjarta' og glaðvært geð Um gœzku þína' og líkn eg kveð, Og fagna í þèr, faðir kær! Er fjör og vit og krapt mèr ljær; Blessun til verka'

og lán mèr lèr, Líka hreint skapar geð í mèr.

3. Sá, eptir boðum orðs þíns nam, Ó guð! í lífi ganga fram, Hvílíka rósemd andans á! Á þína gœzku vona má, Í anda himininn opinn sèr, Og trúarhnoss þar búið sèr.

4. Á hvern eg trúi, víst eg veit, Og vil nú, sálar heill mín neyt! Til þín nálægja' í moldu mig, Mig veit náðugan eiga þig; Sektum laus er eg synda frá, Sæla hefi' arfsvon himnum á.

5. Blíðri umvafinn blessun enn Blunds í faðm væran hníg eg senn; Nafnið sè göfgað, guð minn! þitt! Gjörvallt til heyrir líf þèr mitt. Þinn eg deyjandi' er; þèr í hönd Þessa, nær við skil, fel eg önd.

### Nr. 147.

Lagið: Hef eg mig nú í hvílu mín.

Þinn var eg, sólar fyr en fram Fagurt skrúð árdag leiddi; Þinn var eg, fyr en fróns yfir ham Fölan væng nóttin breiddi! Fyrst þinni' í trúrri föðurhand Fast skráð-

ur stóð, mig ekkert grand Fældi nè minnsta meiddi.

2. Nú er dags unnin þessa þraut, þessa dags lokið vinnu, það svitabað, er þreyta' oss hlaut, þerrað er burt af kinnum. Þinn, bróðir dauðans, blundur hýr! Bræðra hver fús í faðm nú snýr, þar værð að þreyttir finnum.

3. Þökk, áður lýkur auga dúr, Er skylt þèr, guð minn! færa; Lát hjarta' og munn, minn hirðir trúr! Hrós þitt samtaka stæra! Mitt ljós ert, drottinn! myrkrum í; Eg mun að loknu offri því Blítt hníga' í blundinn væra.

4. Lífs þú um stig mig leiddir trúr Líknsamri föðurhendi; Margri af stýrðir mótgangs skúr, Mèr láni' og heill að vendir; Mitt andartak hvert er þín náð Og öll velferð; þitt prísa' eg ráð, Gott eitt sem æ mèr sendir.

5. Þú seður allt, hvað líf þú ljær, Líkn og velþóknun meður; Blessunarstraumum bugar oss nær, Bezt styrkir, hjálpar, gleður; Hollur ert, trúr, að

hegna seinn! Hann, þèr rèttlátu! göfgið einn! Dýrð, prís sè drottni tèður.

6. Sæll em eg! manna sœkir sízt Svefn algeymarann blíða; Hvílizt þá, því hann vakir víst, Vært, mínir limir! án kvíða! Þú, upprás lífs míns ástúðlig! Að ráði þínu vekur mig, Nær værð hefi' þegið þýða.

## Nr. 148.

Lagið: Einn guð skapari allra sá.

Guð grannt mig þekkir, grannt mig sèr; Guð veit allt, hvað eg að hefst hèr; Hag þinn því prófa, hjarta mitt! Hugsa vandlega' um ráðlag þitt.

2. Hefi' eg til guðs við hvað sem eitt Hugsað, er gjörði', en illt ei neitt? Glaður, með lotning, gott sem barn, Gjört, hvað hann bauð mèr, hlýðnisgjarn?

3. Vann eg dyggur að verki mín, Sem væri' í guðs og Jesú sýn? Eins frí rangsleitni alla við, Eins og við leti' og flærðar sið?

4. Hvað gjörði' eg í dag gott og hent? Hvað gott hefi' eg lært og öðrum kennt?

Tók eg fús að mèr aumingjann, Athvarfs hjá mèr sem leita vann?

5. Var bróðurleg, ástrík, blíð í dag Breytni mín öll og hjartalag? Þurfti' ei andvarpa yfir mèr einn? Var enginn sá, eg hrelldi, neinn?

6. Geymdi' eg mitt hjarta gætni með, Girnda þá agn mig lokka rèð? Fór til þess stríðs um styrk á leit Stöðugt frá guði bœn mín heit?

7. Var mitt ánœgt í guði geð? Geymdi' eg stöðugleik trúna með? Sem míns Jesú endurleyst eign, Óskabarn guðs og rèttur þegn?

8. Er ekkert, sem mig iðra má? Ekkert samvizku brigzlum slá? Mun efsta dómsins degi á Dagur þessi mig gladdan fá?

9. Ef drottinn lætur dauðann skjótt Fyr' dóm sinn kalla mig í nótt, Fylgi' eg þá kalli feginn hans? Fælist ei augsýn dómarans?

## Nr. 149.

Lagið: Bœn mína heyr, guð herra kær!

Dagurinn liðinn aptur er Og æfi minnar þetta skeið; Hvernig leið það úr hendi mèr? Hvort það mèr ónýtt burtu skreið? Var sú mèr alúð hjartans hjá, Hvervetna gott að stunda bezt? Hvort minnar skyldu' eg helzt rèð gá, Hollt mèr og öðrum rækja mest?

2. Var það þá drottins ótta í, Að þenna liðinn hóf eg dag? Vakti þekk bœn og þökkin ný Og það mig einlægt hjartalag, Mig, sem guðs skepna skynsemd gœdd, Skýrri að helga dyggð og dáð, Æ hófsöm, rèttvís og guðhrædd Á hans vináttu stunda' og náð?

3. Guð mèr vísaði á vissa stètt; Varði' eg þá kappi' og alúð til, Guð minn í þeirri' að göfga rètt Og gjöra vönduð henni skil? Veröld hvort þarfur var eg og mèr? Vandaði hvað, sem iðja bar, Ei af því manns mig auga sèr, En af því drottins boð það var?

4. Hvernig hefi' eg nú hjarta mín, Ó herra! stjórnað þenna dag? Leit opt í

kyrrðum upp til þín Mitt auga, klökkt með hjartalag? Gladdi eg mig þeim guði í, Grátbeiðni vorri' er hyggur að, Og hjartað trausti hreysti' í því, Á honum sem var grundvallað?

5. Hugsaði' eg, þá til þurfta mèr þessarar jarðar gœða naut, Til hins alvalda', er allt frá er, Og þau lèt falla mèr í skaut? Dýrkaði' eg hann í dupti þá? Dýrstrar hans náðar hrœrðist yl? Umbar þolgóður þrauta stjá? Þökk galt, er auðnan fèll í vil?

6. Og hvernig þægrar umgengnis Inndælla stunda njóta' eg vann? Virti' eg hátt gæfu vinfengis? Vakti tal um það, brjósti' í fann? Var mín alvara vel þá stillt? Var mitt gamanið saklaust þá? Mælti' eg ógætinn ekkert illt, Sem iðrast fyrir bljúgur má?

7. Hefi' eg ástvini' og allt mitt hús Annazt trúr og skuldbundið mèr? Til góðs í hljóði frœtt þá fús, Fyrirmynd gefið þá, sem ber? Illiðraði skyldu hjarta sèr Hjá meðaumkunar aldrei mitt?

Var gæfa' annara gleði mèr? Grátsefni böl, er þá fèkk hitt?

8. Iðraði mig strax afbrots heitt, Er einhver brestur varð mèr á? Vannst mèr að sigra' og illri eytt Að fá girnd, sem mèr kveyktist hjá? Og kall í eilífð kveðja inn Ef kann í nótt mig dómarans, Er eg þá fús og albúinn Að mœta fyrir dómi hans?

9. Ó guð minn! þú veizt allt og sèr, Alls engu þig eg leyndan fæ; Daglega sárt enn svíður mèr Sálar breyzkleiki minnar, æ! Fyrir Kristí blóð fyrirgef, Frá skyldu þrátt að veik eg stig! Fyrir hans dauða fyrirgef! Faðir! gakk ei í dóm við mig.

10. Já, þeim, er syndum angrast af, Uppgjöf er brota vís hjá þèr; Sá, sem að mœddum miskun gaf, Mun hana líka veita mèr; Eins muntu vörður yfir mèr Og mínum vera trúr í nótt; Ef lifi eg, þá lifi' eg þèr; Látist eg, dey eg í þèr rótt.

## Nr. 150.

Lagið: Hver veit, hvað fjærri' er æfi endi.

Velkominn aptur, værðar blundur! Velkominn, dauðans-ímynd trú! Líf mitt er þinnar ástar undur, Ó guð! í dag sem við hèlzt þú, Mig geymi eins þín náð í nótt, Í nafni þínu blunda' eg rótt.

2. Og þegar fata efst hefi' skipti, Að köldum verður holdið ná, Önd mín þá friðuð upp sèr lypti Í þá vist mínum Jesú hjá, Er mèr hans kvala ávann nótt; Í trú á hann svo blunda' eg rótt.

# Prentvillur.

Á 6. blaðs., 6. línu: Jórðan les Jórdan

Í 17. sálmi 2. versi 1. línu: nægtum les nœgtum

- 29. — 1. — 2. — færa les fœra
- 33. — 3. — 2. — geysar les geisar
- 40. — 8. — 3. — Lausum les lausum
- 53. — 12. — 1. — verk les verk?
- 54. — 5. — 4. — drottinn les drottin
- 59. — 4. — 5. — og les eg
- 111. — 1. — 3. — eflá' les efla'

Þar að auki byrja hendingar með litlum upphafsstaf fyrir stóran á fáeinum stöðum.

